# SKÍRNIR,

## NÝ TÍÐINDI HINS ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGS.

---

FYRSTI ÁRGÁNGR,

er nær til sumarmála 1827.

---

Rístu nú, Skírnir!
og Skekkils blakki
hleyptu til Fróns með fréttir:
af mönnum og mentum
segðu mætum höldum,
og bið þá að virða vel.

---

KAUPMANNAHÖFN, 1827.

Prentaðr hjá *Harðvig Friðrek Popp.*

# Fréttir 1827.

Vorid 1826 var þurrt og kaldt vídast hvar í Nordurálfu, einkum hennar nyrdra hluta — (ad Íslandi undanteknu, hvar þád var kaldt og vott enn sumarid þó enn vætu-samara) — svo grasleysi og gródrarbrestur þegar ordsökudust þaraf, enn versnudu þó mjög um sjálft hásumarid af hálfgagnstædu vedráttu-fari. Þótt þurkarnir hèlduz vid hófuz þá ógnahitar, er *vídast* brendu þann gródur (einkum af grastegundum), sem ej adr hafdi kalid. Þannig gjördiz ad kalla almenn óáran í mörgum löndum, er lengi höfdu gnægta notid. Jafnvel í Danmörku, er nú ma teljaz medal bestu kornlanda, vard vída misvöxtur, einkum á Jótlandi, hvar sum hèröd ej urdu byrg af sjálfsdédum at vetrar forda. Fyrir óhappi þessu urdu þurrlendin helst, þótt sumar bygdir yrdu svo heppnar, ad verda, ödrum framar, fyrir skruggusküurum er þar yfirgengu, og þannig frjófgudu jördina —(þótt lopteldar og haglvidri annars gjördu sumstadar skada). Í stöku sveitum og á sumum herragördum vard þannig gott kornár, þótt þad yfirhöfud yrdi í lakara lagi. Samt var mikid korn hèdan flutt til ann-

ara landa, einkum ſtóra Bretlands og Svíarſkis, hvar meiri óáran vard enn hèr; urdu því kornpríſar miklu hærri enn í mörg ár ad undanförnu, einkum á byggi, ſem ſtè til 6½ Ríkisdals tunnan, og vard nær því jöfn ad verdlagi vid hveiti (er hitans vegna hafdi vaxid beſt), hvad vart mun ádur ſkèd hafa; þó var rúg dýrara. Vegna grasbreſtſins rírduſt einnig búfjár-nytjar mjög, og ſmjör var ſèrílagi hardla dýrt; líka urdu búmenn um hauſtid ad ſkèra ſkèpnur ſèr til ſkada, enn ſlá heſta af, hvörsvegna príſar brádum hækkudu á ferſku kjöti. — Sá hardtnær dæmalauſi ſumarhiti í Danmörku, er komſt til jafns vid þann ſem vanalegur er í Veſtindium edr allt ad 30 grádum edur ſtigum (á Reaumurs hitamælir) í ſkugga, varadi framm á hauſtid. Af honum leiddi einnig vída ſkort á nautnar-vatni, jafnvel í Kaupmannahöfn. Um nýársleitid 1827 breyttiz ſú væga vedrátta í langvinnt vetrarfroſt, þó lengſt af med lítillri ſnjókomu hèr i landi. Nóttina milli þeſſa 14da og 15da Janúarí ſkèdi hèr og í öllum Nordurlöndum eitt hid geyſilegaſta ofvidri; ſöck þá vedurglasid undir jardſkjálftaſtrik, hvartil hardla fá dæmi gèfaſt. Þegar undir vorid leid, tók froſtid ad hardna, og ſtè allt ad 15 grádum (ſem hèr ei í mörg ár ſkèd hafdi) med töluverdri ſnjókomu og ferdafólk nockurt vard þá ſumſtadar úti. Eyrarſund lagdi, ſvo ad keyra mátti á vögnum til Svíaríkis og frá, enn þann ís leyſti haſtarlega í hláku og ſtormvidri í öndverdum Martſí

mánudi, þótt ísareki vidhèldiz til midju hans, einkum í Beltunum. Tèdar leysíngar ollu skadvænum vatnsflódum og ísgángi í Jótlandi, er velltu um koll heilum vatns-mylnum og mörgum brúum, spilltu þjódbrautum o. s. frv. Skömmu seinna gjördiz önnur frosta- og snjóaskorpa, sem þó ej varadi lengi. Í Sudurlöndum vard veturinn samt miklu hardari, einkum í Sveitsaralandi, hvar snjóflód gjördu bygdum og mönnum mikinn skada, svo og í Portúgal, Spáni og Fránkariki, hvar marga kól til bana. Í Stóra Bretlandi vard einnig dæmafá snjókoma sem hindradi póstferdir. Sama er um Valland og þýdskaland ad segia, hvar kuldinn vard dæmalaus í manna minnum t. d. í Týbingen (í Kóngaríkinu Vurtemberg, hvar vín aflaz á sumrum) til meir enn 25 stiga (er mjög mun sjaldgæfur á Íslandi, einkum vid þess sudlægu sjáfarstrendur).

Almennt heilsufar í Nordurálfu mátti á árstíma þessum yfirhöfud reiknast í betra lagi, ad undanteknu sóttarferli því er hinn mikli sumarhiti á nordurlöndum sumstadar eptir sig leiddi, einkum á þeim láglendu sjáfarströndum, sem í hitt id fyrra höfdu ordid fyri stórflódum. Mest plágadi sú landfarsótt þau sameinudu Nidurlönd, einkum stadinn Græníng (Gröníngen), hvar hún vard ein hin skædasta drepsótt, er sagt var ad væri tegund af þeirri svo nefndu *Cholera* (gallsýki), sem mannhættust hefur reynst á seinni árum í Austindíum og sídan útbreidst um alla austurálfu, jafnvel til Egypta-

lands og Rúfslands. Hin fama fótt gèck einnig yfir mörg pláts í þeim Danmörk tilheyrandi Hertugadæmum, enn er nú þadan ad mestu edur gjörfamlega horfinn. Ennþá stack bólann fèr nidur híngad og þángad í Kaupmannahöfn og vídar í ríkinu, enn geyfadi þó meir í Svíaríki, Fránkaríki og Þýdskalandi; — um edli hennar má vidlíkt fegja og fyrri í fagnablödunum hefir greint verid.

Tilburdir þeir er í Portúgal skèdu munu ad líkindum leida eptir fig (og hafa þegar ad nockru leiti leidt) mikilvægar fylgjur, fyrir ástand og hagi flestra nordurálfunnar þjóda. Eptir andlát Jóhanns Konúngs (og sídarst Keifara) hins fjötta (þann 10 Martsí 1826) gjördux miklir flockadrættir í ríkinu, þar fumir vildu hylla hans eldsta fon, Brafilíu Keifara, Pètur 1ta, enn adrir hans ýngra bródur, Prins Michael. Hinn fyrri flockur vann þó figur (ad margir meintu med tilhjálp hins enska fendiboda og af ótta fyri nálægum bretskum flota) enn fystur tèdra brædra, Prinfesfu Ífabellu (25 ára gamallri) voru hin ædstu stjórnarrád um stund í höndur fengin, uns fvar kæmi fra Keifara Pètri. Hann gaf þad þannig þann 19da Aprílis: ad hann fráfagdi fèr ad öllu leiti þá Portúgífisku konúngstign, enn affaladi hana um leid finni úngu dóttur, Prinfesfu Maríu (er þó hefir 17 önnur nöfn) nú á 8da aldursári, enn skuldbatt hana um leid til ad trúlofaz födurbródur fínum, Prins Michael. Einnig gaf Keisarinn ríkinu Portúgal nýtt stjórnarform (*Carta*

*da lei*), er í mörgum póstúm líkist því franska og enska. Ríkisrádid (er nefnist *Cortes*) hefur þannig eitt Yfirhús edr jafníngjastofu, í hvörju biskupar og ædstu veraldlegir höfdíngiar sitja; og eitt Undirhús edur nefndarmanna stofu, í hvörri kosnir fulltrúar þjódarinnar ega sæti. Undireins gaf Keisarinn 86 stórhöfdíngjum jafníngja-tign, med erfdarètti afqvæmis þeirra í karllegg, og gjördi Hertugann af Kadóval til þeirra Forseta. Tèd grundvallarlög gáfu einnig landsins þegnum (edur borgurum) ýmisleg mikilvæg rèttindi og lögmæta fríun frá margskonar kúgun og grimmilegum refsíngum. Hinn enski sendibodi Sir Charles Stúart, (hvörjum margir eignudu mikinn þátt í þessu verki) færdi lögbók þessa til Lissabonar, og lètu flestir þar sem þeir hefdu himin höndum tekid. Prinsessa Ísabella, sem stadfest var í stjórnarvaldinu vegna þeirrar úngu drottníngar og födur hennar (sem hennar fjárhaldsmanns edur formyndara) sór stjórnarforminu hlýdni og hollustu, ásamt Yfirmönnum og borgurum í flestum ríkisins stödum, sem um leid hylltu þá nýu drottníngu. Strax tók þó ad brydda á margskonar óróa og óánægju med tèdar nýbreytíngar, bædi í höfudstadnum og annarstadar, hjá þeim fyrrgreindu flockum, sem hötudu allskyns frelsisrètt þjódarinnar, enn vildu einúngis hylla Prins Michael, edur módur hans, þá nafnkendu eckju-drottníngu Skarlottu (Charlotta) systur konúngsins af Spáni. Í Lissabon vard ad sönnu upphlaupid stillt (þótt sjálft Pólitíid stýrdi því ad miklu leiti), og England jók strax sinn flota vid Portúgals strendur

med nýútsendum herskipum — enn úr upplöndum struku heilar herfylkíngar til Spáns, hvadan adrir óánægdir einnig leitudu hælis í Portúgal. Þótt hinir sídastnefndu ei reyndu edur fengju leyfi til ad ónáda þadan stjórn sins födurlands, var Portúgísum aungvu ad sídur leyft á Spáni ad hertýgjaz þar og útbúaz á annan hátt til upphlaupa mót stjórn sinnar fósturjardar. Sonur hins nafnkènda Greifa Amarante, Markís (edur Margreifi) Chaves (og kona hans) stýrdu heldst því herhlaupi, er brádum skèdi frá Spáni á tèdann hátt, yfir Portúgals landamæri, þótt þad ad sinni ej hlyti mikinn framgáng. Þann 4da October sór þó Prins Michael (sem þá var í borginni Vín í Austurríki) því nýa stjórnarformi trúnadareid, og trúlofadiz, eptir undirlagi Keisara Pèturs, Portúgals úngu drottníngu og bródurdóttur sinni, þann 29da s. m. Næsta dag kom Cortes-Rádid í fyrsta sinni saman í Lissabon, enn strax þareptir skèdi mestur yfirgángur upphlaupslidsins frá Spáni, í umdæmunum Beira og Tras os Montes, hvar þad nádi mörgum stödum og kastölum, enn lèt allstadar úthrópa Prins Michael til konúngs med fullkomnum einvaldsstjórnar-rètti. Í höfudstadnum sjálfum, hvar enskir hermenn urdu Prinsessu Ísabellu hirdmenn, stödvadist ad sönnu nýr órói med þeirra tilstyrk, enn vart sá út til ad herhlaupinn frá Spáni, og þaraf qviknud landrád í ymsum sjálfs ríkisins umdæmum, mundu nidur þöggud verda, án hjálpar úr framandi löndum. Hèrtil stód England næst, bædi vegna afskifta þess stjórn-

ara vid öll hin miklu umſkipti, er gjörſt höfdu um ríkisrádinn, og þó enn fremur í tilliti til eldgamallra og opt endurnýadra vináttu- og varnarſáttmála millum ríkjanna. Þeſs hjálpar var því krafiz, og veittiz hún þá líka bædi brád og gód. 10,000 hermenn voru þadan ſendir Portúgals lögmætu ſtjórn til ſtyrks móti inn- og útlendum ſjandmönnum. Flotinn, ſem þá flutti, var gjördur út í furdu-hafti, og fèck brádaſta byr til Lisſabonar, hvar fyrſtu herflokkarnir gengu í land ſjálfann nýársdag, med miklum fagnadi af hálfu þeirra medal ſtjórnenda, ſem alúdlega voru nýu lögunum hollir, hvad ej er ſagt þeir munu allir vera. Margir adrir höfdu ímuguſt á Bretum, ſem villumönnum, er vopnadir brytiz inn í landid til ad verja þær nýbreytíngar, hvörra höfundar þeir ſjálfir væru. eptir ſumra múka, adals- og almúga-manna útleggíngu. Hèraf tendradiz vída fullkomid hatur, og þó þad í Lisſabon yrdi ad leyna ſèr, funduz ſtöku Englismenn myrdtir hèr og hvar í afſídis ſtrætum borgarinnar. Sjálfir urdu þeir því varari um ſig, enn lètu ei fæla ſig frá ad rækja ſkyldu ſína. Samt krafdi útbúníngur þeirra í höfudſtadnum nockurrar dvalar, og vart var rádlegt ad þeir allir þadan viki. Medan á þeſsu ſtód fóru uppreiſtar-flockarnir yfir upplönd ríkiſins, hvar ſem færi gafſt, eins og logi yfir akra, þótt þeir ſumſtadar líktuz villi-eldi einum, því drottníngarinnar ædſti innlendi hershöfdíngi Villaflór vardi ríkid med meſta dugnadi og trúmennsku, þótt ſagt ſè ad ha

lid bædi hefdi vantad ſkotgjald og hertýgi, enn óvinirnir þarámót haft gnæga peníngaog gódan búnad, hvör kjör þeirra af ſumum eignud voru ſtyrk þeirra ríku Spönſku klerka og þeirra áhángenda ad nockru leiti, enn ad ödru leiti örlæti þeirrar nú flugríku eckjudrottníngar af Portúgal, ſem ætíd hafdi verid allskonar frelſisſtjórn mótſnúin, eins og bródir hennar á Spáni. Um þad hafa ádur Sagnablödinn gètid, ad henni eitt ſinn þeſs vegna hafi verid burt úr ríkinu víſad, medan ekta-madur hennar var á lífi, og ad hún ſídar ſat í nockurskonar vardhaldi (enn þó annars í gódu yfirlæti) á ſlotinu Qvelúz. Svo hlaut nú enn ad vera, enn ſagt var ad hún á öndverdum vetri 1826 nær því hefdi ſloppid þadan í múkaklædum, enn rádamadur einhvör þar í grend þeckti hana ofſljótt, ádur hún algjörlega burt kæmiz, og var henni því víſad heim aptur í ſömu kyrrſetu ſem fyrri. Sídan er sagt ad enſkir hermenn vakti ſlotid. Ei er hèr rúm til ad rita greinilega um herhlaup uppreiſtarmanna í Portúgal á þesſum vetri, ſem ej heldur eru ſèrlega ſöguleg, eptir því ſem enn hefur til frèttſt, ad því undanteknu: ad adalher upphlaups manna, 11000 alls, hlaut vid ſtadinn Coruches, þann 9da Janúarí, algjörlegan óſigur mót drottníngarinnar lidi, ſem ej hafdi fleiri enn 9000 hermanna. Annars mun nóg vera ad gèta þeſs: ad þrisvar edur fjórum ſinnum höfdu uppreiſtar-flokkarnir í öndverdu töluverdan framgáng, enn hlutu brádum mesta óſigur og hvurfu á flótta inn yfir Spáns

landamæri, hvar þeim enska sendiboda ad sönnu jafnan var sagt, ad vopninn væri frá þeim tekinn, eptir samníngum medal ríkjanna, enn hann gaf þó vitni um, ad þeir jafnódum brutuz tilbaka, stundum jafnvel útbúnir med spönskum vopnum, skotsilfri og lidsafla. Hættulegast vard áhlaup þeirra á öndverdum Þorra, þá þeir nær því höfdu nád þeim mikla Kaupstad Porto (edur Oporto, hvadan hid svokallada Portvín flytst), hvar margir enskir Kaupmenn hafa adsetur edur verdslun og stórkostleg fordabúr af ymsum varníngi. Örskamt voru uppreistar - flockarnir frá stadnum komnir, enn hershöfdínginn Vilhjálmur Stúbbs, sem líklega er af bretsku edr írsku kyni, enn hafdi mjög fátt strídslid, bjóst þó til ytrustu varnar med stökum dugnadi, og flestur borgarlýdur veitti honum því öruggt fylgi. Um sömu mundir kom einnig megin-her drottníngarinnar þann 4da Febrúarí óvart á uppreistar-lidid, svo þad aptur tvístradiz ad vanda, og leitadi hælis á Spáni. Nú er einnig mikill hluti hins enska hjálparlids vikinn til upplanda, og hefur sest í nockra kastala í nánd vid hin spönsku landamæri. Ef upphlaupsmennirnir enn þá, í 4da edur 5ta sinn, vekja þadan nýan óróa, munu Portúgísar og Bretar vart lengur hlífaz vid ad gjalda líku líkt, og yrdi þá hardla óvíst nær strídsbál þad til hlýtar slokkna mundi, edur hve lángt þess gneistaflug dreifaz kynni. Seinast þegar til frèttiz höfdu Bretar komiz yfir brèf, sem af upphlaupsins foríngjum höfdu

verid skrifud til eckju - drottníngarinnar og annara, í hvörjum sagt er ad Spánskonúngi sè eignud margskonar hlutdeild parí, enn sannindi pessarar fregnar eru ofs enn pá mjög oljós. Vissara mun pad ad frístjórnar lögmálid nýa mætti margvíslegum hindrunum, bædi heimuglegum og opinberum, af allmargra Portúgíssa hálfu(annara enn eginlegra uppreistarmanna); svo Bretum pegar tók ad leidaz pessi ærid útdragsama styrjöld, sem ad nockru leiti virdiz fyri gýg unninn.

Um Spáns innvortis ástand er ad mikla leiti hid sama ad segja og í fyrra. Upphlaupsandi tveggja flocka, hvörra augnamid pó eru algjörlega gagnstæd, vídhèlst á sama hátt, pótt frístjórnar - vinanna umbrot lètu sig midur í ljósi, og yrdu skjótar sefud. Parámót próadiz mjög sá flockur, er hefja vildi ofríkisstjórn og klerkaveldi til efstu tinda, öllum vonum fremur, svo vid sjálft lá ad hann afrekad hefdi affetníngu Konúngs Ferdínands, er virdtiz múkum mildur um of (hvad annarstadar ej vel vill mönnum skiljaz), enn innsetníngu bródur hans Prins Karls, af hvörjum peir væntu sèr og pápiskum enn meiri frama. Pó blídkudust peir af lánglundargèdi konúngsins vid pá Portúgísisku upphlaupsmenn, hvörjum hann opt veitti edur lèt veita hinar bestu vjdtökur, eins og ádur er umgètid, pví spönskum klerkum og einvaldsvinum stód mikill ótti af Portúgals nýa stjórnarformi, ef pad nædi nockrum proska, vegna nábýlis og annara samskipta, sem ad peirra ætl-

on hæglega kynni ad vekja nýar biltíngar til líkra umskipta á Spáni. Klerkar lofudu því af ytrustu kröptum ad styrkja Ferdínand konúng til strída vid Portúgal til ad nidurkæfa frístjórnina þar, og víst er þad ad hann, sem ádr hafdi verid í mestu peníngaþraung, nú ej skorti skotsilfur til mikils herbúnads, sem gjörst hefur á þessum vetri. Englands sendibodi Herra Lamb hefir ad sönnu ávallt krafiz, síns konúngs vegna, ad eckert fjandlegt fyritæki mætti skè edur leyfaz mót Portúgals drottníngu edr grundvallar lögum, enn vart hafa þær hans tillögur mikils megnad. Fracka kóngur qvadst einnig opinberlega vera Englandi samþykkur í því efni, og heimkalladi aptur þad Sveitsaralid sem vardhald hafdi haft i höll Spáns konúngs. Hvört þessar sameinudu kröfur framvegis megna nockurs. edur hvört Spáns og Englands alvarlega ósamþykki brýtst út í opinbert stríd (sem bylltaz kynni á marga vega og ná til fleiri þjóda), er allt enn þá á huldu og ókominn tíd hlýtur ad lypta skýlu þeirra tilburda. Reglulegt spanskt herlid hefur lengi ej verid í sèrlegu áliti hjá ríkisstjórninni (líklega vegna upphlaupa þeirra sem fyrrum innfærdu Kortes-stjórnina) enn þeir svonefndu Konúnglegu fríviljugu strídsmenn þar á mót í miklum metum, þótt þeir opt hafi sýnt sig ærid rádríka, til dæmis nýlega í Madrít, hvar þeir hindrudu aftöku mordíngja nockurs er aungvanvegin þókti lífgjafar verdur, einúngis vegna þess ad hann var úr þeirra flokki. Hardla margar voru þær upphlaups-tilraunir í

ríkinu, er á þessu ári urdu nidurkjæfdar, þó fáar töluverdar af frístjórnarvinum, nema Ofursta Bazans, sem hafdi haft tilhald í Gíbraltar og dregid saman vopnadan flokk, er skömmu eptir hid fyrsta áhlaup átti hardann bardaga vid þá konúnglegu fríviljugu, sem ofurlids vegna hlutu figurinn, enn tóku Bazan höndum, og var hann strax tekinn af eptir strídsrèttar dómi. Miklu fleiri uppreistir gjördu þó þrælkunar- og hjátrúar-vinir, einkum þeir svonefndu Karlistar, hvörra höfdíngjar, þó þeir yrdi fyrir ósigri, optast fengu vægan dóm, til dæmis Hershöfdínginn og fyrrverandi múkur Capape, sem olli mikillri styrjöld og herhlaupum, enn var þó fríkèndur af dómstólunum; samt skipadi Konúngur loks ad hann settiz í sex ár til þrælkunar á galeidunum. Ecki gat hinn svonefndi Trappisti Antonius Marannon, múkur nefndrar ordu, (um hvörn Sagnablödinn i 7du deild gètid hafa) átt hlut i neinum þesskonar óróa, því vegna líkra tilhneigínga hafdi hann fyri tveimur árum verid kyrrsettur í klaustri sínu, og andadiz þar af sóttarferli þann 9da October. Á þessu tímabili mistu spanskir sitt sídasta hæli á Sudur-Ameríku meginlandi, kastalann Kallaó og lika Chílóe-eyar, svo nú halda þeir einúngis eylandinu Kúba og máskè nockrum þorpum í Kaliforníu í allri þeirri heimsálfu, hvar þeir ádur áttu tvö voldug Keisaradæmi, um hvör þó loksins segja mátti: ad illur fengur illa forgengur.

Fyrir utan Kólúmbiska víkínga hindrudu

Algeirs Tyrkjar sjóferdir og verdslun Spanskra; þeir gjördu jafnvel sumstadar strandhögg í ríkinu sjálfu, brendu þorp og rændu fólki, eins og þeir fyrrum gjördu á Íslandi. Loks hlaut Konúngurinn ad kaupa sig í frid vid þá med ærnum peníngum. Margt var sorglegt á Spáni um þessa tíd, enn fátt gledilegt, nema heppnar tilraunir í þess sydri hluta til ad planta Kaffetrè (sem og nú reynaz ad vaxa í Sudur-Þýdskalandi) sikurreyr, indigó-grös og adra dírmætar urtir, sem menn ádur ej ætludu ad mundi gèta i Nordurálfunni vaxid. Líka voru sum þeirra gömlu bergverka (sem mjög lengi höfdu vanrækt verid vegna Vesturálfunnar audæfa) aptur ad nýu sett i gáng, svo nú mátti segja um Spán, er svo lengi hafdi legid í leti og dofa, ad neydinn kènnir naktri konu ad spinna. Svo meina menn ad jafnvel þótt Spán nú innihaldi 11 Milliónir 500,000 sálna, muni sú fólkstala ei nema þridjúngur þeirrar, er í þessu fagra og frjóssama landi lifad gæti, ef frelsi, idjusemi og atburdir þjódarinnar væru sem vera bæri.

Í Fránkaríki þrifuz Jesúítar æ meir og meir ad nýu, og útbreiddu, ad gömlum vanda, þann hræsnis- hjátrúar- og þrældómsanda, sem þeirra umrádum er vanur ad fylgja. Þeirra sannarlegt Meistarastykki er hin svokalladaCongregatsíón(edur söfnudur), því svo nefniz nockurskonar andlegt samband, hvörs limir fólk af allskyns stèttum ordid gètur, frá furstanum til vinnumannsins edur kóngsdótturinni til vinnukonunnar, enn skylda þeirra er þarf

innifalinn ad halda trû sína vel (í útvortis at-lotum á pápiskann hátt) hlýdnaz algjörlega þeim andlegu yfirbodurum, og skjóta peníngum saman, edur jafnvel vinna launalaust, hvör eptir sínum efnum, til safnadarins og trúarinnar útbreidslu. Afarfè er þannig saman-hrúgad, og mun því helst varid til leynilegra fyritækja; þessi franski huldu-söfnudur meina sumir sè í sameiníng nockurri vid hinn spanska og portúgísiska, og ætla því ad hægt sè ad giska, hvadan þad ríkuglega skotgjald komi, sem upphlaupsmennirnir í Portúgal og herlidid á því annars svo fátæka Spáni nú hafa vid ad styðjaz, til trúarbragdanna og (klerklegrar) einvaldsstjórnar vidrettíngar. Öllum vonum fremur hefur samband þettad þróast í Fránkaríki, og er því kènnt um þad nýa lögmál, sem nú er þar í fædíngu mót prentverkanna framá, og midar til ad kæfa allt þánka- og ritgjörda frelsi, enn til ad útbreida páfavillu og hleypidóma, því ritlíngar um allt slíkt (svósem ný kraptaverk, fyriburdi, sjónir o. s. frv.) megá, eptir því nýa lagaframvarpi, prentaz og útdeilaz hindrunar- og afgjalds-laust, nær þad skèdur af andlegu yfirvaldi o. s. frv. Þeir svökölludu Kristnibodarar (*Missionarii*) edr múkar og klerkar, sem efla páfatrúna, hafa i nockur ár svamlad flokkum saman um landid, í svonefndum prócessium, láta bera krossa og helgidóma fyri sèr og prèdika fyrir alþýdu á torgunum. Þá er ej vilja fylla þeirra flock edr halda sínum undirgèfnum partil, ofsækja þeir leynt og ljóst, og er

jafnvel sagt ad margir hermanna-foríngjar og adrir yfirbodarar hafi af þeirra völdum mist embætti sín edur jafnvel sjálfkrafa sagt þau af sèr. Atferd þessi vard þó ei allsstadar vinsæl, og í Rúdnborg (Rouen) í Normandíi gjördiz jafnvel almennt upphlaup, í hvörju þeim svonefnda kristnibodara, ábóta Löwenbrouk, mjög var misþyrmt, enn slot erkibiskupsins vard fyri drjúgum árásum, uns herlidid loks gat stillt þær med vopnum og þó ej án blóds úthellíngar. Annars voru tíd og árferdi allgód í Fránkaríki og almenn idjusemi blómgvadiz vel, einkum í París, sem alljafnt eykst og frídkar ad útlitum. Medal margra franskra merkismanna, er nú öndudust, voru einnra nafnkèndastir: Hertogi Matthias Montmorency (fyrrum vinur Vashíngtons, Nordurameríku frelsishetju), Greifi Boisfy d'Anglas, (Íslendíngum gódkunnugur af Herra Conferenzráds Dr. Magnúsar Stephensens frásögu um Fránkaríkis stjórnarbyltíngar, í hans minnisverdu Tídindum), Greifi Lanjunais, merkis-madur sömu tídar, Greifi Laplace, einn hinn mesti meistari í mælíngafrædi, hermileikarinn Talma (hvörn Erkibiskupinn af París tvisvar heimsókti á hans banasæng án þess ad fá ad tala um fyrir honum) og málarinn David, sem dó í útlegd í Brussel í Nidurlöndum (vegna hluttektar í daudadómi Lodviks konúngs hins 16da), hvar honum þó á ad reisaz prýdilegur minnisvardi. Um midsvetrarbilid var sá nafnfrægi aldradi Fursti Talleyrand, eptir hátídlega Guds þjónustu, vid kirkjuportid, yfirfallinn

af Markís (edr Margreifa) Maubreuil (annars ej vel ræmdum) med svo voldugum kinnhesti, ad hann datt flatur á strætid, og lá um hríd í aungviti. Margreifinn var strax settr í vardhald, enn sídar dæmdur til fimm ára fángelsis og drjúgra útláta. Hann virdtiz ej sumum ad vera med öllum mjalla, og hafdi líka þad óhapp ad talsmadur hans, þá hann fyri rèttinn kom, qvadst vera svo veikur, ad hann ej gæti neitt sagt þeim ásakada til málsbóta. Menn meintu hann hafa til þess mútu þegid, enn um nóttina eptir hljóp hann nakinn út á stræti, og reyndiz þá ad vera vitstola ordinn. — Fólksfjöldi í öllu Fránkaríki reiknaz nú til 31 Millióna 600,000 sálna.

Stóra Bretland hafdi nú ad mestu yfirstadid þær byltíngar, er nýlega skèlft höfdu almenníngs fjárhag og velmegan, þótt allmargir vart munu nockru sinni hljóta tjóns síns algjörlegar bætur, og vída hvar var neydinn ennþá stór medal almúgans í þeim svonefndu fabríkustödum, hvaraf órói nockur sumstadar vaktist. Þessvegna var loksins innfærsla útlendsins korns leyfd um sinn med vissum skilmálum, hvad raunar mjög mun hækkad hafa kornprísa á nordurlöndum. Einnig nutu útlendir kaupmenn nú stærra frelsis í ríkinu enn verid hafdi. Strídid vid Birmana endadiz heppilega og heidarlega, eins og náqvæmar mun greint verda í frèttum úr Austurálfu. Parlamentinu var uppsagt um stund þann 31ta Maji, enn í midjum September ferdadiz stjórnarherr-

hættulegar aráfir og inntók Athenuftad, þótt Grickir verdiz prýdilega á þeim eldgamla kaftala Akrópólis. Hetjan Gúras var þeirra fyrilidi, enn fèll brádum í fnörpu úthlaupi móti ofurefli Tyrkjaherfins. Sídan komft hinn franfki ofurfti Fabvíer og nockrir honum undirgèfnir hermenn (hvörja hann æft hefur í ftrídslift Nordurálfu þjóda), inn í kaftalann, og flutti þángad vopn nockur og matvæli. Yfir Refhid og ödrum tyrknefkum hershöfdíngjum er ad fönnu fagt ad Kara Hyfkaki hafi hlotid tvær ágætar figur-vinníngar þann 6ta og 19da December, og ad uppreiftinn móti Tyrkja yfirrádum útbreidiz í efri umdæmum meginlandins; þó höfum vèr vart enn þá fannar fögur af þesfum vidburdum, og hljóta þær því ad geymaz til síns tíma. Vart hafa þeir ad minnfta kofti fríad Athenu kaftala frá hördu og laungu umfátri, af hvörju ýmislegar enn óvisfar flugufregnir borizhafa. Beraz nú einnig þær nýuftu frèttir, ad Tyrkjar þarum flódir hafi mikinn framgáng og óvígan her, hvad ej er heldur ólíklegt vegna lidsfjölda þefs er Soldáninn faman dregur, og verda þeir því verri vidureignar, sem þeir læra betur þá nýu ftríds atferd, sem þeim hefir kènd verid.

Um fjóftrídid í Grieklands-hafi er þad heldft ad fegja: ad hinn mikli Tyrkjafloti á nærftlidnu fumri gjördi þrjár tilraunir, til ad ná eyunni Samos, enn var jafnopt rekinn hrapar-lega til baka, meft af ágætri vörn hins griska admirál Sachtúris og hetjunnar Kanaris, fem

þó fèck ſtórkoſtlegt ſár í einum þeirra bardaga, er ſídan þó gróid hefur. Ád því búnu ſneri Tyrkja flotinn um ſinn heim til Miklagards. Ej heldur vann hinn egyptſki floti nein frægdarverk á móti Grickjum á þeſſu tímabili, enn var þó heppinn í flutníngsferdum til og frá Móreu. Mjög qvörtudu Nordurálfu kaupmenn á því ſumri yfir ránum og áhlaupum griſkra víkínga og ſjóreyfara mót ſkipum þeirra, og riſu þaraf margar þrætur og ſmábardagar vid franſka og enſka, enn þó meſt auſturríkska herſkipaforíngja. Ad ſönnu fyribaud hid griſka ſtjórnarrád allan víkíngskap og reyfarahátt, enn þad hafdi ecki mátt til ad framfylgja því forbodi med tilhlýdilegri alvörugèfni.

Tèd stjórnarrád var fyrſt í Nápólí, enn gat þar ej vidhaldiz vegna óeiníngar herforíngjanna, ſem optar enn einusinni börduz hvör vid annann med vopnum og fallſtykkjahrídum, og fluttiz þadan til eyarinnar Egínu(Ægina), og lagdi forbod fyrir ad nockur hermadur setti fót ſinn á þá eyu, hvad þó ecki gedjadiz ſtrídsmannahöfdíngjum vel. Á tèdu tímabili útgaf ſtjórnarrádid mörg nytsamleg lög, enn vídaſt gèck þó ennþá lagaleysid yfir vegna ſtyrjaldar og innbyrdis óſamþyckis, eins og optaſt vill verda (eptir ſornum ordsqvidum) ad í vopnagný hlýtur lögmálid ad þagna, enn rèttindi haga ſèr eptir ſpjótskaptinu. Var ej nu heldur annars ad vænta, þar hinn gamli, rádríki og ómilldi Kólókóthron (ſem af fleſtum er mjög egingjarn ſagdur) hafdi Griskja herſins ædſtu yfirrád á hendi,

enn Márokordató var frá öllum völdum settur.

Afarmikinn styrk hlaut Grickland annars af stórgiöfum og vinfengi margra Nordurálfu þjóda, þótt fæstir ríkisstjórnara ættu þátt í þeim, enn enginn opinberlega sýndi þeim neina strídshjálp, nema máskè konúngurinn af Bayern, er jafnan veitti þeim stórgjafir, og ad minnsta kosti leyfdi æfdum hermönnum þángad ad fara, (nockrir meina jafnvel á hans kostnad); fyrilidi þeirra er ofursti Heidegger, sem kènna ætlar Grickjum nýa strídslist, samsetta af vanalegri atferd Nordur- og Austur-álfu þjóda. Í Englandi hafdi stjórn Grickja fengid afarmikid penínga lán, og sumir ríkis- og merkismenn qváduz vera þeirra einkavinir, hvörsvegna þeim, ásamt Grickja sjálfra útsendu umbodsmönnum, var trúad fyri medferd peníngsanna. Flestum þeirra var þó sídar, jafnvel þeim nafnkènda og ádur velræmda málsnillíng Hume, brugdit um sèrplægni, og vard þeim þad til stakrar nidrunar í almenníngs áliti. Verst var þad þó, ad mestum hluta þess lánada afarfjár hafdi útausid verid til byggíngar nockurra dampskipa, er varadi árum saman, enn þegar þau loksins brúkaz áttu, voru þau flest alls ónýt og jafnvel ecki sjófær. Sá nafnfrægi admíráll, Lord Cochrane, hafdi fyri frekum árstíma gengid á griskan mála, og tekid borgun fyri fram, en þó uppihaldid sèr í Nidurlöndum, Fránkaríki edur vid Vallands strendur, vegna þess ad hann ávallt beid eptir þeim mikla dampskipa flota, sem sagdur var ad sigla ætti þá og

þá, enn gat þó aldrei á sjóinn skridid. Ödrum hluta lánsins var (ad sögn manna) út í Nordur-Ameríku frílöndum, ad nockru leiti undir umsjón hins fyrrum nafnkènda franska hershöfdíngja Lallemand; áttu fyri þá penínga ad byggjaz tvær fregátur, enn vard þó ej nema ein, vegna sèrplægnis þess peníngamángara sem útlátunum stýrdi og annara hlutadegerda. Var þó sagt ad þessi fregáta (sem ad sönnu er ein hin stærsta og best útbúna í Nordurálfu, hafandi 74 fallstykki og jafngód sem stórt línuedur Orlog-skip) vart hefdi keypt ordid, ef edállund sannra Gricklands-vina þar um slódir ej hefdi varid þartil nockrum fèmunum. Þann 5ta December sigldi þettad mikla skip, er nefniz *Hellas* edur Grickland, inn á Náplíons höfn, sama dag og hinn bayerski ofursti Heidegger og fèlagar hans komu þángad á kaupskipi frá Vallandi. Sagt er ad admiráll Miális sídar sè ordinn fregátunnar skipherra. Í fyrra haust keyptu Grickir enskt dampskip; er nú nefniz *Kartería*, hvört þeir bjuggu út til herferda, og heldur þess fyrrverandi yfirbodari, hinn bretski Hastings, þeim sömu umrádum. Loks er nú sagt ad admiráll Cochrane, hvörs Grickir lengi bedid hafa, sè sigldur, í midju Febrúarí mánadar frá sydra Fránkaríki, þeim til hjálpar, med tveimur litlum strídsskipum, þó vel utbúinn med skotsilfri og vopnum. Lengst af hafdi hann seinast haldid til í stadnum Marsilíu (Marseille), hvar Egyptalands stjórnari hefur látid mörg og stór herskip byggja.

Ný von vaknar nú medal Grickja af fregnum þeim, er almennt gánga um kröfur frelsis þeirra af Tyrkjum frá Rússlands og Englands voldugu drottnum, einkum þar því vid er bætt ad Nikulás keisari táki svo til orda: ad vilji Soldán ecki hyllaz hans sanngjörnu medagalgaungu, muni hann ecki lengur horfa adgjördalaus á slátrun sinna trúar-brædra. Þann 10da Febrúarí kom hans sendibodi Ribeaupierre til Miklagards, enn óvíst er samt hvörnig þessar edur adrar hans erindagjördir snúaz muni, Fólkstölu Grickja meinaz nú ad vera þannig varid: í Móreu 700,000 sálna, í Nördur-Grícklandi 800,000, á eyunum 300,000, edur alls 1 millión 800,000. Í fyrra sumar deydi hinn aldradi erkibiskup Germanos af Patras, sem þá fyri sex árum fyrst hafdi knúd landa sína til uppreistarinnar og þess lángvinna frelsis-stríds.

Persaríkis aldradi konúngur hóf hastarlega á næstlidnu sumri stríd vid Rússa keisara, hvörn hann skuldadi fyri sáttmálabrot og rádríki yfir sumum umdæmum, til hvörra hann ecki hefdi eignar-rètt. Ej hefur meira víst edur markverdt frèttst af strídi þessu, enn þegar er greint í Rússlands tídindum. Komiz fyrrtèd ríki af í þessu strídi án algjörligs undirgángs, mun þad ad líkindum heldst ad þacka medalgaungu og fyribænum Breta, er álíta þad sem naudsynlegan forgard síns mikla Austindíaveldis.

Í Austindíum hafdi ad sönnu fridur verid saminn medal Breta og Birmana um haustid 1825, enn keisari hinna sídar nefndu neitadi,

þá, enn gat þó aldrei á sjóinn skridið. Ödrum hluta láns ins var (ad sögn manna) út í Nordur-Ameríku frílöndum, ad nockru leiti undir umsjón hins fyrrum nafnkènda franska hershöfdíngja Lallemand; áttu fyri þá peninga ad byggjaz tvær fregátur, enn vard þó ej nema ein, vegna sèrplægnis þess peníngamángara sem útlátunum stýrdi og annara hlutadegenda. Var þó sagt ad þessi fregáta (sem ad sönnu er ein hin stærsta og best útbúna í Nordurálfu, hafandi 74 fallstykki og jafngód sem stórt línuedur Orlog-skip) vart hefdi keypt ordid, ef edallund sannra Gricklands-vina þar um slódir ej hefdi varid þartil nockrum fèmunum. Þann 5ta December sigldi þettad mikla skip, er nefniz *Hellas* edur Grickland, inn á Náplíons höfn, sama dag og hinn bayerski ofursti Heidegger og fèlagar hans komu þángad á kaupskipi frá Vallandi. Sagt er ad admiráll Miális sídar sè ordinn fregátunnar skipherra. Í fyrra háust keyptu Grickir enskt dampskip; er nú nefniz *Kartería*, hvört þeir bjuggu út til herferda, og heldur þess fyrrverandi yfirbodari, hinn bretski Hastíngs, þeim sömu umrádum. Loks er nú sagt ad admiráll Cochrane, hvörs Grickir lengi bedid hafa, sè sigldur, í midju Febrúarí mánadar frá sydra Fránkaríki, þeim til hjálpar, med tveimur litlum strídsskipum, þó vel utbúinn med skotsilfri og vopnum. Lengst af hafdi hann seinast haldid til í stadnum Marsilíu (Marseille), hvar Egyptalands stjórnari hefur látid mörg og stór herskip byggja.

Ný von vaknar nú medal Grickja af fregnum þeim, er almennt gánga um kröfur frelsis þeirra af Tyrkjum frá Rússlands og Englands voldugu drottnum, einkum þar því vid er bætt ad Nikulás keisari táki svo til orda: ad vilji soldán ecki hyllaz hans sanngjörnu medagalgaungu, muni hann ecki lengur horfa adgjördalaus á slátrun sinna trúar-brædra. Þann 10da Febrúarí kom hans sendibodi Ribeaupierre til Miklagards, enn óvíst er samt hvörnig þessar edur adrar hans erindagjördir snúaz muni. Fólkstölu Grickja meinaz nú ad vera þannig varid: í Móreu 700,000 sálna, í Nordur-Gricklandi 800,000, á eyunum 300,000, edur alls 1 millión 800,000. Í fyrra sumar deydi hinn aldradi erkibiskup Germanos af Patras, sem þá fyri sex árum fyrst hafdi knúd landa sína til uppreistarinnar og þess lángvinna frelsis-stríds.

Persaríkis aldradi konúngur hóf hastarlega á næstlidnu sumri stríd víd Rússa keisara, hvörn hann skuldadi fyri sáttmálabrot og rádríki yfir sumum umdæmum, til hvörra hann ecki hefdi eignar-rètt. Ej hefur meira víst edur markverdt frètist af strídi þessu, enn þegar er greint í Rússlands tídindum. Komiz fyrrtèd ríki af í þessu strídi án algjörligs undirgángs, mun þad ad líkindum heldst ad þacka medalgaungu og fyribænum Breta, er álíta þad sem naudsynlegan forgard síns mikla Austindíaveldis.

Í Austindíum hafdi ad sönnu fridur verid saminn medal Breta og Birmana um haustid 1825, enn keisari hinna sídar nefndu neitadi,

þegar til kom, ad undirskrifa hann, brautst því strídid út ad nýu, enn varadi mjög stutta stund, þar enski herinn vann hvörn sigurinn eptir annann (svo ad 2000 hans einusinni yfirunnu 40,000 óvinanna), og neyddi þannig loksins Birmanaríkis keisara (annars nefndann konúng af Ava) til ad gánga ad þeim kjörum, sem honum bodinn voru í endilegum sáttmála, sem stadfestur var af beggja hálfu um vorid 1826. Med honum hlutu Birmanar algjörlega ad fráségja sèr, enn afsala til enskra, þrjú umdæmi ríkis síns vid austanverdan Bengalafjörd (edur hafsbotn); má sú strönd ad mestu segjaz ad vera mjó og laung fjallbygd med gódum höfnum og hentug fyrir verdslan vid nálægar þjódir. Sagt er ad þar sèu rík bergverk af gulli, silfri og edalsteinum. Einnig var Bretum veitt frjáls kauphöndlun í Birmana ríkjum, og þessir skuldbundu sig loks til ad gjalda eina millión punda Sterlíng (edur átta milliónir danskra silfur-dala) í strídskostnad. Hèr ad auki affögdu þeir sèr öll yfirrád yfir fjórum ödrum nálægum ríkjum, er þeir til þeirrar tídar ad miklu leiti haft höfdu, enn sem hèreptir líklega verda Englands áhángendur. Sá bretski hershöfdíngi, Archíbald Campbell, er þessu öllu hafdi til leidar komid, vard mjög frægur af tèdu örduga og hættulega enn farsællega endada strídi. Í því nýfengna landi grundvölludu Bretar strax nýan kaupstad vid Martaban-fljótid, er nefniz Amherst (edur Amherst-town) eptir Adal-landstjórnara þeirra nú umstundir. Önn-

ur þeirra, ádur í fagnablödunum umgètna nýlenda Síncapore (fyri funnan tèdar ftrendur og Birmanaríki) blómgvaz enn á dæmalaufann hátt, fvo ad ftadurinn fyrft á næftlidnu ári hafdi 50,000 innbyggjara, á fama blett, hvar 1819 ej hafdi verid nema fifkibúda pláts med 150 fálna. Þó var upphæd varníngs þefs, er þángad og þadan var at fölu fluttur, enn hærri ad tiltölu.

Síams konúngur átti ftríd vid Birmana undir eins og Bretar, og var hann líka innifalinn í fömu fridargjörd. Skömmu feinna gjördiz vináttu- og verdslunar-famníngur milli hans og Enfkra. Í vefturhluta Auftindíanna kæfdu bretfkir hershöfdíngjar brádum þann þar uppkomna óróa og flockadrátt þeim á móti, einkum med inntöku hins afarfterka kaftala Bhurtpore, hvörn Indíamenn álitu óyfirvinnanlegan. Samt hafdi enfkur Undir-Offífèri ftrokid til borgarmanna og gèfid þeim hollar ávífanir, enn þad lagdiz allt fyrir eckèrt, og var hann fídar hengdur fyri drottins-fvik. Umfátri þesfu ftýrdi hershöfdínginn LordCombermere. Þannig útbreiddiz og þróadiz hin bretfka ftjórn í bádum pörtum Auftindíanna á farfællegafta hátt, undir ædftu umrádum Lord Amherfts, hvörs ftjórn hálfu ári fyrri hafdi virdft fvo ófarfæl, ad nærri lá vid ad hann yrdi algjörlega frá völdum fettur. Á útvídkun hins bretfka Herradæmis mót auftri hafdi keifarinn í Kína mikinn ímuguft, og þykiz nú, ef fliku fer framm, varla vera óhultur í fínu fvo kallada himnefka ríki, hvörju hann híngad til, ad ftadnum

Kanton einum undanteknum, hefur apturlokudu haldid fyrir öllum Nordurálfu þjódum.

Í stadnum Serampore edur Fridriks Nagor í Austindíum, er tilheyrir konúngi vorum, var af honum stadfestur nockurskonar háskoli til útbreidslu kristindómsins, stiftadur af nafnkèndum enskum málvitríngum og gudfrædisspekíngum, medal hvörra Dr. Carey og Marshman eru einna nafnkèndastir; þar hefir lengi verid undir þeirra umsjón, eitt hid frægasta prentverk í heimsins Austurálfu.

Á þeim austindisku eyum, sèrílagi Java og Súmatra, sætti herradæmi Hollendínga (edur Nidurlanda konúngs) miklum og hættulegum hræríngum, eins og ádur er um gètid. Mjög tafdiz og svo hjálp sú, hvörrar þeir væntu sèr úr födurlandinu, vegna storma og sjóskada, er þau herskip hlutu, sem til Austindía átti ad sigla. Líka leiddiz fulltrúa-rádinu ad borga afarfè til þessarar, eins og ennþá útlítur, nærþví óendanlegu styrjaldar í einhvörjum heimskrínglunnar óhollustu löndum. Á Java hafdi höfudstadurinn Batavía ordid fyri miklum eldsvoda, svo ad 1800 hús brunnu þar til kaldra kola. Eins var og allskyns óhapp ásækti Hollendínga frá því eylandi, því nú fyri skömmu forgèck póstskipid þadan algjörlega med 88 reisendum, auk skipverja, rètt vid hafnir á Hollands ströndum, og komst enginn af nema lótsinn einn.

Í Affríku edur meginlandsins Sudurhálfu framhèldt Egyptalands stjórnari kaupskap sínum og tilraunum vid allskyns jardarrækt

og verkſmidjur, er ádur þar í landi á ſeinni tídum voru alls ókunnar, enn þó med misjafnri heppni. Einnig leitadiz hann mjög vid ad komaz í vinfengi vid Fracka konúng, og þad luckadiz honum vonum framar. Í Fránkaríki lèt hann byggja herſkip ſín, fèck þadan marga ſtrídsforíngja og liſtamenn, enn ſendi til Paríſar 40 únglínga til ad læra víſindi og nytſamar íþróttir. Óneitanlegt er þad ad hann er ſjaldgæfur madur medal Tyrkja, og hefur marga góda eginlegleika, enn þeir myrqvaz af ágyrnd hans og hardýdgi, ſem máſkè ad lokum koma honum á kaldan klaka, ſèrílagi ſtrídid vid Gricki, er koſtar bædi fólk og fè, ſvo bágt mun verda tölu á ad koma. Í ſudurhluta þesſarar heimsálfu hèldu Assjantíar nú kröptuglega framm á móti Bretum því í ſagnabladanna 9du deild umgètna ſtrídi. Í byrjun árſins 1826 ſöfnudu enſkir miklum her ſèr til verndar, og kom þeim einnig til hjálpar fjöldi blámanna úr þeim umdæmum, er ſtódu undir hollendſkra og danſkra yfirrádum. Skèdi þá ein hin mannſkædaſta oruſta í hvörri 5000 Aſsjantíar fèllu, enn hinir hlutu loks á flótta ad ſnúa med konúng ſinn hættulega ſærdann, hvör ſídan er ſagt ad dáid hafi af þeim ſárum. Af þeim enſka her fèll einnig mikid lid; ſídar voru blámennirnir úr því danſka landi (ſem ad vídattu er jafnſtórt og Danmörk ſjálf) ſkuldadir fyrir ad hafa hlotid hid dírmætaſta herfáng (því Aſsjantíar eru mjög ríkir af gulli), enn annars ecki hætt ſèr framm í bardaganum ſjálfum. Bretar

framhèldu kostnadarsömu ferdalagi til ad uppgötva ókunn lönd í midhluta Affríku; Majór Laing komst til hins mikla kaupstadar Tombúktú, einn hinn fyrsti medal nordurálfubúa, sem opt forgèfins hafa leitaz vid þángad ad koma; enda liggur vegurinn mest gègnum vatnslausa og graslausa eydisanda, glóandi af sífeldum sólarhita, mörgum dagleidum saman. Nockud austar fann kapteinn Clapperton stór þjódlönd, hvörra nöfn híngad til vart þecktuz í vorri heimsálfu. Þreyta, hiti og loptsins óhollusta fyrir útlenda menn, urdu þó öllum slíkum hans fylgdarmönnum ad brádum bana. Bretar lètu einnig med skipum nockrum kanna Affríku landsudurstrendur, á hvörjum Portúgísar fyrrum höfdu verdslun mikla, sem nú er mjög í rènun; — sagt er ad enskir hafi slegid hendi sinni yfir nockra af þeim ad mestu yfirgèfna kastala og hafnir, hvörjar þeir nú máskè betur notad gèta, einkum þar gódrar vonar höfdi og nálægar bygdir eru þeim tilheyrandi, og þeir undir eins leitaz vid ad ná athvarfi og höndlun á því mikla eylandi Madagaskar.

Ástralía edur Sudurhafs-álfan var líka enn sem fyrr alljafnt könnud af sjófarendum, enn nýlendur þar jukuz mjög, og efiduz af vidburdum ýmsra þjóda. Mjög þykir sèr í lagi hid afarstóra Nýa Holland, sem enn ad mestu einúngis er byggt af mjög fáfródum villimönnum, ad vera fráleitt landslagi og edli vorrar heimsálfu; þar er t. d. Nordanvindurinn heitur enn sunnanvindurinn kaldur; sumar netl-

ur og grastegundir, verda há sem trè og líkjaz þannig vídlendum skógum, þar eru svartar álptir, hvítar arnir; fuglar fjadralausir, er bera hár á kroppnum í þeirra stad, jafnstórir rádýrum; enn dýr sem hafa fugls-trjónu og verpa eggjum; fiskar sem eru hálfir af skötu-enn hálfir af hákallskyni o. s. frv. Á þessu og því nálæga Fan-dímens (van Diemens) landi blómgvaz nýbýli Enskra best, og ávallt uppgötvast þar fögur og fridsföm pláts, sem hentug eru til landnáms sidadra þjóda. Saudahjardir, er bera bestu ull, tíngaz hèr sèrlega vel, enn margskonar nytsamar urtir og korntegundir úr ödrum heimsálfum ná skjótum og gódum proska. Á Sandvíkur eyunum stilltiz sá uppkomni órói, og innbúar þeirra hylltu þann únga konúng, Karbíálí ad nafni. Á eyunni Otaheiti þróadiz, ásamt kristninni, gott sidferdi, kunnátta og velferli þjódarinnar.

Í Ameríku, edur Vesturhálfu víkjum vèr fyrst til hins einasta þar veranda furstaríkis, keisaradæmisins Brasilíu. Þad er fjarska vídlendt og örduġt yfirferdar, er því og mun ærid bágt ad halda innbyggjurum þess, af margskonar uppruna, í taumi, einkum vegna nábýlis þeirra mörgu frílanda, hvadan sá andi útbreidiz, er hatar furstavald enn gyrniz svokallad frelsi og sjálfrædi. Hafdi því keisari Pètur nóg í fángi med ad stilla upphlaup þau og landrád, er gjörduz hèr og þar í ríkinu, jafnvel í sjálfum höfudstadnum Ríó Janeiro. Aungu ad sídur framhèldt hann med mesta kappi strídinu vid

Plata-frílönd, enn þó med litlum framgángi seinast þegar tilfrèttiz; strídsflotinn vard jafnan fyrir ósigri, hvörsvegna admírállinn Lobó var til dauda dæmdur. Landhernum kappkostadi keisarinn mjög ad fjöldga, og geingu einnig margir þýdskir, þó flestir naudugir, á mála hans. Seinast íNovember mánudi fór hann sjálfur í leidángur mót Plata-mönnum, enn hvör hans afdrif ordid hafa, er enn þá ókunnugt. Skömmu eptir, þann 11ta December, andadiz kona hans, keisarainna María Leopoldína, fædd prinsessa af Austurríki. Hvernig keisari Pètur frásagdi sèr kóngsríkid Portúgal, og gaf þad barnúngri dóttur sinni, enn því undir eins nockurskonar frístjórn, er ádur greint á sínum stad. Samt hefur hann áskilid sèr ædstu umrád þess ríkis, medan hann, í því sem ödru, hefur umbod og fjárhald þeirrar litlu drottníngar á hendi.

Til Plata-sambandsins fyrsta forseta í höfudstadnum Buenos-ayres var Bernardíno Rívadavía kjörinn. Med stakri kèppni og heppni framhèldt hann strídinu vid Brasilíu keisara, þótt þar þætti vid mesta ofurefli ad eiga, bædi til lands og sjáfar, einkum þar landid ej var frítt fyrir innbyrdis upphlaupum, og líka haldi töluverdri styrjöld ad gègna mót nálægum villi-þjódum. Nú mun þó líklega komid ad leiks lokum á einhvörn hátt, eptir því sem eg nýlega um gat í Brasilíu frèttum.

Í Fríllandinu Kíli (Chili) voru miklir flockadrættir og óregla, þar höfdíngjarnir kíf-

ndu og börduz út af landsins umrádum. Loks luckadiz þad O'Higgins ad afsetja Yfir-stjórnarann Freyre, enn hann komst þó brádum aptur til valda, þar herlidid dró hans taum, og tvístradi alþíngis-samkomunni, uns önnur ný, er honum gèdjadiz meir, yrdi samanköllud. Óstjórn þessari fylgdi stakt peníngaleysi, og var því herskipa flotinn seldur Plata-sambandinu. Samt inntóku Kílesar eyarnar Kílóe (Chiloe), tuttugu ad tölu, med 100,000 innbyggjurum, sem híngad til höfdu verid í Spanskra valdi.

Í Paraguay hèldt sá nafnkèndi Dr. júris Francía enn þá landsins ædstu yfirrádum; híngadtil hefur hann þókst ætla ad geyma land þad frá óreglu og stjórnar byltíngu, uns Spáns konúngur aptur gæti nád þar sínu fyrra lögmæta valdi, og hafdi hann einnig útgjört sendiboda til Madrítar med slík tilbod, enn þó ej skilmálalaus. Þeir sendimenn fengu þó ecki gódar vidtökur og ej heldur neitt þægilegt svar, hvörsvegna Doktórinn firtiz, og útgaf (med tilteknum nefndarmönnum) þá auglýsing ad landid algjörlega segdiz undan Spáns yfirrádum. Fyri þeim hafdi hann ej heldur neinn frekara ótta, enn þarámót stakann ímugust á Brasilíu keisara; hvörjum hann þessvegna sagdi stríd á hendur.

Í Perú unnu landsmenn loks til fulls og alls kastalann Kalladó, seinasta hæli Spanskra á þeirrar heimsálfu meginlandi. Frelsisgjafarinn Bólívar var um sinn stadfestur í ædstu yfirrádum þess nýa fríslands, hvörs eldstu innbuar, þeir

eginlegu Perúanar nú loksins aptur ödludaz fullkominn borgararètt. Efri hluti landsins var skilinn fra nedra Perú, eins og Sagnablödinn í fyrra umgátu, enn þad fríland breytti nú nafni sínu, og kalladi sig Bólivíu, eptir nýnefndu heiti hins nafnfrægasta lifanda manns í allri Vesturálfu. Hershöfdínginn Súcre vard þess forseti edur yfir-stjórnari.

Í fjærveru Bólivars frá Kólúmbíu, sem hafdi varad samfleytt fjögur ár, útbrautst nú hættuleg óeiníng medal umdæmanna, þar Venezúela og önnur fleiri vildu breyta stjórnarforminu og auka sjálfrædi sitt. Forsprakki flokks þeirra var hinn nafnkèndi hershöfdíngi Paez, sem átti ad afsetjaz frá sínum yfirrádum ad forlagi hins sameginlega stjórnarráds í þeim nýordna höfudstad Bógóta. Bádir partar kærdu mál sitt fyri Bólívar, og ályktadi hann, ad Paez skyldi fyrst um sinn stjórna í Venezúelu, uns alþíng þjódarinnar gæti saman komid, til ad áqvarda hennar tilkomandi stjórnarform. Þannig hindradiz ein hin hættulegasta óeiníng og blódsúthellíng, enn Bólívar kom heim til Kólúmbíu um næstlidid nýársleiti. Voru honum þar hátídlegustu vidtökur veittar, sem landsins frelsis- og fridar-gjafara.

Gvatimala edur Mid-Ameríka leit út til ad verda blómlegt fríland, enn nú beraz þadan fregnir um innbyrdis upphlaup og ósamþycki, hvörra sannindi eg þó ej ad sinni þori ad fullyrda.

Í því voldugu fríland Mexíko var lengst

af fridur og eining, þar spanskir nýlega höfdu verid þadan útreknir til fulls og alls. Þángad var nu flutt, í stadinn Tacúbaja, sú í fyrra byrjada sendibodaʼsamkoma frá öllum Ameríku frílöndum, er veik frá Panama, vegna þess stadar óholla landslags; gjörduz þar margir vináttu- og verdslunar-samníngar medal þjódanna. Nú beraz þær fréttir ad uppreist sè á gáng kominn í umdæminu Texas (edur Tejas), er nú nefni sig Fredónía. Skulda nockrir nýbýlínga úr Nordur-Ameríku frílöndum fyri þetta tiltæki, og meina þeir hafi í sinni ad sameinaz þeim, hvad stjórn þessa veldis þó vart mun leyfa ad svo búnu.

Nordur-Ameríku frílanda-samband jókst og blómgvadiz á vanalegan hátt. Þau eru nú 25 ad tölu, er hvört um sig velur tvo rádherra (*senatores*), sem stjórna öllu ríkinu ásamt forseta og fulltrúa-nefndinni. Þeir voru nú þannig 50 ad tölu, enda voru og þann 4da Júlíí 1826 alls lidinn 50 ár frá fyrstu sjálfrædis-auglýsíngu þjódarinnar á sama mánadardegi 1776. Var þá einnig í þess minníng haldinn ein hin gladasta Júbilhátíd um allt veldid, sèrílagi í höfudstadnum Washington (er ber frelsisgjafarans nafn), og var þar mikid um dýrdir. Þángad voru bodnir landsins háöldrudu mestu merkismenn: Jón Adams, 91 árs, (fadir hins núveranda forseta) og Thómas Jefferson 84 ára gamall, sem bádir, hvör í 10 ár, ádur höfdu verid forsetar þjódarinnar med nærþví konúnglegu valdi, og mjög styrkt til

frfunar hennar frá Bretlands yfirrádum — enn nú urdu þeir sjúkdóms vegna ad halda kyrru fyrir, og önduduz bádir þann sama einstaka hátídisdag. Sídan var útför þeirra gjörd ad stjórnarinnar tilhlutun á heidarlegasta hátt, og vanaleg merki almennrar sorgar uppábodinn um stuttan tíma — minníng þeirra til verdskuldads heidurs. Fólksfjöldi þessa landa-sambands reiknaz nú til 12 edur 13 millióna. Þaraf hefur sá mikli kaupstadur nýa Jórvík 152 þúsundir. Ymisleg þrætuefni báru til medal Nordur-Ameríku og Stóra Bretlands, helldst þess forbod mót höndlun Ameríkána í Vestindíum, landaþrætur vid Kanada o. s. frv. Önnur slík vóru þó med samníngum útkljád. Seinast þá tilfrèttiz barst sú fregn ad sambandsins herfloti væri útbúinn í mesta skyndi, enn hvörju þad gègna mundi var ecki ordid heyrum kunnugt.

Á Vesturálfu eyum edur þeim svonefndu Vest-Indíum gjörduz engin stórtídindi. Spanskir hèldu ennþá eyunni Kúba, og sendu þángad ærid varnarlid og mikinn skipaflota undir admiral Laborda, enn hann vard fyrir ofvidri, komst á víd og dreif, og leid svo mikid tjón, ad hann tvístradiz gjörsamlega. Sagt var ad Mexíkanar og Kolúmbíar mundu ega hægt med ad ná tèdri mikilvægu eyu, ef England og Nordur-Ameríka egi hefdu lagt einskonar forbod þar vid. Hin enska ríkisstjórn kappkostadi mjög ad betra kjör hinna svörtu þræla á sínum eyum, enn þad vakti mikla óánægju medal hvítra jardegenda, sem ej lengur þóktuz gèta bjargaz

ann Canníng til Parísar, og var þar um tíma í gódu yfirlæti, án efa ej heldur án mikilvægra erindagjörda; þó útfall þeirra ej sídar hafi ordid heyrum kunnugt. Sagdur er hann ad vera Grickjum mjög vinveittur, og berst nú sú frètt, ad Englands sendibodi í Miklagardi alvarlega heimti frelsi þeirra, edur ad minnsta kosti algjörlegt vopnahlè; ætla sumir ad þeirra málefni hafi, á tèdri ferd, til umtals komid, ásamt Portúgals ástandi, hvört hin enska stjórn tók sèr mjög nærri, eins og raun gaf sídar vitni um. Þann 21ta Nóvember opnadi konúngur sjálfur Parlamentid med hátídlegri rædu; skömmu eptir var því tilkynnt, ad Portúgal, yfirfallid af upphlaups flokkum, sem tilhald hefdu á Spáni, beiddiz og þarfnadiz í neyd sinni Bretlands hjálpar, hvörrar þess vegna stjórnar-herrarnir kröfduz af þjódinni, í tilliti til eldri og nýrri samnínga. Parlamentid veitti strax þannig, med samhljóda atqvædum, þann æskta styrk, ad 10000 hermanna strax skyldu sendaz til Portúgals á enskum herskipum, hvör flutníngur ej yrdi því ríki til borgunar metinn, enn flestann annann hèraf rísandi kostnad í landinu sjálfu mun þad þó gjalda ega. Dæmafár var annars flýtir sá, í hvörjum tèdir vidburdir skèdu. Þann 8da December komu brèf þau til Lundúna, er knúdu stjórnina þar til nefnds fyritækis, þann 11ta voru þau borinn framm í Parlamentinu, og þann 18da var herinn allr ferdbúinn, sem fara skyldi. Mikill hluti hans kom, eins og ádur er greint, innan ársins útgaungu til áqvardadra

hafna. Lengi hafdi strídsskipa bygging ádur verid í gódum gángi, svo herflotinn brádum yrdi vel útbúinn ef á þyrfti ad halda. Nýlega hefur Parlamentid og samþykkt, ad landid kosti á árinu 1827 21,000 sjómanna og 9000 eginlegra sjáfar-hermanna (edur dáta). Þann 4da Janúarí þ. á. deydi af lángvaranlegri vatnssýki hertugi Fridrik af York (edur Jórvík), eldsti bródir konúngsins og yfirforíngi hins bretska strídshers á 64da aldurs ári. Hann var mjög afhaldinn af sínum undirmönnum og ödrum útífrá fyri dugnad og idjusemi í embættis sökum, staka trúfesti, gódmennsku, örlæti og lítilæti, enn hinsvegar var honum brugdid um margskonar mannlegan breiskleika, helst ofmikla qvennhylli (sem jafnvel ádur hafdi valdid afsetníngu hans um stund frá hans háa embætti vegna ofmikils rádríkis einnar hans vinkonu), svo og hneigíngu til ofmikillrar spilamennsku, hárra vedsmála, drjúgrar víndryckju o. s. fr. sem steyptu honum í slíkar stórskuldir, ad hann loks eckèrt átti, sem ej væri á einn edur annann máta pantsett; hröck því hans dánarbú hvörgi nærri til skulda lúkníngar. Hann deydi barnlaus, og stendr því nú til ríkis, í hans stad, bródir hans, hertogi Vilhjálmr Fridrik af Clarence, tveimur árum yngri, sem líka er afqvæmislaus, og er því honum næst í tédum erfda-rètti dóttir hins andada hertuga af Kent, Alexandrína Victoría, nú ei fullra 8 vetra gömul. Skömmu eptir nýár tók stjórnarherrann Kanníng (sem ávallt er

heilsulinur) hættulega sótt, enn þá hann var í gódum apturbata, fèck embættisbródir hans, Lord Líverpool, enn hættulegara slag, af hvörju menn óttaz fyrir ad hann aldregi nái þeim bata, er gjöri hann, sem annars er nockud ellihníginn, aptur til embættis færan. Líka var Herra Húskisson, er umsjón hefur med ríkisins kaupverdslun, sjúkur um sama leiti. Nú er framborid til samþyckis undirhússins, nýtt laga framvarp um leyfi til sölu á framandi kornvörum, nær prísar stíga til vissrar hædar, sem þarí er áqvördud. Þó er þad enn af hvörugu húsinu stadfest. Skömmu seinna ónýtti sama hús framvarp Sir Francis Búrdetts um borgararètt pápiskra med hardla litlum atqvædafjölda, enn fyrrum hafdi þad samþyckt líkt framvarp, þótt yfirhúsid sídar neitadi því samþyckis. Óttuduz því margir fyrir almennu upphlaupi í Írlandi, hvar allur þorri þjódarinnar er pápiskrar trúar. — Sá nafnkèndi kapteinn Parry á í sumar ad sigla med Heklu sína í hid eystra íshaf, kanna Spitsbergens (og máskè Austur-Grænlands) strendur, og leita nordurpólsins, jafnvel med sledum edur bátum yfir fastann hafís, ef fyri kynni ad verda. Medal nafnkèndustu Breta, sem dóu á þessu tímabili, var margreifi Hastings, landstjórnari á eyjunni Malta og ádur í Austindíum, viturt gódmenni, sem þó deydi skuldum vafinn, og bílætahöggvarinn Flaxman í Lundúnaborg.

Konúngur hinna sameinudu Nidurlanda, Vilhjálmur Fridrik átti fullt í fángi

med ad bægja Jeſúítum og þeirra útſendurum frá ſínum pápiſku löndum. Einnig gèck ſtrídsliði hans mjög báglega í Auſtindíum, einkum á eylandinu Java. Nockur ſtór herſkip voru ſend og áttu ad ſendaz til Auſturálfu med ſtrídslid og herbúnad fyrſt á ári þeſsu, enn fleſt þeirra ſköddudust hraparlega af því mikla ofvidri, er gjördiſt í midjum Janúarí mánudi, þó komuſt þau vid illan leik í ýmſar enſkar hafnir, hvar þeim dvaldiz fyrſt um ſinn til endurbótar hlotins ſkada. Eins og eg fyrr hefi umgètid gèck ſkæd landfarſótt í Nidurlöndunum, ſem reyndiz mjög næm og banvæn, þótt hun ſè í mikilli rènun, og máſkè nú algjörlega ſtönsud af vetrarkuldanum. Sá á Brabants óróa-ári 1789 mjög nafnkunni talsmadur, van der Nódt, andadiz þann 13da Janúarí 1827 í ſtadnum Bruſsel, og hafdi þá ſex um nírædt. Á árinu 1825 fædduz í Amſterdam, höfudstadnum í Hollandi, 7352, enn 6302 dóu.

Í Þýdſkalandi urdu engar ſèrlegar biltíngar nè umſkipti; þó erfdi hertuginn af Saxen-Kóborg meſtan hluta furſtadæmiſins Gótha, og hertuginn af Meiníngen fèck í ſömu ſkiptum Hildburgháuſen, enn þángad til verándi hertogi þar flutti ſig ad ſtadnum Altenborg, og hlaut þann meſta hluta hins þar til heyranda furſtadæmis, ſèr til ſtórkoſtlegs ábata. (Sjá Sagnabladanna 9du deild, bls. 16). Í Bayern var ſá í Landshút híngad til verandi háſkóli fluttur til höfudſtadarins Munchen. Kongr þeſs ríkis ſtodadi annars Gricki af öllum

kröptum, og leyfdi nockrum sínum hermanna-yfirbodurum, sem ad dugnadi voru kunnir, ad ferdaz til Gricklands og verda því ad lidi. Hamborg hefur nú meiri kaupverdslun enn Amsterdam; á árinu 1825 fædduz þar 3843, dóu 3509; í Lybeck (er fordum var nógu voldug til ad heya stríd vid öll nordurlönd) fædduz þarámót einúngis 741, enn 626 dóu. Annars önduduz í Þýdskalandi þessir nafnfrægu merkismenn. Hid hálærda skáld Jóhann Henrik Voss (edr Foss) í Heidelberg; þjódskáldid Hebel í Schwetzingen, bádir aldradir; stjörnuspekíngurinn Bóde (á áttrædis aldri) í Berlín og saungleika-semjarinn Karl María Weber (frá Dresden) á fertugs aldri i Lundúnum á Englandi. Furstinn af Salm-Salm sneriz frá pápiskum trúarbrögdum til hinna evangelisku, þá búandi í Fránkaríki, og vard þessvegna fyrir ónád konúngsins þar, enn veik þadan til Þýdskalands og fèck sèr þar bólfestu. Þarámót hlutu Pápiskir stærri rèttindi enn haft höfdu í kóngsríkinu Saxen, hvar sjálfur konúngur er þeirrar trúar. Adsetursstadur hans Dresden hefur nú 72000 innbyggjara auk þess þarveranda varnarlids. Í Martsí-mánudi skèdu, af brádum leysíngum, mikil snjóflód og vatnahlaup híngad og þángad í Þýdskalandi; þannig brautst áinn Weser inn í stadinn Bremen, og olli stórskada á húsum og eignum margra, enn eydilagdi þar í nánd þorp, þjódbrautir, stíflur og vördslu-garda vid sjáfarsíduna, allt ad stadnum Delmenhorst.

Um Schweitz (edr Svisfaraland) var þá og fyrr líkt ad segja, enn slík tilfelli gjöraz þar þó mest af skridum, jökulhlaupi og snjóflódum úr fjallagiljum. Ljós skynsamrar trúar og hjátrúar þoka áttu merkilegt stríd í andans ríki; í sumum landsins umdæmum er pápiskt fólk, enn í ödrum evangeliskt og sumstadar blandad. Ur landi þessu fengu Grickir afarmikinn peníngastyrk, heldst ad undirlagi þeirra örugga og óþreytanliga vinar, storkaupmannsins Eynard, er býr í frístadnum Geneve. Nálægt nýnefndum stad valdi Prins Karl Christián Fridrik af Danmörk sèr vetrarsetu, eins og sídar mun greinilegar skírt verda.

Í Svisfaralandi deydi sá af sínum sèrlega barna-kènnslu-máta nafnfrægi Pestalozzi þann 17da Februarí nær því áttrædur ad aldri. Skömmu ádur hafdi hann prenta látid æfisögu sína, er mislíkadi sumum þarí nefndum, er skrifudu biturlega móti henni, og onádudu þannig hins heidarlega enn óframmsýna öldúngs sídurstu daga.

Í Austurríkis keisaradæmi gèck flest eptir líkum reglum og á næst undanförnum árum. Í fyrra vor vard þess keisari Franz hinn fyrsti, sem sjálfr er almennt elskadur af þegnum sínum yfirfallinn af þúngri sótt, hvörri þó brádum æskilega lètti. Ríkisdagurinn i Ungaríu kóngsríki varadi enn sem fyrr á líkann hátt og nefnt var í Sagnablödunum í fyrra. Ecki var keisarinn Grickium vinveittur; enda mættu sjófarendur úr hans ríki mörgum árás-

um grifkra víkínga, hvörjum austurrískur floti, undir stjórn admiráls Paulucci, reyndi ad halda í taumi,, enn sagt er hann hafi verid ærid hardur í vidskiptum, og sè nú þessvegna heim kalladur.

Prussaveldi, er mjög þókti vaxid hafa undir stjórn Fridriks hins mikla, hafdi vid andlát hans 6 milliónir innbyggiara; nú hefur þad meir enn tvöfaldt fleiri edr 12 milliónir 225,000, hvarámedal höfudstadurinn Berlín telur sèr 220,000 enn Breslá í Slesíu 82,384 sálna auk varnarlidsins. Konúngr ferdadiz um sumartímann til ýmsra umdæma ríkis síns, enn á öndverdum vetri vard hann fyri því óhappi, ad hrasa af tröppustiga og beinbrotna á ödrum fæti. Þó er mein þad nú ad mestu læknad. Seinni kona hans, furstainnann af Lichtenstein, kastadi pápiskri trú, enn tók þá evangelisku, hvörrar öruggu verndari hann nú reyniz. A þessu tímabili leyfdi konúngr, ad gjöfum mætti safna í ríki sínu handa naudstöddum Grickjum, (eins og vídar skèd hefur) og urdu þær töluverdar.

Í Vallandi gjörduz engin sèrleg stórtídindi. Páfinn og fleiri stjórnarar þar höfdu enn ad strída vid heimuglegann upphlaups-undirbúníng og þar af rísandi óróa, sem allt vard nidurkæft ad sinni. Vatnsflód geysadi um hríd í landi hans. Annars styrkti hann trúna og Jesúíta, hennar endurrísandi máttar-stólpa, af ýtrasta mætti. Algeirsmenn, sem hertekid höfdu marga Rómverja, voru neyddir til ad skila

þeim aptur af Fránkaríkis konúngi, Páfans öruggum vin. Í Sardiníuríki, sem nú hefur 4 milliónir innbyggjara, jókst klaustranna tala eins og vídar í pápiskum löndum, svo ad hún þegar er stígin til 348. Neapólis og Sikileyar ríki verdur nú fullkomlega yfirgefid af Austurríkis herlidi, sem þar hefur dvalid á seinústu árum. Í fyrra vor deydi þar eckja hins andada konúngs, hertugainnan af Flóridía og sídar hinn nafnfrægi stjörnulistarvitríngur Piazzi.

Rússlands lögmæta stjórn hafdi þegar aptur nád fullkominni stadfestu, og engin frekari upphlaup skèdu henni til mótþróa. Var því Nikulás keisari hinn fyrsti allsstadar hylltur med herlidsins og þjódarinnar trúnadareidum. Nefnd sú, er sett var til ad dæma þá faungnu og stroknu upphlaups-menn, endadi atgjördir sínar á öndverdu sumri og dæmdi meir enn stórt hundrad til ýmislegra hardra refsínga. Þann dóm mildadi keisarinn sídan í flestum atridum af nád sinni. Samt voru fimm þeir verstu, sem rád höfdu samantekid til ad útræta allri keisaraættinni, hengdir í Pètursborg þann 13 (25) Júlíí 1826. Medal þeirra var ofursti Pestel og sá annars nafnkèndi rithöfundur og þjódskáld Rýlejeff (hvörs eckju keisarinn veitti árlega nádargjöf). Sagt er ad snara bödulsins hafi brostid í fyrsta sinn, og nýa ordid til ad fá, svo ad sumir ódádamanna þessara svo ad segja hafi tvisvar hengdir verid. Nockur hluti annara uppreistar manna (medal

hvörra Trúbetskoy og fleiri furstar) var dæmdur til æfilángrar þrælkunar í bergverkum vid hin Kínesisku landamæri, hvar sagt er ad sumir fángar, úr því þeir í gryfjurnar koma, hvörki sjái sól nè dag, og ad prestur kasti mold á þá í lifanda lífi, ádur enn þeir eru látnir síga nidur í skaut jardarinnar til fulls og alls. Adrir dæmduz til slíkrar þrælkunar um vissa tíd, enn ad henni lokinni til æfinlegrar útlegdar í nordurhluta Sibiríu; sumir til afsetníngar úr strídsmannayfirrádum enn hermennsku í dáta-stètt o. s. frv. Nockrir þessara hafa sídar nádadir verid, vegna audsýnds dugnadar og hughreysti í strídinu vid Persa o. fl. Margir stórhöfdíngjar voru sendir frá Nordurálfunnar ríkjum til ad óska keisaranum til lucku med hans nýu tign; medal þeirra var sá nafnfrægi hershöfdíngi, hertogi Wellíngton frá Englandi. Nockru seinna átti keisarinn ad krýnaz, enn því var um sinn á frest slegid vegna andláts eckju-keisarainnu Elízabetar, er deydi vart hálfum mánudi eptir mann sinn Alexander, nálægt Taganrog, hvar hann andaz hafdi, þann 16da Mají f. á. Krýníngar-hátíd keisarainnu og konu hans var sídar haldinn í Moskóv med mestu vidhöfn og prýdi, þann 3da September, ad nærveranda Stórfursta Konstantín, er þá tign hafdi ádur frá sèr gèfid. Um sama leiti fèll Persa-her, án undangenginnar strídslýsíngar, inn yfir Rússlands landamæri, og fèck þar marga áhángendur af persiskum og tartariskum uppruna og Mahómets trúarbrögdum. Unnu

þeir í fyrstu noekrar borgir og heil umdæmi, enn þad happ vard mjög fallvallt, nær Rússar höfdu komiz til ad safna sínu tvístrada og ádur óvidbúna herlidi, undir yfirrádum hershöfdíngjanna Jermólovs og Fürstans Madatóvs. Þann 14da September gjördiz þvínæst mikill bardagi í hvörjum Amir-Kan, bródir Persa konúngs, fèll, ásamt 2000 landsmönnum sínum; þann 25ta s. m. hlutu Persar ósigur í annari orustu vid þann af þeim fyrr inntekna stad Elísabetpol, hvadann krónprinsinn Abbas Mirza (er meinast vera strids þessa höfundur) hlaut á flótta ad víkja. Þannig unnu Rússar þau mistu umdæmi tilbaka og brutuz sídann inn í sjálfa Persíu. Sagt er ad Bretar, eptir eldri samníng vid Persa, reyni til ad koma sættum á styrjöld þessa, sem er þeim miög ógèdfeld, af ótta fyrir Austindíum sínum, ef Rússar, ad innteknu Persa ríki, yrdu þar þeirra voldugu nágrannar. Fyrr enn þettad stríd hófst, gjördúz upphlaup mót Rússum í þeim Kákasisku fjalllöndum af þeim hálfgyldíngs villi-þjódum, er byggja þar í efstu dölum, enn eru mjög hardar og illar vidfángs. Voru þau varla stillt til hlýtar seinast þegar tılfrèttiz. Þarámót var um sumarid 1826 sáttasamkoma haldinn medal Rússa og Tyrkja í stadnum Akèrman, og éndadiz hún med nýum samníngi milli ríkjanna þann 6ta Octóber, í 82 atridum, hvör sagt er ad Tyrkjar algjörlega samþyckt hafi eptir framvarpi og vilja mótparta sinna. Eptir þessum samníngi skyldi Tyrkjaher yfirgèfa Moldá og

Vallakíid, soldáninn borga keisaranum edr hans undirsátum ærid fè í skadabætur frá eldri tídum o. s. frv. Samt er sagt ad hinn mikli Rússaher enn þá haldi kyrru fyrir vid Týrkirísins landamæri, og ætla menn ad Nikulás keisari, eptir aftali vid Breta, loks muni heimta Grícklands frelsi edur ad minnsta kosti, fyrst um sinn, algjörlegt -vopnahlè medal þeirra og Tyrkja. Medal margra í Rússlandi og kóngsríkinu Pólen andadra merkismanna nefni eg hinn mikla sagnaskrifara og skáld, Karamsín, á 60ta aldursári. Einnig dó sá háaldradi rússiski hershöfdíngi Benníngsen í Þýdskalandi.

Mahmud (edur Mahómet) Tyrkja-keisari, sýnir stakan dugnad og kapp enn þó undireins grimmýdgi og undirferli í fyritækjum sínum til ad eyda margsháttar gömlum óvana og hleypidómum þjódar sinnar, enn einkum til frædslu og æfíngar herlidsins, ad sid Nordurlanda þjóda, er þegar höfdu byrjadar verid af Egyptalands volduga landstjórnara. Mætti hann þó í slíkum tilraunum ærinni mótstödu, einkum af Janitskörum, hvörra flokkum hann ad öllu leiti tvístra vildi. Þeir gjördu því óttalegt upphlaup þann 15da Júní f. á. og heimtudu höfud þeirra stjórnarherra og rádgjafa, er knúd hefdu til slíkra ógudlegra nýbreytínga. Soldán lèt sèr ei hèr vid byllt verda, þótt hann, þegar frèttir þarum báruz honum, væri staddur á lysti-floti nockru skamt frá höfudstadnum; þángad brá hann sèr strax, og safnadi því lidi af ödrum herflockum, er hann vissi sèr hollara vera. Janit-

ſkarar höfdu, ad fornum vanda, ſamankomid á torginu Almeidân (er fyrrum nefndiz af Grickjum Hippodromos enn Padreimur af norrænum Væríngjum), færdu þángad ſodkatla ſína (hvörja þeir virdtu ſem einskonar flocksmerki og helgidóma), og dróu þar ad ſèr allan þann upphlaupsſkríl, ſem lángadi í ríkuglegt herfáng úr gördum og fordabúrum þeirra ſtórhöfdíngja, ſem þeir ætludu ad heimsækja. Enda byrjudu þeir þegar med ad ræna ſumar byggíngar ſoldáns hallar og adra ſtórgarda, enn spilltu þarmed tídinni, ſèr til eydileggíngar, og margir lögduz þegar í ſvall og dofa í almennum dryckju- og ſkytníngs-ſtofum. Soldán ſjálfur og rádgjafar hans notudu betur tækan tíma; þeir lètu ſækja ſpámannſins (Mahómets) flagg edur merki, hvörju Tyrkjar eigna ſtakan heilagleika, og ætla ad þad frelſi ríkid frá fordjörfun þegar meſt áliggur; annars má ej heldur þad merki uppsetja; enda er og hvör rètt-trúadur Tyrki (ad þeirra dómi) ſkyldur til ad grípa til vopna og vernda þad, nær þad ad keiſarans bodi uppſett edur framborid verdur. Má þannig nærri gèta ad margt ſtrídslid (fyrir utan janitſkara) og allur borgaralýdur flycktuz til þeſs ſvonefnda heilaga merkis. Þrisvar krafdiz ſoldán ad uppreiſtarflockurinn gæfiz upp og gengi til hlýdnis, hvörju þeir þverneitudu. Keiſarans lidsforíngi Húsſein paſka (er ſídan var í meſta uppáhalldi ſoldánſins) ſkoradi því á herſkara ſinn, til ad veita þeim ſnarpa atgaungu; port torgſins voru ſprengd med fallſtyckja-ſkotum og brádum tvíſtruduz uppreiſtarflockarnir, ſem leitudu ſèr

hælis í sínum-sterku múrhúsum. Í þeim skipadi soldán ad qveikja og brenna þá janítskara inni, er ej voru drepnir edur á flótta snúnir, og var því bodi hlýdt med mestu grimmýdgi, svo ad nockrar þúsundir meinast hafa brunnid þar inni. Næstu borgarahús brunnu med, enn egendum þeirra lofadi soldán ad borga lidinn skada. Öll audæfi janitskara, er lengi höfdu verid saman dreginn, gjördi keisarinn upptæk. Leifar herbúda þeirra voru rifnar í grunn nidur, katlar þeirra opinberlega sundurmölvadir, herflockur þeirra afmádur med lagabodi til fulls og alls, og nafn þeirra bannsúngid af Múfti (þeim tyrkneska presta-höfdíngja) hvörn janitskarar og höfdu ætlad ad ráda af dögum. Leifar janitskaranna voru sídar offóktar á ýmsan hátt, enn lid þad var ej einasta í höfudstadnum, heldur og í flestum ríkisins stórstödum og umdæmum, svo ad híngad til hafa þeir hvörgi nærri ordid útrættir, þótt þeir vídast til hlýdnis gángi. Í Miklagardi sjálfum gjördust nú margskonar nýbreytíngar ad keisarans bodi, sèrílagi í strídshernum, er mátti heita endurskapadur og fèck nýan einkunnar klædnad, nockud líkann þeim er tídkaz medal Nordurálfu þjóda. Fyrrverandi evrópeiskir hermenn voru fengnir til ad kenna Tyrkjum sitt skikk og strídslist, er aldregi ádur medal þeirra höfdu nád neinum þroska. Nýi herinn fèck strax nóg ad gjöra med offókn Janitskara og annara óvina þessara biltínga, sem afteknir voru flockum saman. Óánægja Miklagards-búa óx því daglega og brautst, ad vanda,

loks út í mordbrennu þann 31ta Ágústí, sem lagdi einn hinn prýdilegasta og ríkasta hluta höfudstadarins í ösku, svo ad ej minna enn 7000 hús brunnu þar til kaldra kola. Þó sýndi þad sig þá, ad soldán hafdi safnad afarfjölda hins nýa herlids, er loksins slökkti hinn mikla bruna, og kæfdi þann hættulega upphlaupsanda, er út átti ad brjótaz vid tèd tækifæri. Aungu ad sídur vidhèlduz líkar blódsúthellíngar, eld-qveikjur og upphlaups-tilraunir (er þó jafnan köfnudu í fædíngunni) til seinustu tíma, af hvörjum frèttir hafa híngad boriz. Þettad ástand mun hafa knúd soldáninn til stakrar eptirlátsemi vid kröfur Rússa, eins og eg ádur hefi frá sagt. Samt er sagt ad hann nú þverlega neiti þeirra og Breta tilmælum um fridun edur frelsi Gricklands, mót hvörju strídid enn ávallt varadi.

Í strídi þessu áttu Egyptalands-menn hinn mesta og frægasta þátt af Tyrkja hálfu. Þannig var þad heldst herforíngja hinna fyrrnefndu, Íbrahim paska, og lidi hans, enn einkum nockrum frönskum trúarnídíngum ad þacka, ad borginn Mesólongi, eptir lángvinnt umsátur og frægustu vörn, loksins vard ad yfirgèfaz af Grickjum um vorid 1826. Mörg stormhlaup höfdu þeir med fræknustu hreysti apturrekid, enn ad lokum vard þó ad sègja um þá eins og adra: ad enginn má vid margnum, minst þegar sultur og seyra ræna líkamans fjöri og kröptum. Þótt þannig hinn sameinadi umsátursher í áhlaupinu þann 1sta og 2an Martií misti ej

minna enn 5000 manns, hafdi hann ſamt nógan lidsfjölda eptirlifandi, enn ávallt gat vid hann bætſt ad fólks-tölu, med nægilegu vidurværi, medan Grickir í kaſtalanum, hvörjum öll atfaung voru bönnud, lidu húngur og hardindi. Þar af óx óvinunum þor og dugur, ſvo ad þeir loks inntóku forvirki ſtadarins, eyarnar Vaſíladí og Anatólikö í midjum mánudinum. Þó nádu þeir ecki borginni ſjálfri med öllu ſínu ofurefli, uns foríngjar Grickja, ſem ej lengur gátu variz vegna matvælaſkorts, med almenníngs ſamþycki álydktudu ad yfirgèfa hana med öllum þeim, ſem enn væru ferda-færir til undankomu; hinir ályktudu ad ſteypa ſèr, ad þeim fráhorfnum, í opinn dauda undir vopn fjandmannanna, enn verjaz ſamt til ſídurſtu andvarpa. Þesſi áſetníngur var framqvæmdur um qvöld þeſs 22 Apríls, þá þeir enn vopnfæru griſku kappar, áſamt þeim konum ſínum og börnum er vogudu ad fylgja þeim, yfirgáfu Meſólongi undir yfirrádum hershöfdíngjanna Nóto Botzaris og Kitzo Tzavellas. Mót von þeirra var umſáturslidid herfylkt og alvopnad, ſvo ad þar gjördiz einn hinn ſnarpaſti bardagi, í hvörjum Grickir ſýndu ógleymanlega hreyſti ſvo ad þeir, 1800 ad tölu, gátu brotiz gegnum hinn óvíga her, enn urdu þó hörmulega ad ſkiljaz vid fleſtar konur og börn, er annadhvört voru grimmilega myrdt, edur ſídar höfd ad manſali (þó ſum aptur keypt af kriſtnum mönnum úr Nordurálfu og endurgèfinn fedrum og ektamönnum til ſtakra fagnadarfunda). Hetjur þesſar komuz

loks til Gricklands núverandi höfudstadar, Nápóli edur Náplions, og hètu ad verja hann einsvel og fyrrum Mesólongi. Tyrkjalidid yfirfèll annars hid þannig ad mestu leiti yfirgèfna Mesólongi, enn þeir sem eptir vóru gáfuz ei upp varnarlausir, enn skutu á Tyrkja úr húsum sínum og sprengdu þau ad nockru leiti í lopt upp ásamt sjálfum sèr og óvinum sínum. Nockrir Nordurálfumenn, er komid höfdu Grickjum til hjálpar, hlutu þannig bana sinn, og medal þeirra Sveitsarinn Davíd Meyer, sem lengi hafdi þar útgefid tídindi á grisku, og sett hreystiverk borgarmanna í snotra sögu til síns dauda-dags, þótt sídasti hluti hennar vart muni fremur til vera. Íbrahim geysadi sídan med herflockum sínum yfir hálfeyuna Móreu (edur Peloponnesus), brendi bygdir og drap edur hertók uppgèfid fólk, uns hann áreitti fjallbygdir Mainu (edur Mænu), fyrrum Sparta tilheyrandi, hvar hann mætti ágætri vörn, misti fjölda lids og vard med sneypu apturreka. Lid hans var nú annars mjög fækkad af mannfalli og sóttarferli, svo ad hann um haustid veik fram á útnes hálfeyunnar, hvar lid hans bjóst fyrir í þeim þremur þarverandi kastölum. Þann 11ta December veittiz honum nýr styrkur (þó mest í herbúnadi, vistum og ödrum forda) med miklum flota frá födur hans í Egyptalandi sem þá lendti í Navarín. Þó hefur enn ej fréttst, ad hann sídan hafi nein sèrleg hervirki unnid.

Þar ámót veitti Tyrkja hershöfdíngi Reshid paska, á þessu tímabili efra Gricklandi

vegna ſjálfrædis þrælanna, og jafnvel ej óhultir vera fyri þeirra upphlaupsanda. A dönſku eyunum vard allgódur ſykurafli vegna frjóf-ſamra ſkúra, er gengid höfdu, og einnig er ſagt ad hins ſama ſè nú ad vona ad öllum líkindum. Þar ámót leid Stadurinn Sankti Thómas ad nýu þann 13da Júlí mikinn eldsbruna ſem, eydilagdi alla tollbúdina og marga adra ſtórgarda.

Í Svíaríki (hvar fólkstalan nú reiknaz 2 milliónir 724,778 þúsundir), fæddiz lengi væntanlegur ríkiserfíngi, ſonurKrónprinsOſkars öndverdlega á næſtlidnu ſumri, er nefndiz Karl Lodvík Eugeníus og fèck ſkömmu seinna þad tignarnafn ad kallaz Hertogi af Skáney. Þar-ámót deydi erlendis þann 22an Október ſú fyrr-verandi drottníng, Friderika Dóróthea Vil-helmína, fædd Prinſesſa af Baden. Hún hafdi ádur verid ſkilinn frá manni ſínum, þeim fyrr-veranda konúngi, Gúſtaf Adolf 4da, ſem nú ferdaz umkríng í Þýdſkalandi, og nefnir ſig Ofurſta Guſtafſſon; á ſlíkri reiſu kól hann í vetur (eptir ſögn þýdſkra frèttablada) til ſkèmda á höndunum, vegna þeſs ad hann ſat utantil á póſtvagni, hvar þó hefdi verid betra pláts ad fá í lokudum karmi fyrir litlu hærri borgun. Sumarhitinn var fjarſkalegur í Svíaríki, eins og vídar, og gjörduz þaraf miklar og ſkad-vænar ſkógabrennur, er jafnvel um ſtund hót-udu ad qveikja í ſjálfum höfudſtadnum Stock-hólmi. Þará ofan fylgdi eitt hid lakaſta kornár, ſvo ad þaraf gjördiz afar mikil dýrtíd, því meſtar kornvörur og ſmjör urdu ad kaupaz í Dan-

(4)

mörk og ödrum útlöndum. Á Upplandi vard einnig mikill nautadaudi, og fylgdu honum þau firn ad kjötid var svo eitrad, ad hræfuglar, sem af því átu, fengu brádan dauda, og ad jafnvel einn dýralæknir, sem skar upp hinn föllnu naut til ad grenslast eptir edli sjúkdómsins, veiktiz þaraf til bana. Þó vard þessi sèrlega drepsótt loksins stödvud. Í Stockhólmi (sem nú hefur 72,137 innbyggjara) ollu hitar og þurkar ógurlegu vatnsleysi, og af öllu þessu mun ordsakaz hafa óvanalega mikill kránkleiki á næstlidnu ári, sem leiddi miklu fleiri til grafar enn fæddir vóru. Undir eins fjöldgudu mord, rán og stuldar venju framar, eins og opt skèdur á hallæris árum, helst í fjölbygdum löndum. Medal dáinna merkismanna má heldst tilnefna þann fyrrveranda stjórnarherra, greifa Engeström, er dó á herragardi sínum í Pólen, hvört hann hafdi búferlum vikid; hann var sèrílagi gódkunnur vísindavinur, er hafdi samandregid stórkostlegt bókasafn, sem enn er í Stockhólmi, almenníngi eptirlátid, og þaradauki verid margra frædimanna velgjördafadir.

Í Noregi var árid betra nordan fjalls enn sunnan, og vart mun tídinn þar hafa verid svo ördug fyrir almúga sem í nábúaríkinu. Þar brann samt þann 18da Júní allur stadurinn Fridrikshald og margar byggíngar í nálægum kastala Fridriksstein, til kaldra kola, og gjördiz þaraf ógurlegur skadi. Þarámót stækkadi og prýdkadiz höfudstadurinn Kristíanía, hvar nýtt konúngsslot nú er í byggíngu. Þadan á á kom-

anda sumri nýkeypt enskt dampskip ad fara í póstferd á viku hvörri til Kaupmannahafnar og Gautaborgar. Á öndverdum vetri voru í Norvegi kjörnir fulltrúar til stórþíngs þess, er hófst í Kristíaníu þann 12ta Febrúarí, med rædu konúngsins sjálfs, sem þá fyri skömmu var þángad frá Stockhólmi kominn, enn sídar er hann aptur heim vikinn. Um nýárs leitid 1826 hafdi Noregur eina millión 50,132 innbúa.

Um vedurlag og árferdi í Danmörku hefi eg ádur greint hid markverdasta. Hagur alþýdu hèr mátti nú án efa mjög misjafn reiknaz, þar sumir sveitamenn hrepptu allgódann kornskurd og þarmed miklu meiri peníngaard enn lengi ad undanförnu veitst hafdi; adrir þarámót, vegna misvaxtar á ökrum þeirra, voru í sömu edur meiri bágindum enn fyrr. Samt gjörduz miklir korn- og smjör - flutníngar, einkum til Noregs, Svíaríkis og Stóra-Bretlands, hvaraf margir höfdu drjúgann ábata, enn hèraf óx samt dýrtíd medal almeníngs heima, einkum í Kaupmannahöfn og ödrum borgum, sem vard fátækum hardla þúngbær. Munu og, því midur! verkanir hennar dreyfaz til Íslands vegna þeirra háu kornprísa.

Mörgum gledilegum vidburdum hafdi ríkid annars á næstlidnu ári ad fagna. Frá skírn Klack-Haralds, hins fyrsta Danakonúngs, árid 826, voru þá lidinn þúsund ár, og var þess vegna almenn Júbilhátíd halldinn á sjálfa hvíta sunnu, í minníngu þeirra kristnibodsins frammfara í sjálfri Danmörk. Sjálands biskup, Herra

mörk og ödrum útlöndum. Á Upplandi vard einnig mikill nautadaudi, og fylgdu honum þau firn ad kjötid var svo eitrad, ad hræfuglar, sem af því átu, fengu brádan dauda, og ad jafnvel einn dýralæknir, sem skar upp hinn föllnu naut til ad grenslast eptir edli sjúkdómsins, veiktiz þaraf til bana. Þó vard þessi sèrlega drepsótt lóksins stödvud. Í Stockhólmi (sem nú hefur 72,137 innbyggjara) ollu hitar og þurkar ógurlegu vatnsleysi, og af öllu þessu mun ordsakaz hafa óvanalega mikill kránkleiki á næstlidnu ári, sem leiddi miklu fleiri til grafar enn fæddir vóru. Undir eins fjöldgudu mord, rán og stuldar venju framar, eins og opt skèdur á hallæris árum, helst í fjölbygdum löndum. Medal dáinna merkismanna má heldst tilnefna þann fyrrveranda stjórnarherra, greifa Engeström, er dó á herragardi sínum í Pólen, hvört hann hafdi búferlum vikid; hann var sèrílagi gódkunnur vísindavinur, er hafdi samandregid stórkostlegt bókasafn, sem enn er í Stockhólmi, almenníngi eptirlátid, og þaradauki verid margra frædimanna velgjördafadir.

Í Noregi var árid betra nordan fjalls enn sunnan, og vart mun tídinn þar hafa verid svo ördug fyrir almúga sem í nábúaríkinu. Þar brann samt þann 18da Júní allur stadurinn Fridrikshald og margar byggíngar í nálægum kastala Fridriksstein, til kaldra kola, og gjördiz þaraf ógurlegur skadi. Þarámót stækkadi og prýdkadiz höfudstadurinn Kristíanía, hvar nýtt konúngsslot nú er í byggíngu. Þadan á á kom–

anda sumri, nýkeypt enskt dampskip àd fara í póstferd á viku hvörri til Kaupmannahafnar og Gautaborgar. Á öndverdum vetri voru í Norvegi kjörnir fulltrúar til stórþíngs þess, er hófst í Kristíaníu þann 12ta Febrúarí, med rædu konúngsins sjálfs, sem þá fyri skömmu var þángad frá Stockhólmi kominn, enn sídar er hann aptur heim vikinn. Um nýárs leitid 1826 hafdi Noregur eina millión 50,132 innbúa.

Um vedurlag og árferdi í Danmörku hefi eg ádur greint hid markverdasta. Hagur alþýdu hèr mátti nú án efa mjög misjafn reiknaz, þar sumir sveitamenn hrepptu allgódann kornskurd og þarmed miklu meiri penínga-ard enn lengi ad undanförnu veitst hafdi; adrir þarámót, vegna misvaxtar á ökrum þeirra, voru í sömu edur meiri bágindum enn fyrr. Samt gjörduz miklir korn- og smjör - flutníngar, einkum til Noregs, Svíaríkis og Stóra-Bretlands, hvaraf margir höfdu drjúgann ábata, enn hèraf óx samt dýrtíd medal almenníngs heima, einkum í Kaupmannahöfn og ödrum borgum, sem vard fátækum hardla þúngbær. Munu og, því midur! verkanir hennar dreyfaz til Íslands vegna þeirra háu kornprísa.

Mörgum gledilegum vidburdum hafdi ríkid annars á næstlidnu ári ad fagna. Frá skírn Klack-Haralds, hins fyrsta Danakonúngs, árid 826, voru þá lidinn þúsund ár, og var þess vegna almenn Júbilhátíd halldinn á sjálfa hvíta sunnu, í minníngu þeirra kristnibodsins frammfara í sjálfri Danmörk. Sjálands biskup, Herra

Fridrik Münter, ritadi vid þá hentugleika latínskt hirdisbréf til presta sinna, og bækling á dönsku alþýdu til fródleiks og úppbyggíngar. Sama dag var hin prýdilega nýa kirkja vid Kristjánsborgar slot vígd, med rædu biskupsins og hátídlegum hljódfærasaung, ad nærveranda konúngi og drottníngu ásamt þeirra skyldfólki og ödrum höfdíngjum. Næsta sunnudag þann 22 Maji skèdi á líkann hátt af konúngsins skriftafödur, Riddara Líbenberg (Liebenberg) fermíng (edur Konfirmatión) hins únga Prins Fridriks Karls Kristjáns (sonar Prins Kristjáns Fridriks af Danmörk). Þann 28da sama mánadar var opinberlega auglýst trúlofun hans og Prinsessu Vilhelmínu Maríu, dóttur konúngs vors; bædi fædduz þau í heiminn á árinu 1808. Næsta dag var mikid um dýrdir í Kaupmannahöfn, þar allur stadurinn var hátídlega uppljómadur, enn hljódfæra saungvar hljómudu ókeypis frá rádstofu salnum og sjónarleikahúsinu á Konúngsins nýa torgi. Þann 6ta Júní ferdadiz hinn háttnefndi úngi prins til útlanda, og veik hèdan sjóveg til Kíl á dampskipinu Kaledónía. Fadir hans fylgdi honum á veg til Altóna; þadan brugdu þeir fedgar sèr snöggsinnis til Hamborgar, hvar rádid veitti þeim virduglegustu vidtökur, og var þángadkoma þeirra auglýst med fallstykkja skotum. Oflángt yrdi ad telja upp þau virdingar- og gledi-merki, er furstum þessum á tèdri reisu audsýnd voru í löndum konúngs vors, og lètu slík sig einnig í ljósi vid sjálfann hann, þá hann aptur ferdadiz þann

7da Júníí á dampskipinu Kíl til Árhúss (edur Áróss) í Jotlandi, og kom um leid í land vid Helsíngjaeyri. Frá Árósi reisti hann til flestra stada og allra merkisplátsa á Vestur-Jótlandi, og yfirskodadi þad landbrot, er Vesturhafid á seinustu árum smámsaman þannig gjört hafdi, ad ósar edur álar gengu af því gegnum þvert landid, inn ad Limafjardar botni, og ætla margir ad þad brádum verdi svo djúpt sund, ad hafskipum verdi þar siglíngar-vegur. Aggers sókn hafdi sérílagi ordid fyri þessu mikla landbroti, sem eydilagdi margar jardir, spillti ökrum og engjum o. s. frv. svo sumt fólk vard þadan ad flýa, enn adrir hjördu eptir vid bág kjör. Á öllu þessu rèdi vor elskadi konúngur svo bráda og góda bót sem mögulegt var, og sönn blessun fylgdi ferli hans hvervetna ella; seinast í mánudinum kom hann heim til Fridriksbergs. Um sömu mundir hafdi frændi hans, PrinsKristján Fridrik, heimsókt vestureyar Sydra-Jótlands enn veik sídan um stund til síns forna adseturs, Ódinseyar á Fjóni. Frá fyrrnefndum syni hans er þad ad segja, ad hann, ásamt þeim honum handgèngna greifa Ranzau af Breitenborg, hèldt áframm ferdum sínum gegnum Þýdskaland, til fríſtadarins Geneve (edur Genf) í Svissaralandi, nálægt hvörjum hann tók sèr bólfestu um sinn, á lystislotinu Plongeon enn brá sèr þó um sumarid til Meylands og fleiri merkisstada á efra Vallandi. Sídan settiz hann um kyrrt á nefndu sloti til midsvetrarbils, þá hann aptur ferdadiz til Lyon,

Marseille, Hieres og fleiri stada á Fránkaríki í fagra sudurlandi.

Vor konúngsætt jókst aptur á þessum vetri í fædíngu dóttur Prinsessu Lóvísu Skarlottu af Danmörk og Prins Vilhjálms af Hessen er skírd var þann 14da Febrúarí 1827, og nefndiz Sophía Vilhelmína Augústa Elízabeth.

Ádur hafdi sèrleg og hardla sjaldgæf gledihátíd veitst foreldrumdrottníngar vorrar, Landgreifa Karli af Hessen, landstjórnara í hertogadæmunum og ædsta ríkisins hershöfdíngja (General Feld-Marschal) og Prinsessu Lóvísu, dóttur Íslands ógleymanlega velgjördafödur, Fridriks konúngs hins fimta, þar þau þann 30ta Ágústi 1826 höfdu lifad í einu því farsælasta ektasambandi í samfleytt sextíu ár. Í Slèsvík, þeirra adsetursstad, gáfu borgarar á margvíslegan hátt hlutdeild sína í þeim þeirra fagnadi til kynna.

Konúngur vor samdi á þessu tímabili tvo merkilega vináttu-kauphöndlunar og sjóferdasamnínga vid erlend ríki, nefnilega þann 26ta Aprílis 1826 vid Nordur-Ameríku frílönd og þann 2 November s. á. vid Svíaríkis og Norvegs konúng, um hvörs heldsta innihald eg ádur gètid hefi.

Hid nafnfræga mál er *Professor theologiæ* H. N. Clausen (hinn ýngri) höfdad hafdi mót prestinum N. F. S. Grundtvíg, fyri bæklíng þann, er nefndiz Kirkjunnar andsvar (Kirkens Gjenmæle) mót hins fyrrnefnda mikilvæga skrifi „um evangelisk og pápisk trúarbrögd" (Protestantisme og Katholicisme) var útkljád þann

30ta Október 1826 med Lands-yfir svoog hallar- og stadar-rèttarins dómi, er dæmdi prestinn til hundrad ríkisdala útláta, og ógildti ovidurqvæmileg ordstiltæki mót prófessórnum af hans álfu. Hvörugur málspartanna tók stefnu út til hædsta rèttar.

Medal merkilegustu vidburda vid Kaupmannahafnar háskóla má þad nefna, ad hans eldsti *Professor theologiæ*, Dr. Claus FridrikHornemann, þann 18da December 1826 hafdi haft þad embætti á höndum í fimtíu ár, og var þessvegna opinber Júbilhátíd haldinn med latínskri rædu í Regènz Kirkjunni o. s. frv. Þann 27da Janúarí 1827 voru einnig lidin fimtíu ár frá því Hans Excellence, konúngsins handgengni stjórnarherra, O. Mallíng, Riddari fílsordunnar, efsti limur háskólans og annara lærdómsskóla stjornarráds, ríkisins sagnaritari, ædsti formadur hins stóra konúnglega bókasafns o. s. frv. fyrst komst í embættismanna tölu. Á fyrrtèdum merkilega afmælisdegi afhendti þáverandi háskólans *Rector magnificus*, Prófessor og Riddari Knútur Rahbek, Júbil-öldúnginum dýrmætan og snillilegan minnispeníng úr gulli, og óskadi honum med snjallri enn stuttri rædu til lucku med þann sinn heidursdag í háskólans og annara hlutadegenda nafni, enn Kammerherra Oldenborg (ásamt Etatsrádi Schleyer) frambar líkt ávarp vegna hins konúnglega almenna umsjónarráds yfir tollum og kauphöndlun, í hvörju Hans Excellence fyrrum setid hafdi, enn ádur fyrst ordid embættismadur á þess

vegum. Tèdur minnispeníngur sýnir framanverdur eitt hid líkasta brjóstbilæti stjórnarherrans med þessu umhverfis ritada letri: OVENO MALLING AD PUBLICA MUNERA VOCATO D. 27 JAN. 1777 GRATI CIVES D. 27 JAN. 1827; er sú adalmeiníngin, ad þacklátir borgarar hafi dýrgrip þennan smída látid í fyrr umgetnu tilliti. Á gagnstædri sídu, umkríngdri af lárvidarkransi, stendur alþjódleg heill (SALUS PUBLICA), í qvennlíki, er heldur skipstýri med hægri hendi enn nægtahorni í vinstri. Á adra hlid henni er brennandi lampi (andlegrar upplýsíngar hugmind) enn á hina fá árvakri hani. Nedan til er ritad kjörid einkunnarspakmæli hins heidrada höfdíngja: ASSIDUE ET PRUDENTER (idullega og forsjalega), eptir hvörju hann alla æfi ágætlega breytt hefur, og þannig nád hærri tign enn nockur fyrr í Danmörku, sem ej annadhvört var edalborinn edur upphafinn í adalstètt, án nockurs vidstudníngs af voldugum ættmönnum, tengdum, ríkidæmi edur stórmenna uppáhaldi, enn eínúngis (næst guds og kóngsins nád) af sjálfsdádum eginlegrar vitsku, dygdar og verdskuldunar. Vart hefur því nockur minnispeníngur sleginn verid í æskilegara edur verdugara tilliti, enda var hann kostadur af embættismanna og annara borgara sambandi; gaf hvör þeirra partil hálfa fjórdu speciu, og þótt stjórnarherrans nánustu náúngar hlutu peníngin gèfins af silfri, verda þó líklega eptir, auk alls kostnadar til smídis hans og umbúda o: s. frv. meir ènn 1600

rd. silfurs. Verdur þeim peníngum varid til stiftunar æfinlegs hjálparsjóds framvegis fyri verdugann enn fátækann stúdent úr Vebjargar skóla, úr hvörjum Ove Malling var útskrifadur til frekari lærdómsydkana vid Kaupmannahafnar háskóla.

Marga merkismenn misti Danmörk á þessu tímabili, hvarámedal 1826 þrjú þjódskáld (af hvörjum þó enginn dó í sjálfu ríkinu) nefnilega: Kammerherra og Riddara August Vilhjálm Schack Staffeldt, amtmann yfir Gottorpsamti í Slèsvík; Júftitzrád, Prófessor og Riddara Jens Baggesen, er andadiz þann 3dja Október nær 63 ára gamall, á ferd frá Dresden, hvadan hann fór daudveikur til síns födurlands, enn komst ej lengra enn til Hamborgar. Læknirar skáru hann upp, og reyndiz daudi hans ad hafa ordsakaz af undarlegum innanmeinum, sem voru útskírd og uppmálud í prentudum latínskum ritlíngi. Var lík hans sídar flutt til Kíl á Holsetulandi, og jardsett þar hjá seinni konu hans. Sorgarhátíd var nockru sídar haldinn í hans minníngu á því konúnglega sjónarleikahúsi, med skodunarspili, orktu af Prestinum Síra J. C. Boje (er mörg slík snillileg samid hefur) og sèrlegum eptirmála Prófessors og Riddara Ölenschlegers, er þannig hafdi gjörsamlega gleymt fæd þeirri, er um stund hafdi í gjörst millum hans og þess andada, hvaraf margbreytt pennastríd reis fyri nockrum árum hèr í Kaupmannahöfn, ádur enn hinn andadi veik hèdann til útlanda. Baggesen var og eitt hid nafnfrægasta skáld í

þýdſku máli, og vard hann því, eins og hèr, mörgum harmdáuda utanlands, jafnvel í París, hvar hann lengi dvalid hafdi og mikid álit haft vegna síns andríka ſkarpleika og ſjaldgæfa lærdóms í heimsspekis frædum. Þridja þjódskáld Dana, er þó ej, vegna burtfarar hèdan á únga aldri hafdi allmörg ljódmæli eptir ſig látid, var Malte Konrad Brún, fæddur í Þjóduſtad (Tiſted) á Jótlandi, ſem lengſt af hafdi verid í París, og andadiz þar þann 14da December ej meir enn freklega fimtugur ad aldri. Ej hafdi hann hèr lengi ſtúdent verid, fyrr enn hann vard frægur af qvædum ſínum, ſem þó opt midudu til ad nidra konúngsvaldi, adalſtandi, klerkastètt og trúarbrögdum, til dæmis hinn þá nafnkèndi „Ariſtokraternes Katechismus." Fyri þau var hann því lögsóktur optar enn einu ſinni; flýdi hann þá fyrſt til Svíaríkis, enn kom aptur, og var ádur enn lángt um leid, dæmdur til æfinlegrar útlegdar. Hann veik þá 1799 til Fránkaríkis, enn komſt brádum ad raun um, ad þeſs háttprísada fríland ſtjórn hafdi miklu fleiri breſti, enn hann í fjarſka hafdi ímindad ſèr; leiddiz hann því brádum til öldúngis gagnſtædrar meiníngar um ſlík efni. Hann lagdi þá fyri ſig ad ſkrifa frönſku, þó meſt í óbundinni rædu, og þad heppnadiz honum ſvo vel, ad hann innan ſkamms komſt í meſta álit ſem einn hinn ſnotraſti þjódarinnar rithöfundr. Medal annars ritádi hann mikla bók um jardar- og landa-frædi, ſem áleitſt ad vera hin beſta þeirrar tegundar, er þángad til hafdi útkomid, og var ſídar útlögd á vallenſku,

ensku og fleiri túngumál. Einnig skrifadi hann merkt rit um lagarèttindi konúngserfda og margt annad vidiíkt — enn ætladi seinast ad taka saman lángt rit um Nordurlanda fornmanna sidu, trúarbrögd, frædi og athafnir. Hann hafdi jafnvel vid ord ad vitja aptur Kaupmannahafnar til þess undirbúníngs, því konúngur vor hafdi, eptir bónarbrèfi hans, ógyldt þann fyrrumgetna útlegdar dóm til fulls og alls, en daudinn hindradi framqvæmd þess ásetníngs.

Þegar á þessu ári, 1827, dóu þarámót í Danmörku sjálfri: Hans Excellence, konúngsins handgenginn stjórnarherra í rèttinda og alþjódlegs sidferdis málefnum (Geheime-Júftitz-Minister, &c.) og forseti hins danska Kansellíis Fridrik Júlíus Kaas, Riddari fílsordunnar &c. á 69da aldursári; hann andadiz af þúngri sóttarlegu, sama dag og kona hans, þann 11ta Jannúarí. Hans sèrlegi viturleiki, rèttsýni, hreinskilni, dugnadur og gódmennska, ávallt sýnd í forstödu hans mörgu mikilvægu embætta, munu ógleymanleg í Danaveldi, og var hann þessvegna bædi konúngi og ödrum landsmönnum sínum harmdauda. Í dönskum frèttablödum setti vor nafnfrægi landi, Herra Etatsrád, Geheime Archivarius og Riddari Grímur Jónsson Thorkelín, tèdum hans andada hágöfuga velunnara (eins og fyrr mörgum ödrum merkismönnum) snotra útfararminníng í Latínumáli. Eptirmadur hins andada í stjórnarrádum og Kancelliisins forsetadæmi vard sá fyri stakan dugnad alþekkti

herra, Hans Excellence, Geheime Konferenzrád Páll Stemann, Stórkrofs af Dannebroge &c., og amtmadur yfir Sóreyar-amti. Snemma í Febrúarí mánudi deydi kommandör í herſkipaflota konúngs vors, Peter Norden Sölling, Riddari af Dannebroge, aldradur madur, enn ern og idiuſamur til ſinnar banalegu; nafn hans mun ódaudlegt í farmanna og ſjóferda annálum, vegna fyrſt uppfundinnar og kèndrar byggíngar haffærra lótsbáta í Noregi, allmargra fjöri og gótſi til bjargar, og þeſs koſtgæfilega dugnadar, med hvörjum hann ſmámſaman samandró (þó meſt af annara gódviljugum gjöfum) í hinn ſvokallada bombusjód næga peninga til ad kaupa ſtórann gard ad leigulauſum bólſtad fyrir aldrada og fátæka ſjófarendur; vitanlegt er þad og ádur í dönſkum tídindum auglýſt, ad töluverdar gjafir hafa boriz þeirri ſtiptun frá Íslandi, ſèrílagi ad tilſtilli þeſs margreynda og vídförla farmanns, Kapteins Jóns Vidalíns. Í Martſí mánudi dó ſá háaldradi gódfrægi merkismadur, bókhöndlari og prentverks-egandi Kriſtján Íverſen í Ódinsey á Fjóni á 79da æfi-ári; hafdi hann lengi kappſamlega ſtudlad til prentunar og útbreidſlu ſnillilegra ritgjörda í dönſku máli, enn ávallt framhaldid ſínum margfródu, andríku og ſkèmtilegu fjónſku frèttablödum, er lengi voru þau beſtu í Danaveldi, og ſvo almennt leſinn, ad þegar Noregur adſkildiz frá Danmörk, hlutu einúngis þar 650 kaupendur ad ſegja ſig frá ad halda þau eptirleidis. Ritari þeſſara frèttablada minniz þacklátlega

þeirrar ſkemtunar, er honum gafſt á æſkuárum á Íslandi af leſtri Íverſens tídinda, ſem voru þau fyrſtu, er honum fyrir ſjónir báru. Þeim er enn med ſama nafni framhaldid af hans verduga tengdaſyni, Adjúnctus og Stiftis-bygg-ínga-meiſtara Hanck.

Fólksfjöldi í öllu Danaveldi innan Nordurálfu er þegar ſtíginn til tveggja millióna. Mjög var þó kránkhallt á næſtlidnu ſumri og hauſti í þeſs hertugadæmum, einkum þeim ſvokölludu merſkis löndum, af þeirri landfarsótt, er dreyfdiz þángad med ſjáfarſtröndunum frá Hollandi, eins og eg ádur hefi um gètid.

Íslands og Íslendínga hálærdi Velunnari, Etatsrád Prófeſsor og Riddari Thorlacíus veik med frú ſinni og íslendskri júngfrú(dóttur Herra Kammerráds og ſýslumanns í Eyafjardar ſýslu Gunnlaugs Briem) fyrſt til Þýdſkalands enn þadan til Vallands og fleiri útlanda. Margir hèrverandi Íslendíngar og fleiri hans vinir minntuz vid hann med innilegri ſkilnadarskál um qvöld þeſs rta Maji ſ. á. Var þa druckid minni hans, hans gódu andríku frúar, og önnur fleiri med nýum saungvíſum og hljódfæraslætti. Óſkum þó vèr íslendsku Hafnarbúar ad njóta miklu meiri fagnadar í líka minníng þeirra farsællegu heimkomu. Frèttſt hefur annars ſídann ad hann og heimsins nú frægasti bílætasmidur, Etatsrád, Prófeſsor og Riddari Thorvaldſen (bádir íslendskir ad födurætt) hafi í Rómaborg, í hátídlegu ſamqvæmi, verid, hvör fyri ſig, prýddir med lárvidarkransi, til verdskuldads heidurs-

merkis fyri sjaldgæfan frama í vísindum og snillilegustu hagleikslist.

Af heldri stètta Íslendíngum í Danmörku dóu ej fleiri, ad vitund minni, enn stúdent Márus (Mauritz) Matthíasson, Candidatus philosophiæ & philologiæ, er ádur um hríd hafdi verid settur Adjúnctus vid Rípa Lærdóms-skóla. Lengi var hann þjádur af augndepri og brjóstveiki; sinnisgáfur hans voru allgódar, enn nockud sèrlegar, og mest hafdi hann hneigdur verid til lesturs og umþenkíngar útlendra snilli-qvæda, einkum vallendskra, í hvörju máli hann hafdi gódum framförum tekid. Utför hans var sómasamlega gjörd af hans hèr vid háskólann verandi landsmönnum.

Bækur, sem á næstlidnu tídinda-ári eru á prent útgèngnar í Danaveldi, munu finnaz uppteiknadar í þessum blödum af annari hendi. Þó get eg þess, ad ýmislegar hindranir enn þá hafa tálmad útgáfu þessara ritgjörda, sem ádur í fagnablödunum hafa nefndar verid, enn þó ad líkindum brádum munu fullgjördar verda: 1) þridji partur Sæmundar Eddu, med vidbættri latínskri ordabók yfir norræna godfrædi; af honum eru nú 93 arkir prentadar. 2) Antiqvariske Annaler, 4 bindis 2 hefti. 3) Rektor Páls Árnasonar stóra griska ordabók, med danskri útleggíngu sèrhvörs ords; — hennar samníngur og prentun mega kallaz sèrleg vandaverk, þar stærd hennar er fyri framm tiltekinn, eins og opt hlýtur ad skè í Danmörku; rithöfundum opt til óþægilegs baga.

Geta má þess hèr ad bílætahöggvari Freund í Róm (vors nafnfræga Thorvaldsens lærisveinn) hefir mindad ágætt málverk yfir Ragnaröckur edur sídasta stríd goda og jötna eptir Eddum vorum, og á hann sídar, á kostnad konúngs vors ad fullgjöra líkt mindasmídi med list sinni umhverfis á þilveggjum eins hins stærsta sals á því nýbygda Kristjánsborgar konúngsslotí hèr í Kaupmannahöfn.

Póstskipid kom frá Íslandi híngad til Hafnar þann 26 Martsí þ. á. eptir 9 til 10 daga siglíngu í æskilegasta byr, sem verda mátti.

---

## Vidvíkjandi ástandi og athöfnum hins íslenzka Bókmentafèlags.

Föstudaginn þann 30 Martsí 1827 var almenn samkoma vorrar Fèlagsdeildar haldin á sidvanalegum stad, og var þar framlagdr sídasti Ársreikníngur gjaldkera vors yfir Fèlagsins inngjöld og útgjöld, þegar yfirskodadur, prófadur og rèttur fundinn af hlutadegandi revisórum — hljódandi sem eptir fylgir (ásamt hinnar íslenzku deildar vidbættu enn fyrr frammlögdu reiknings-skilríkjum).

## Reikníngr yfir tekjur og útgjöld hins íslenzka Bókmentafèlags frá 1sta Martsí 1826 til 27da Febúraríí 1827.

---

| Fylgiskjöl. | | Silfr. | | Seðlar. | |
|---|---|---|---|---|---|
| | | Rbd. | Sk. | Rbd. | Sk. |
| Sjá fyrra árs reikníng. | **Tekjur.** | | | | |
| | 1) Eptirstöðvar frá 28da Febr. 1826: | | | | |
| | a) í skuldabrèfum: | | | | |
| | α) konúnglegum . | 900 | | . | |
| | β) Ríkisbánkans . | 900 | . | 800 | - |
| | γ) þjóðbánkans . | 1400 | | | |
| | b) í peníngum . . | 408 | 76 | 441 | 85 |
| | 2) Frá Islandi innkomið: | | | | |
| No. 1 | Fèlagsdeildinni þar . | 80 | - | 87 | 61 |
| 1 | Sýslumanni Þ. Sveinbjörnssyni . . . | . | - | 23 | - |
| 1 | Prófasti G. Þorsteinss. | - | - | 20 | 16 |
| 1 | Sýslumanni Melsted . | - | - | 21 | 32 |
| 1 | Sira S. Brynjólfssyni . | - | - | 7 | - |
| 1 | Stúd. Sivertsen á Eyrarb. | - | - | 27 | - |
| 1 | Kaupmanni B. Benediktsen | 10 | | | |
| | — Thorarensen . . | - | - | 10 | 56 |
| 1 | Faktor G. Guðmundssyni | - | - | 1 | - |
| 1 | Tillag Amtm. G. Johnsons | 5 | | | |
| | — — B. Thorsteinsens | 6 | | | |
| | — Grósserara Isfjörðs | 6 | | | |
| | — Dr. G. Brynjólfss. | - | - | 3 | 36 |
| | — Stúd. S. Brynjólfss. | - | - | 3 | 36 |
| | — Exam. júris Þ. Gunnlaugssonar fyrir fl. ár | - | - | 10 | - |
| | 3) Gjafir Fèlagsins velgjörðarmanna: | | | | |
| | Hans hátignar Konúngsins | 100 | | | |
| | — Excell. Gèheimekonferenzr. J. Bülow | - | - | 60 | - |
| | 4) Tillög Fèlagsins meðlima í Danmörk: | | | | |
| | a) Heiðrslima: | | | | |
| | Kammerh. Greifa Moltkes | - | - | 100 | - |
| | á síðunni . | 3815 | 76 | 1616 | 34 |

stadar nafnverd, hvar silfr ekki er nefndt. Ad þetta smídi sè nú eigi í öllu tilliti svo vel af hendi leyst, sem vera ætti, finnr enginn betr enn eg sjálfr, sem eg bid og vona mínir heidrudu landsmenn gódfúslega afsaki; en eg hefi góda von um ad ári, ef gud lofar (því þessu skal nú árlega framhalda) ad geta leyst þetta betr af hendi, med ljúfmannlegu fullíngi vors góda forseta, Hra Prof. Rasks, sem med sinni sidvanalegu velvild til Islands og Islendínga hefir átt hvad mestan þátt í, ad listi þessi kom fyrir almenníngs sjónir.

Þorgeir Gudmundsson.

---

## Innsend fylgiskjöl fra ýmsum höfundum.

### *Auglýsíng.*

Fyrir rúmu ári sídan brann amtmanns-íveruhúsid á Mödruvalla klaustri af vodaeldi, vid hvört tækifæri eg, sem í hættunnar augnabliki eingaungu hlaut ad vinda ad frelsun amtsins skjalasafns úr eldinum, sviptist á minna enn einni klukkustundu svo ad segja öllu því, eg átti, og sem eg og mínir med yfir 20 ára idn og sparsemi höfdum smátt og smátt saman dregid. Missir vor hleypr eptir lágum reikníngi milli 5 og 6000 rd.

I þessari armædu hafa vinir mínir sunnanlands, og innbúar Nordr- og Austr-amts, keppzt hvör vid annann ad bæta mèr og mínum vorn missir, og vid höfum sèrílagi medal nefnds amts gódu og heidrudu innbyggjara fundid svo heita, fölskva- og eigingirnis-lausa adstod og velvilja, sem vid hvörgi á jördu hefdum fundid slíka, og sem ekki sýndi sig í fagrgala, heldr í verki. Nokkrir hafa sæmt oss med rausnarligum gjöfum, og allir sýnt einlægan vilja til ad hjálpa, margir jafnvel framyfir efni sín. Med þessari hluttekníngu, sem lángt yfirgekk vora von, höfum vid feingid nokkurn part vors skada bættan, og erum ordin í standi til ad útvega oss aptr þá allra naudsynligustu innanstokks hluti.

Med klökku hjartaþeli tjái eg hèrmed Nordr- og Austr-amts innbúum yfirhöfud og þeim herrum syslumönnum ásamt Akreyrar gódu innbyggjurum sèrílagi mitt og minna inniligа hjartans þakklæti fyrir þeirra edallundudu adstod í voru óhappi. Vid höfum medtekid dýrmætan pant uppá innbyggjaranna virdíngu og kærleika, sem hefir eptirskilid djúpar menjar í vorum hjörtum, er aldrei munu afmást, hvar sem vid flækjumst á medan oss verdr lífs audid.

Kaupmannahöfn þ. 28 marzí 1827.

G. Johnsson,
amtmadr.

## *Vid vígslu Biskups Steingríms Jónssonar.*

Þá var grátur
í Gardarshólma
millum fjalls og fjöru,
er Geir hinn gódi,
sem var gudættadur,
fór til fedra hvílda.
Þá fló von vökur
um vídheima,
ad leita skjaldar í skardit,
og beindi brautir
(sú er braut opt farin)
fram til Lidheims landa.
Döpur fèll á hnè
fyrir Dana ást,
gram enum geirbæina;
gekk hann þá í hásæti,
um hrýmeyu kalda
hvarfladi árvakur auga,
Heimti tvo úr hamri
herskjaldada,
íturborna brædur;
höfdu þeir und Mínervu
merkjum þjónat,
leingi landvörn haldit.
Seldu þeir nú rendur
í Ræsirs hönd,
hann þeim lopt á lèk:
ei mátti deili
úr Ödlíngs höndum
kènna kosta þeirra.
Dulin eru forlög
firda sjónum,
mælti hilmir hýr;
grípa gulligar,
þad vard Grami rád,
mundi metaskálar,
Munda mundáng,
mid gat Themis,
skaut á skapa hlutum;
seig þá met annars,
sem seidur drægi,
enn hins upptogadi himin.
Þá tók Fridrekur
fólkum djarfi
skjöld enn lètta í skardit;
fanst á mundrida

fánga merki
Steingríms Jónssonar
Budlúngur baud hann
skyldi biskup vera,
klerka stjórn og stytta;
glöd vard Gardarsey,
grátur leid úr auga,
æ koma skin eptir skúrir.
Gledjast því konúngur
og kappar hans,
gledst höfdíngja hvad:
koma biskupar,
koma frömudar,
hans ad vídfrægja vígslu;
Koma lánglærdir
og leikir menn,
koma börn og brúdir,
gánga og fra Gardshorni
(svo fer guma hvad)
karl og kerlíng bædi.
Glymur um Gudshús
gledi-hljómur,
hríngja klukkur hvellt:
sèst frá Heklutind,
hifin-seilir,
raudur vada viti,
Eitt eyar merki,
elda glampi,
vinur vegfarenda:
snýr á Snæfelli
snúdigur vindur
annari fannhvítu fánu.
Vottur er virdínga
varddýsa tröf,
bjóda sín bústad millum:
kætist klerkdómur,
kvedur vid í tindum
hljómur hökulbera:
Sjádu aumu á
ástand vort,
fár er sá fyribæti,
vertu oss Steingríms
stikilslausum
mót hornum enna hnubb-
gjörnu.
Vær vonum at þèr góds
gæfu frama;
þú ert gódum gètinn:
reglu og rèttvisi
ertu reyndur ad;
þær eiga götur til Guds.
Gèf vèr gètum þín
svo med gledi notid
sem þèr ófalskt unnum:
blómgist listir lands
og lærdóms ment,
meir sem aldir eydast,
lifi Jöfur, Lád,
lifi Biskup vel,
Öld í frjófgum fridi!

## *Vísinda Sólar birti.*

Ar qváðu sæla
sólu vísinda
at myrgni mærum skína,
megin glóbjarta;
hefira svo í heiði
hún skinit siðan,
gekk þó lágtaf holti
Hoddmímis nýrunnin.
Jamt er hækkaðist
huldu flókar úrvanar;
svâ var ærit lengi;
uns með sumum þjóðum
hækkun heiði fylgði,
hulit þó glíu væri;

harla voru þær fáar;
hèlzt þat lengi nokkut,
Nær var þá dagmáli, *)
dymmu lysta knátti
sjót yfir gjörvalla,
solar var lítill kostr:
lánga var svâ hríð,
áðr lýsa endr tæki;
þá var fundit prent,
þánkar vöknuðu.
Hjálm dró frá huliðs
heldr at þat, síðan
sáust æ fleiri hlutir
siðr áðr kunnir;
eitt var þat, er efldi
allramest manna sjónir,
auga sídan áfestu,
þat kom frá Alvaldi.
Degi var nær alvöxnum
drjúpa-sals á toppi,
mær stód yfir midjum,
Mímis alskír brunni;
bjart var svâ á löndum
at lýðir nè áðr vissu,
margir menn þá sýndu
merkir öðrum nýlundr.
Neyttu þeir til skarp-
sýni,
nýrra sýnar vâpna,
reynslu allmargrar,
röksemda samhengis,
mannvits oc mærra kosta,
mýktar í leiðsögu,
vaxins grips hugar
virða margra hverra.
Þá sýndi inn ítri
arfþegi Magnúsar,
sínum í sjónspegli
(sólarljóss nýtti)
áðr ókunnug
Austr-fjöll Himinlægju,
Edens aldna stöðu,
allar fornar goða bygðir.
Hafdi til þess Eygló
hádegi ná knátti,
Asgarðs fjall ið mikla
áborit skugga nokkrn
önnur austr þaðan;
enn því var nú lokit;
skuggsjá betri fengin
ennskravk gètit hafa. **)
Skuggsjá kalla bók þá,
èr skoða má í guða bygðir
af Ymis höfði gjörvar
ofan hryggliðu; ***)
hryggr er sá Himinlægja,
haus er Vindofnir; ****)
bók gjörði vitríngr,
betri gètr slíka eigi.

J. Espólín.

## *Fagnadar-Stef*

móti komu Herrà Konsistoríal-Assessor G. Oddsens út til Islands Dómkirkju 1827 frá einum Bardstrendíng.

Um hafs hættan geym
híngad sudræna fleyti

*) at upplýsíngu, ekki ad tímatali.
**) sem alla vidburdi í því eda því landi mátti sjá í.
***) Imaus fjöll.
****) Himinn.

knör kærstum þeim,
frá Kaupinhöfn skrid er þreytir,
og heim til vor flytur vorn heidrada vin,
haudurs vors gledi og blóma,
Assessor Gunnlaug, hvers ydnin ei lin,
efla hans geingi og sóma.

Mærst menta safn,
med alúd stunda nádir,
veg vannst og nafn;
viljugur hins þó gádir;
med lærdómi þínum ad lýsa oss vel,
leida til guds ord ad skilja,
og frædi, er ádur oss ókunna tel,
um jardar lögun ad þylja.

Þar fyrir þèr
þakkir hugljúfar tjáum;
vel verdugt er;
varanleg not þess sjáum;
forsjónin ædst og þín födurlands ást
til födurlands kallo þig rèdi;
æ meir því gagna, þín ástundun sást,
enn þèr og veitist sú gledi!

Fagnar þèr Frón,
fagna þèr ætt og vinir,
svaslig mun sjón,
ad sjá hvad kætast hinir,
er vísdóms og dygda þú veg leida á
vidleitni trúa munt sýna;
allir til födursins ósk sendum þá:
æ blessi hann vidburdi þína!

Farsælist för
fósturlandanna milli,
um of ei ör
aldan hæglát þèr dilli,
ad höfnum greidt náir vid höfudból lands

og hèr fáir byrjad ad ydja,
verdir svo heidur þíns vandhæfa stands,
vinnist þess heillir ad stydja.

Lif leingi og vel,
leingi þú gagnir Fróni!
guds gæzku þel
geymi frá öllu tjóni
kvenn-hnossid dýrsta, er kætir þitt *líf*,
og kvenna er fegursta blómid!
vaki yfir börnunum voldug sú hlíf,
þau verdi, sem þid, ættar-sómi!

B. Þ.

† † †

Döpur er sú fregn,
fer ad hlustum,
er hún þig
andadan telur,
ástvin besti,
brædra yndi,
yndæl von
eptri tíma!
Nafn þitt mun ec nefna
(ek þad nefndi þrátt
medan saman sáumst)
Sæmundur Brynjólfsson.
Ei gat ydn þín
nè edallyndi
haldid þèr frá
Helju kaldri,
ei fögur æska
nè Æskulap,
undir hvörs merkjum
þú einatt hlóst.
Spara mun ek hrós þitt,
þad hrygd meir eykur,
ok söknud þinn
enn sárari gèrir,
Ei var hugur þinn
á heimi þessum
frá því bródir þinn
þèr af baki hvarf
þad er gledi því
þeims gráta þig,
ad þú hann
þèr undan farinn
hittir þrádan mjök
í heimi sælla,
hvared kröm nein
eì kvalir myndar,
en óþekt unan
yndi skapar.
lètt verdur braut,
þeim bródur eptir
hefir heilög spor
til himin-fjalla.

---

Aldrei mun svo fagur
úr austri renna
dagur uppá himin
dróttu sjónum,
ad hanns í vestri
ei aptan lendi:
svo er ok háttad

heimi þessum,
ad menn verda eptir
menn ad lifa.
Sivertsen.

† † †

Líkkistan geymir
leyfar jardneskar,
sem endur lifna
á efsta degi;
enn öndin er flutt
af einglum drottins
í sælustad
hiá sjálfum Kristi.

---

Benedikt Pálsson,
Prestur til Stadar,
vitur madur
og vellærdur,
allmörgum fremur
embættis-brædrum;
kènnari gódur,
gódur húss-fadir,
úngdóms frædari
einhvör enn bezti,
egtamaki
hinn ástúdlegasti,
tryggvasti vinur,
trúr í lofordum,
margra styrkur
munadarlausra,
margra voladra
velgjörári;
fastheldinn
í fyrirtektum;
gèstrisinn
og gódviljadur,
rádsvinnur bædi
og rèttsýnn í skiptum.
Þeir hann rètt þekktu,
enn þad voru ei allir,
sanna munu,
ad satt eg mæli.
Hálmstrá þetta
hyggst ad leggja
á vinar leidi.
(því vant er blómstra,)
hann sem veit sig
verda brádum
ad jörd og fædu
jardar orma.

Enn þú, hvörs liggur leid legstad vors vinar hjá,
hygg ad þitt æfi-skeid endíng mun líka fá;
laga þinn lifnad vel, lifs medan veitist tóm,
so þú ei hrædast Hel hljótir, eylífd nè dóm.
Far vel, þú frelsta önd, frá böndum Líkhamans,
far vel í födur hönd til fyrirheitna lands!
þín þó eg sakni um sinn, samt veit eg innan skams,
ad þig fagnandi finn í fadmi Abrahams.

Síra Benedikt Pálsson
er fæddur ad Uppsum á Uppsaströnd

í Eyafjardar sýslu ár 1724.
Dimittèradur af bródur sínum, þáverandi Rektor á Hólum Gunnari Pálssyni,
28da Júní 1745.
Var Djákni á Múnkaþverá 2½,
sídan Prestur ad Miklagardi í Eyafirdi 14¾,
þar eptir Kapellan ad Hvammî í Dalasýslu 3 ár,
þar-næst Prestur til Tröllatúngu
í Stranda sýslu 5 ár,
sídarst Prestur til Stadar á Reykjanesi í Bardastrandar sýslu rúm 42 ár, deydi samastadar, og var jardadur 8da Júníi 1813, 89 ára ad aldri; hafdi hann þá prestur verid 65 ár, og þjónad í því embætti stödugt. Sjálfur átti hann eingin börn, enn uppól mörg annara.

† † †

Lifir dygd, lifir heidr,
lifir mannord mætt!
blessist minníng þín,
Björg Halldórsdóttir!
egtamaki beztr, bezta módir,
ættíngjum, hjum, ástvinur dýr,
barnsængur konúm hjálpar-hög,
og aumstöddum athvarf varst!
Ljómar æra þín, og atgjörfi,
um alldr og eylífd;
þótt líkaminn rotni undir leidi þínu.
Syrgjandi ástvinr setti.

## *Súbskripzíónsplan.*

## Nordurlanda Fornaldar Sögur
eptir gömlum handritum
útgefnar af
C. C. Rafn.
Dr. og Prof., Secretèra hins Norræna Fornfræda Fèlags.

Þad eru sögur þær, er herma frá þeim atburdum, sem ordid hafa á Nordurlöndum fyrir daga Haralds konúngs Hárfagra, hvörra prentan hèrmed bodud verdur; þær fornaldar frásagnir, er elztu

forfedur ydar, Islendíngar! höfdu med sèr út til Islands á landnámsdögum, og sem þeirra nidjar og ydrir ættmenn svo snilliliga færdu í letur, ad þær nú hvervetna í nordurálfu heimsins eru af öllum lærdum mönnum, þeim sem fornfrædi stunda, ad undrum og forkunn hafdar. Ad greina ítarligar frá ágæti og nytsemi þessa söguflokks, er í samfeld þúsund ár hefir verid hverjum ættbálki ad ödrum til fródleiks og skemtunar, þykir ecki þörf tilbera, þar eingum er hèrum framar kunnugt enn ættlid þeim, sem nú er uppi, og í arf hefir tekid ást forfedranna til allrar sögufrædi. Utgefarinn telur sig því þess vissan, hvervetna á Islandi ad mæta allra söguvina velvild og ljúfu fulltýngi til þessa fyrirtækis frama.

Svo er tilætlad ad sögusafn þetta verdi prentad í þrem bindum, hvert hèrumbil þrjátigi arkir ad stærd, og innihaldi eptirfylgjandi sögur:

Fyrsta Bindi: Völsúnga Saga, Norna Gests Saga, Hrólfs Saga Kraka, Sögubrot af Brávalla bardaga, Ragnars Saga Lodbrókar, Sögubrot af Upplendínga konúngum, Hervarar Saga, Saga af Hèdinn og Högna.

Annad Bindi: Fundinn Noregur, Sagan af Hálfi og Hálfsrekkum, Fridþjófs Saga Frækna, Saga Ketils Hængs og Gríms Lodinkinnar, Örvarodds Saga, Ans Saga Bogsveigirs, Saga Hrómundar Greipssonar, Gautreks Saga og Hrólfs Saga Gautrekssonar, þorsteins Saga Víkíngssonar, Asmundar Saga Kappabana.

þridja Bindi: Herrauds og Bósa Saga, Gaungu Hrólfs Saga, Egils Saga Einhendta og Asmundar, Sörla Saga Sterka, Sagan af Hjálmter og Ölver, Hálfdáns Saga Eysteinssonar, Sagan af Hálfdáni Brönufóstra, Sagan af Sturlaugi Starfsama, Sagan af Illuga Grydarfóstra, Eiríks Saga Vídförla.

Sögusafn þetta verdur, eins og Fornmanna Sögurnar, prentad í stóru áttablada formi; en þared útgefarinn hefir eingan annann styrk til útgáfu þessarar, enn þann, er þeir, ed lofa ad kaupa hana, veita, getur verd hennar eigi ordid ákvedid svo lágt sem á Fornmanna Sögunum, þó nokkud lægra enn hèr er almennt á slíkum bókum, nl. á Islandi 8 sk. í silfri fyrir hverja örk; annarstadar verdur hvör

örk seld fyrir 10 sk. í silfri. Til þess ad kaup þessa safns verdi audveldara, gjætu fleiri í sameiníngu keypt þad. Þared listi yfir þá, sem frama þetta fyrirtæki, mun ásamt prentadur verda, umbidjast allir tilvonandi kaupendur nákvæmliga ad tilgreina nöfn sín, stètt og adsetur. Avísun um þá, er gyrnast ádurgreindt sögusafn, óskast ad send verdi med haustskipum, í brèfum til útgèfarans med utanáskrift: „Til Professor Rafn, Kjøbenhavn, Kronprindsessegaden Nr. 400, øverste Sal" og þaradauki, þau brèf, er svo seint verda send frá Islandi ad vænta má eigi berist fyrr til Kaupmannahafnar enn í midjum Octobermánudi: „afleveres i Bogtrykkeriet Østergade Nr. 72."

Ný útleggíng á dönsku af fyrrnefndum sögum mun líka verda útgefin; þeir sem hana gyrnast kynnu, umbidjast sèrílagi ad tilgreina þad.

Kaupmannahöfn, þann 1. Aprílis 1827.

### *Auglýsíng.*

Samkvæmt tilboðsseðlum vorum, er vèr í fyrra vor sendum sóknarprestum á Islandi, hefir oss heppnazt at láta prenta fyrri part biskups Jóns Þorkelssonar Vídalíns hússpostillu, innihaldandi 46½ örk, hèr í höfuðborginni í vetr, og sendum vèr hann nú heim með Islandsförum Skyldi einhvör, sem ei hefir enn skrifat sig fyrir bók þessari, girnast hana til eignar fyrir ákveðit verð, nl. 3 rbd. reiðu silfurs á prentpappír og 5 rbd. r. s. á hollenzkan medían-pappír, þá óskum vèr at hann tilkynni þat annathvört presti sínum eðr einhvörjum okkar, at ósk hans verði sem fyrst uppfyld.

Kaupmannahöfn þ. 28. Aprílis 1827.

*Gunnlaugr Oddsson* tilvonandi í Reykjavík. — *Þorgeir Guðmundsson,* Sø-Etatens Proviantgaard.

*Þorsteinn Helgason*, *Þórðr Jónasson,* á Regenzi.

hvar hús og trè og annad þesskonar stód í vegnum. Undir vagninum var hjól, hvadan reipid ýmist gat lengzt edr styzt, eptir sem þörf var á.

Þ. G.

---

## Hins íslenzka Bókmentafèlags medlimir eru nú:

### 1. *A Islandi.*

Fèlagsins embættismenn:

Forseti: Arni Helgason, Stiptprófastr og Prestr til Garða á Alptanesi.

Fèhirðir: Sigurðr Thorgrimsen, Land- og Býfógeti í Reykjavík.

Skrifari: Jón Jónsson, Lector Theologiæ.

Aukaforseti: Isleifr Einarsson, Etatsráð og efsti Assessor í Islands Landsyfirrètti.

– fèhirðir: Hallgrímr Schèving, Dr. Philos., Adjúnkt.

Aukaskrifari: Jón Þorsteinsson, Landphysic.

Heiðurslimir:

Herra P. F. Hoppe, Stiptamtmaðr og Amtmaðr yfir Suður-amtinu.

- Steingrímr Jónsson, Biskup.
- Bjarni Þorsteinsson, Amtmaðr yfir Vestur-amtinu.
- Grímr Jónsson, Amtmaðr yfir Norður- og Austur-amtinu.

Orðulimir:

(sem ennþá borga árleg tillög).

Herra Magnús Stephensen, Konferenzráð og Dr. júris, Jústitiaríus í Islands Landsyfirrètti.

- Isleifr Einarsson, Etatsráð o. s. fr.
- Bjarni Thorarensen, Assessor í landsyfirrèttinum.
- Arni Helgason, Stiptprófastr, o. s. fr.

Herra Sigurðr Thorgrímsen, Land- og Býfógeti.
- Jón Jónsson, Lector Theologiæ.
- Hallgrímr Scheving, Dr Ph., Adjúnkt.
- Sveinbjörn Egilsson, Adjúnkt.
- Jón Þorsteinsson, Landphysicus.
- Olafr Finsen, Sýslumaðr.
- Bjarni Sivertsen, Kaupmaðr, R. af D.
- S. Sivertsen, Kaupmaðr, í Reykjavík.
- Th. Thomsen, Gullsmiðr og Skóla-öconomus.
- Guðmundr Pètursson, Stúdent, Faktor í Hafnarfirdi.
- Hannes Stephensen, Prestr til Garðakalls á Akranesi.
- Björn Gottskálksson, Proprieter á Hrappsey.
- Lárus Thorarensen, Sýslumaðr, á Hofsós.
- Þorsteinn Hjálmarsson, Stud. Theol., á Akureyri.
- Guttormr Pálsson, Próf. á Vallanesi.
- Gísli Brynjúlfsson, Dr. Phil., Prestr ad Hólmum.
- Kjartan Isfjord, Grósserari, á Eskifirði.
- H. G. Thordersen, Prófastr, á Odda.
- Jakob Arnason, Prófastr, í Gaulverjabæ.
- Jón Steingrímsson, Prestr ad Hruna.

Umboðsmenn fèlagsins:

Herra Guðmundr Guðmundsson, Faktor á Búðum.
- Ole Steenback, Faktor í Stykkishólmi.
- Böðvar Þorvaldsson, Prófastr á Gufudal.
- A. Blöndahl, Sýslumaðr á Hvammi.
- Jakob Havsteen, Kaupmaðr á Hofsósi.
- Th. Thorarensen, Kaupmaðr á Eyafirði.
- Baagøe, Faktor á Húsavík.
- Guttormr Þorsteinsson, Prófastr, á Hofi.

hvar hús og trè og annad þesskonar stód í veginum. Undir vagninum var hjól, hvadan reipid ýmist gat lengzt edr styzt, eptir sem þörf var á.

Þ. G.

---

## Hins íslenzka Bókmentafèlags medlimir eru nú:

### 1. A Islandi.

Fèlagsins embættismenn:

Forseti: Arni Helgason, Stiptprófastr og Prestr til Garða á Alptanesi.

Fèhirðir: Sigurðr Thorgrimsen, Land- og Býfógeti í Reykjavík.

Skrifari: Jón Jónsson, Lector Theologiæ.

Aukaforseti: Isleifr Einarsson, Etatsráð og efsti Assessor í Islands Landsyfirrètti.

— fèhirðir: Hallgrímr Schèvíng, Dr. Philos., Adjúnkt.

Aukaskrifari: Jón Þorsteinsson, Landphysic.

Heiðurslimir:

Herra P. F. Hoppe, Stiptamtmaðr og Amtmaðr yfir Suður-amtinu.
- Steingrímr Jónsson, Biskup.
- Bjarni Þorsteinsson, Amtmaðr yfir Vestur-amtinu.
- Grímr Jónsson, Amtmaðr yfir Norður- og Austur-amtinu.

Orðulimir:

(sem ennþá borga árleg tillög).

Herra Magnús Stephensen, Konferenzráð og Dr. júris, Jústitíaríus í Islands Landsyfirrètti.
- Isleifr Einarsson, Etatsráð o. s. fr.
- Bjarni Thorarensen, Assessor í landsyfirrèttinum.
- Arni Helgason, Stiptprófastr, o. s. fr.

Herra Sigurðr Thorgrímsen, Land- og Býtógeti.
– Jón Jónsson, Lector Theologiæ.
– Hallgrímr Schevíng, Dr Ph., Adjúnkt.
– Sveinbjörn Egilsson, Adjúnkt.
– Jón þorsteinsson, Landphysicus.
– Olafr Finsen, Sýslumaðr.
– Bjarni Sivertsen, Kaupmaðr, R. af D.
– S. Sivertsen, Kaupmaðr, í Reykjavík.
– Th. Thomsen, Gullsmiðr og Skóla-öconomus.
– Guðmundr Pètursson, Stúdent, Faktor í Hafnarfirdi.
– Hannes Stephensen, Prestr til Garðakalls á Akranesi.
– Björn Gottskálksson, Proprieter á Hrappsey.
– Lárus Thorarensen, Sýslumaðr, á Hofsós.
– þorsteinn Hjálmarsson, Stud. Theol., á Akureyri.
– Guttormr Pálsson, Próf. á Vallanesi.
– Gísli Brynjúlfsson, Dr. Phil., Prestr ad Hólmum.
– Kjartan Isfjord, Grósserari, á Eskifirði.
– H. G. Thordersen, Prófastr, á Odda.
– Jakob Arnason, Prófastr, í Gaulverjabæ.
– Jón Steingrímsson, Prestr ad Hruna.

## Umboðsmenn fèlagsins:

Herra Guðmundr Guðmundsson, Faktor á Búðum.
– Ole Steenback, Faktor í Stykkishólmi.
– Böðvar þorvaldsson, Prófastr á Gufudal.
– A. Blöndahl, Sýslumaðr á Hvammi.
– Jakob Havsteen, Kaupmaðr á Hofsósi.
– Th. Thorarensen, Kaupmaðr á Eyafirði.
– Baagøe, Faktor á Húsavík.
– Guttormr þorsteinsson, Prófastr, á Hofi.

Herra Bech, Faktor, á Eskjufirði.
- Thaae, Faktor á Berufirði.
- Þórðr Sveinbjörnsson, Sýslumaðr á Hjálmholti,
- Sigurðr Sigurðsson, Studiosus, Faktor á Eyrarbakka.

## 2. *I Danmörku.*

### Fèlagsins embættismenn:

Forseti: Rasmus Rask, Prófessor o. s. fr.
Fèhirðir: Þorgeir Guðmundsson, Cand. Theol.
Skrifari: Þorsteinn Helgason, Stúd. Theol.
Aukaforseti: Finnr Magnússon, Prófessor, o. s. fr.
- fèhirdir Þórðr Jónasson, Stúd. juris.
- skrifari Jakob Thorarensen, Stúd. juris.

### Heiðurslimir:

Hans Excellence Herra Jóhan Bülow á Sanderumgarði, Geheime Konferenzráð, Riddari af Fílsorðunni, Stórkross af Dannebroge, o. s. fr.
- Castenschjold, Kammerherra, Stiptamtmaðr í Rípum (kosinn af D. á Isl.).
- A. W. Moltke, Greifi, Kammerherra, Depúteraður í Rentukammerinu, Kommandör af Dannebroge o. s. fr.
- H. S. Knúth, Greifi, Kammerherra, Kommitteraður í Rentukammerinu.
- G. J. Thorkelin, Dr. juris, Etatsráð, Leyndarskjalavörðr, Riddari af Dannebroge.
- J. Collin, Etatsráð, Depúteraðr í Fínanzráðinu, Riddari af Dannebroge o. s. fr.
- A. S. Ørsted, Etatsráð, Generalprokurör, Depúteraðr í því danska Kansellíi, Riddari af Dannebroge, o. s. fr.
- P. E. Müller, Dr. og Prof. Theol., Rid. af D.
- R. Nyerup, Próf., efsti bókavörðr Háskólans, Riddari af Dannebroge.
- K. L. Rahbek, Próf., Rid. af Dbr. o. s. fr.

Herra F. C. L. Moltke, Kammerherra, Stiptamtmaðr í Alaborg, Rid. af Dbr. (kosinn af D. á Ísl.)
- E. C. Werlauff, Júştizr., Próf. efsti bókavörðr vid konúngsins stóra bókasafn.
- F. Münter, Dr. Th., Biskup yfir Sjálands stipti, Stórkross af Dbr., o. s. fr.
- L. Engelstoft, Etatsráð, Prof., Medlimur stjórnarráðsins fyrir Háskólanum og enum lærðu skólum, Rid. af Dbr.
- J. Møller, Dr. og Próf. Theol.
- J. L. A. Kolderup-Rosenvinge, Dr. og Próf. júris.

Hans Excellence Herra O. Malling, Geheime-Stats-minister, forseti stjórnarráðsins fyrir Háskólanum og enum lærðu skólum, konúngl. Sagnaskrifari, Riddari af Fílsorðunni, Stórkross af Dannebroge, o. s. fr.

Herra J. F. W. Schlegel, Konferenzráð, Dr. og Próf. júris, Rid. af Dbr.
- J. N. B. v. Abrahamson, Divisíons Adjútant, Majór, Kammerjúnkur, Rid. af Dbr. og Dannebrogsmaður o. s. fr.
- Finnr Magnússon, Próf., Medhjálpari vid Leyndar-skjalasafnið.
- R. Rask, Próf., annar Bókavörðr Háskólans.

Yfirorðulimir:

Herra F. Faber, Regímentskvartèrmeistari og Auditör, í Hrossanesi.
- A. F. Mühlertz, Yfirlærimeistari við hinn lærða skóla í Nýborg.
- L. S. Borring, Cand. Theol. og Kadet-Informator.
- Rasmussen, kennari vid borgara skólan í Ásnesi, á Fjóni.

Orðulimir:

Herra Olafr S. Stephensen, Regímentskvartèrmeistari og Auditör ad Jegersborg.

Herra Beeh, Faktor, á Eskjufirði.
- Thaae, Faktor á Berufirði.
- Þórðr Sveinbjörnsson, Sýslumaðr á Hjálmholti,
- Sigurðr Sigurðsson, Studiosus, Faktor á Eyrarbakka.

## 2. *I Danmörku.*

### Fèlagsins embættismenn:

Forseti: Rasmus Rask, Prófessor o. s. fr.
Fèhirðir: Þorgeir Guðmundsson, Cand. Theol.
Skrifari: Þorsteinn Helgason, Stúd. Theol.
Aukaforseti: Finnr Magnússon, Prófessor, o. s. fr.
- fèhirdir Þórðr Jónasson, Stúd. juris.
- skrifari Jakob Thorarensen, Stúd. juris.

### Heiðurslimir:

Hans Excellence Herra Jóhan Bülow á Sanderumgarði, Geheime Konferenzráð, Riddari af Filsorðunni, Stórkross af Dannebroge, o. s. fr.
- Castenschjold, Kammerherra, Stiptamtmaðr í Rípum (kosinn af D. á Isl.).
- A. W. Moltke, Greifi, Kammerherra, Depúteraður í Rentukammerinu, Kommandör af Dannebroge o. s. fr.
- H. S. Knúth, Greifi, Kammerherra, Kommitteraður í Rentukammerinu.
- G. J. Thorkelin, Dr. juris, Etatsráð, Leyndarskjalavörðr, Riddari af Dannebroge.
- J. Collin, Etatsráð, Depúteraðr í Finanzráðinu, Riddari af Dannebroge o. s. fr.
- A. S. Ørsted, Etatsráð, Generalprokurör, Depúteraðr í því danska Kansellíi, Riddari af Dannebroge, o. s. fr.
- P. E. Müller, Dr. og Prof. Theol., Rid. af D.
- R. Nyerup, Próf., efsti bókavörðr Háskólans, Riddari af Dannebroge.
- K. L. Rahbek, Próf., Rid. af Dbr. o. s. fr.

Herra F. C. L. Moltke, Kammerherra, Stiptamtmaðr í Alaborg, Rid. af Dbr. (kosinn af D. á Ísl.)
- E. C. Werlauff, Jústizr., Próf. efsti bókavörðr vid konúngsins stóra bókasafn.
- F. Münter, Dr. Th., Biskup yfir Sjálands stipti, Stórkross af Dbr., o. s. fr.
- L. Engelstoft, Etatsráð, Prof., Medlimur stjórnarráðsins fyrir Háskólanum og enum lærðu skólum, Rid. af Dbr.
- J. Møller, Dr. og Próf. Theol.
- J. L. A. Kolderup-Rosenvinge, Dr. og Próf. júris.

Hans Excellence Herra O. Malling, Geheime-Stats-minister, forseti stjórnarráðsins fyrir Háskólanum og enum lærðu skólum, konúngl. Sagnaskrifari, Riddari af Fílsorðunni, Stórkross af Dannebroge, o. s. fr.

Herra J. F. W. Schlegel, Konferenzráð, Dr. og Próf. júris, Rid. af Dbr.
- J. N. B. v. Abrahamson, Divisíons Ádjútant, Majór, Kammerjúnkur, Rid. af Dbr. og Dannebrogsmaður o. s. fr.
- Finnr Magnússon, Próf., Medhjálpari vid Leyndar-skjalasafnið.
- R. Rask, Próf., annar Bókavörðr Háskólans.

Yfirorðulimir:

Herra F. Faber, Regímentskvartèrmeistari og Auditör, í Hrossanesi.
- A. F. Mühlertz, Yfirlærimeistari við hinn lærða skóla í Nýborg.
- L. S. Borring, Cand. Theol. og Kadet-Informator.
- Rasmussen, kennari vid borgara skólan í Asnesi, á Fjóni.

Orðulimir:

Herra Olafr S. Stephensen, Regímentskvartèrmeistari og Auditör ad Jegersborg.

Herra Beeh, Faktor, á Eskjufirði.
- Thaae, Faktor á Berufirði.
- Þórðr Sveinbjörnsson, Sýslumaðr á Hjálmholti,
- Sigurðr Sigurðsson, Studiosus, Faktor á Eyrarbakka.

## 2. *I Danmörku.*

### Fèlagsins embættismenn:

Forseti: Rasmus Rask, Prófessor o. s. fr.
Fèhirðir: Þorgeir Guðmundsson, Cand. Theol.
Skrifari: Þorsteinn Helgason, Stúd. Theol.
Aukaforseti: Finnr Magnússon, Prófessor, o. s. fr.
- fèhirdir Þórðr Jónasson, Stúd. juris.
- skrifari Jakob Thorarensen, Stúd. juris.

### Heiðurslimir:

Hans Excellence Herra Jóhan Bülow á Sanderumgarði, Geheime Konferenzráð, Riddari af Fílsorðunni, Stórkross af Dannebroge, o. s. fr.
- Castenschjold, Kammerherra, Stiptamtmaðr í Rípum (kosinn af D. á Isl.).
- A. W. Moltke, Greifi, Kammerherra, Depúteraður í Rentukammerinu, Kommandör af Dannebroge o. s. fr.
- H. S. Knúth, Greifi, Kammerherra, Kommitteraður í Rentukammerinu.
- G. J. Thorkelin, Dr. juris, Etatsráð, Leyndarskjalavörðr, Riddari af Dannebroge.
- J. Collin, Etatsráð, Depúteraðr í Fínanzráðinu, Riddari af Dannebroge o. s. fr.
- A. S. Ørsted, Etatsráð, Generalprokurör, Depúteraðr í því danska Kansellíi, Riddari af Dannebroge, o. s. fr.
- P. E. Müller, Dr. og Prof. Theol., Rid. af D.
- R. Nyerup, Próf., efsti bókavörðr Háskólans, Riddari af Dannebroge.
- K. L. Rahbek, Próf., Rid. af Dbr. o. s. fr.

Herra F. C. L. Moltke, Kammerherra, Stiptamtmaðr í Alaborg, Rid. af Dbr. (kosinn af D. á Isl.)
- E. C. Werlauff, Júſtizr., Próf. efsti bókavörðr vid konúngsins stóra bókasafn.
- F. Münter, Dr. Th., Biskup yfir Sjálands stipti, Stórkross af Dbr., o. s. fr.
- L. Engelstoft, Etatsráð, Prof., Medlimur stjórnarráðsins fyrir Háskólanum og enum lærðu skólum, Rid. af Dbr.
- J. Møller, Dr. og Próf. Theol.
- J. L. A. Kolderup-Rosenvinge, Dr. og Próf. júris.

Hans Excellence Herra O. Malling, Geheime-Stats-minister, forseti stjórnarráðsins fyrir Háskólanum og enum lærðu skólum, konúngl. Sagnaskrifari, Riddari af Fílsorðunni, Stórkross af Dannebroge, o. s. fr.

Herra J. F. W. Schlegel, Konferenzráð, Dr. og Próf. júris, Rid. af Dbr.
- J. N. B. v. Abrahamson, Divisíons Adjútant, Majór, Kammerjúnkur, Rid. af Dbr. og Dannebrogsmaður o. s. fr.
- Finnr Magnússon, Próf., Medhjálpari vid Leyndar-skjalasafnið.
- R. Rask, Próf., annar Bókavörðr Háskólans.

## Yfirorðulimir:

Herra F. Faber, Regímentskvartèrmeistari og Auditör, í Hrossanesi.
- A. F. Mühlertz, Yfirlærimeistari við hinn lærða skóla í Nýborg.
- L. S. Borring, Cand. Theol. og Kadet-Informator.
- Rasmussen, kennari vid borgara skólan í Asnesi, á Fjóni.

## Orðulimir:

Herra Olafr S. Stephensen, Regímentskvartèrmeistari og Auditör ad Jegersborg.

Herra Beck, Faktor, á Eskjufirði.
– Thaae, Faktor á Berufirði.
– Þórðr Sveinbjörnsson, Sýslumaðr á Hjálmholti,
– Sigurðr Sigurðsson, Studiosus, Faktor á Eyrarbakka.

## 2. *I Danmörku.*

### Fèlagsins embættismenn:

Forseti: Rasmus Rask, Prófessor o. s. fr.
Fèhirðir: Þorgeir Guðmundsson, Cand. Theol.
Skrifari: Þorsteinn Helgason, Stúd. Theol.
Aukaforseti: Finnr Magnússon, Prófessor, o. s. fr.
– fèhirdir Þórðr Jónasson, Stúd. juris.
– skrifari Jakob Thorarensen, Stúd. juris.

### Heiðurslimir:

Hans Excellence Herra Jóhan Bülow á Sanderumgarði, Geheime Konferenzráð, Riddari af Fílsorðunni, Stórkross af Dannebroge, o. s. fr.
– Castenschjold, Kammerherra, Stiptamtmaðr í Rípum (kosinn af D. á Isl.).
– A. W. Moltke, Greifi, Kammerherra, Depúteraðr í Rentukammerinu, Kommandör af Dannebröge o. s. fr.
– H. S. Knúth, Greifi, Kammerherra, Kommitteraðr í Rentukammerinu.
– G. J. Thorkelin, Dr. juris, Etatsráð, Leyndarskjalavörðr, Riddari af Dannebroge.
– J. Collin, Etatsráð, Depúteraðr í Finanzráðinu, Riddari af Dannebroge o. s. fr.
– A. S. Ørsted, Etatsráð, Generalprokurör, Depúteraðr í því danska Kansellíi, Riddari af Dannebroge, o. s. fr.
– P. E. Müller, Dr. og Prof. Theol., Rid. af D.
– R. Nyerup, Próf., efsti bókavörðr Háskólans, Riddari af Dannebroge.
– K. L. Rahbek, Próf., Rid. af Dbr. o. s. fr.

Herra E. C. L. Moltke, Kammerherra, Stipt-amtmaðr í Alaborg, Rid. af Dbr. (kosinn af D. á Isl.)
- E. C. Werlauff, Jústizr., Próf. efsti bókavörðr vid konúngsins stóra bókasafn.
- F. Münter, Dr. Th., Biskup yfir Sjálands stipti, Stórkross af Dbr., o. s. fr.
- L. Engelstoft, Etatsráð, Prof., Medlimur stjórnarráðsins fyrir Háskólanum og enum lærðu skólum, Rid. af Dbr.
- J. Møller, Dr. og Próf. Theol.
- J. L. A. Kolderup-Rosenvinge, Dr. og Próf. júris.

Hans Excellence Herra O. Malling, Geheime-Stats-minister, forseti stjórnarráðsins fyrir Háskólanum og enum lærðu skólum, konúngl. Sagnaskrifari, Riddari af Fílsorðunni, Stórkross af Dannebroge, o. s. fr.

Herra J. F. W. Schlegel, Konferenzráð, Dr. og Próf. júris, Rid. af Dbr.
- J. N. B. v. Abrahamson, Divisíons Adjútant, Majór, Kammerjúnkur, Rid. af Dbr. og Dannebrogsmaður o. s. fr.
- Finnr Magnússon, Próf., Medhjálpari vid Leyndar-skjalasafnið.
- R. Rask, Próf., annar Bókavörðr Háskólans.

Yfirorðulimir:

Herra F. Faber, Regímentskvartèrmeistari og Auditör, í Hrossanesi.
- A. F. Mühlertz, Yfirlærimeistari við hinn lærða skóla í Nýborg.
- L. S. Borring, Cand. Theol. og Kadet-Informator.
- Rasmussen, kennari vid borgara skólan í Asnesi, á Fjóni.

Orðulimir:

Herra Olafr S. Stephensen, Regímentskvartèrmeistari og Auditör ad Jegersborg.

Herra Gunnlaugr Oddsson, Konsistorialassessor, Dómkyrkjuprestr ad Reykjavík.
- Vigfús Erichsen, Cand. juris.
- Jón Finsen, Kancellísekretèri, Hèraðsfógeti í Kolding, á Jótlandi.
- Gísli Símonsen, Kaupmaðr.
- C. C. Rafn, Dr. Philos., Próf.
- Þorgeir Guðmundsen, Cand. Theol.
- Páll Arnason, Rektor.
- v. Born, Kapteinn.
- Benedikt Bergsson, Stud. Chirurg.
- Jakob Thorarensen, Stud. juris.
- Jóhan Briem, resíderandi Kapellán í Jótlandi.
- Haldór Einarsson, Stud. juris.
- Skúli P. C. Thorlacius, Stud. jur.
- Þorsteinn Helgason, Stúd. Theolog.
- Páll Þorbergsson, Stud. Chirurg.
- Þórðr Jónasson, Stud. juris.
- Ögmundr Sigurðsson, Stud. juris.
- Sigfús Skúlason, Stud. juris.
- Hallgrímr Bachmann, Stud. juris.
- J. L. C. Michelsen, Dr juris.
- Baldvín Einarsson, Stud. Philos.
- Eggèrt Jónsson, Stud. Chirurg.
- Jón Jónsson, Stud. Philos.

Brèfligir limir:

Herra Iversen, kennari vid skólann í Meðalför.

3. *Erlendis:*

Heiðurslimir:

Herra B. Thorlacius, Dr. Theol., Etatsráð, Próf. Rid. af Dbr., (á ferdalagi í Italíu).

Sir George Stùart Mackenzie, Baronet, Forseti Fornfræðafèlagsins o. s. fr. í Edinaborg.

Herra Ebenezer Henderson, Dr. Philos. o. s. fr.
- Fridrik de la Motte Fouqvé, Barón, Majór og Jóhannita Riddari í Mark-Brandenborg, (kosinn af D. á Isl.)

Herra Fridrik Davíd Gräter, Próf. og Dr., Konúngsins af Würtemberg Pædagógarcha, o. s. fr. í Ulm.
- Amodeus Chaumette des Fossès, Rid. af Leiðarstjörnunni, konúngl. franskr General-Konsúl o. s. fr. í París.
- Olafr Olafsson, Próf., Riddari af Leiðarstjörnunni í Norvegi.
- Jakob Grimm, Dr., Kjörfurstans af Hessen bókavörðr í Kassel.
- Vilhjálmr Grimm, Tilsjónarmaðr við Kjörfurstans bókahirzlu, samastaðar.
- Robert Jamieson, Skjalavörðr við General Register Office í Edínaborg.
- J. Bosworth, Prestr til little Horwood Bucks (kosinn af D. á Isl.)

Orðulimir:

Herra Þorleifr Guðmundsson Repp, Bókavörðr við lögvitrínganna bókasafn i Edínaborg.

---

*Fyri Burtfarar-Minni í samqvæmi Islendínga og Islandsvina i Kaupmannahöfn,* þann 11ta *Maji* 1827.

Opnast himin Islendíngum,
Öllum loks med deilda-hríngum,
Alfur heims og höfinn kríngum
Hyljast lengur ekki þeim.

Heidursmenn af hugvitsdádum
Haga gjördu slíkum rádum
Einn er fjær enn ödrum bádum
Enn oss gafst ad fagna hèr.

Islands helftar Amtmann góda,
Ej er þarfnast heidurs-ljóda,
Frelstann vart úr feiknum glóda
Fengum heilann aptur sèd.

Honum bæti tjón og trega
Tíginn stýrir sólar-vega!
Senn hann fadmi farsællega
Frú og börn og Snælands þjód!

Hinn er vafinn hústrúr armi
Hefur nidja sér ad barmi
Fróns ad vitja, firrtur harmi
Finni gæfu besta þar!

Mætust fagni Módurkirkja!
Megni göfgann klerk ad stirkja!
Þróist, blómgvist öll hans yrkja
Æskilega þar sem hèr!

Sætt er vín ad vina fundum,
Vængir lèntust gledi-stundum,
Skilnadar ad skálir mundum
Skuld er þúng enn ekki ræk.

Ej af söknud yfirvinnumz!
Aptur sídar gladir finnumst!
Herra *Gríms* og *Gunnlaugs* minnumst!
Gud og Lukkann fylgi þeim!

---

Eptirfylgiandi bækur, prentaðar að tilhlutan og á kostnað hins íslenzka Bókmenta fèlags eru til kaups hjá fèlagsins umboðsmönnum á Islandi, og hjá gjaldkera fèlagsdeildarinnar í Reykjavík, og skrifara deildarinnar í Kaupmannahöfn:

Sturlúnga Saga eður Islendínga Saga en mikla, Khfn. 1817-1820, 4ar deildir í 4ra blf., á prentpappír 4 rbd., á skrifpappír 5 rbd. nefndar verðs.

Islands Árbækur í söguformi af Jóni Espólín, Khfn. 1821-1827, 6 deildir, í 4ra blf., hvör deild á prp. 64 skildínga, á skrp. 80 skild. n. v.

Almenn Jarðar og Landaskipunarfræði af Gunnlaugi Oddsen, Khf., 1821-1827. 5 deildir í 2 bindinum með registri og 6 kortum, í 8 blf.

1ta deild: á prp. 64 sk., á skrp. 80 sk., n. v.
2ur deild: á prp. 1 rbd. 32 sk., á skrp. 1 rbd. 64 sk. n. v.
3ja deild: á prp. 1 rbd., á skrp. 1 rbd. 32 sk. n. v.
4da deild: á prp. 48 sk., á skrp. 64 sk. n. v.
5ta deild: á prp. 80 sk., á skrp. 1 rbd. n. v.

Ljóðmæli Síra Stěpháns Olafssonar Khfn., 1823 í 8 blf. á prp. 48 sk., á skrp. 64 sk. n. v.

Islenzk Sagnablöð fyrir árin 1817-1826, 10 deildir í 4 blf. öll tilsamans á prp. 1 rbd. 64 sk., á skrp. 2 rbd. n. v.; einstakar deildir: á prp. 20 sk., á skrp. 24 sk. n. v.

Skírnir, fyrsti árgángr fyrir 1827, á prp. 32 sk., á skrp. 48 sk. n. v.

Fèlagslimir á Islandi, er leggja fèlaginu árlegt tillag eigi minna enn 1 rbd., fá Skírnir á prp. gefins árlega, hjá næsta umboðsmanni. Þeir sem kaupa einstakar deildir af Sturlúnga Sögu, fá hverja eptir tiltölu arkatals fyrir áðurgreint verð, en þeir sem kaupa hana alla undireins, fá hana fyrir 3 rbd. n. v. á prp. og 4 rbd. n. v. á skrp.; eins fá þeir, sem annaðhvert kaupa Árbækurnar eður Landaskipunarfræðina í einu lagi, þær þriðjúngi ódyrari, enn þegar einstakar deildir keyptar eru. Fáanlig eru líka til kaups hjá fèlagsdeildinni í Kaupmannahöfn: Rit ens íslenzka Lærdómslistafèlags, 2-14 bindi, hvert fyrir 16 skild. í silfri.

# SKÍRNIR,

## NÝ TÍÐINDI

## HINS ÍSLENZKA

## BÓKMENTAFÈLAGS.

---

### ANNAR ÁRGÁNGR,

er nær til sumarmála 1828.

---

Rístu nú, Skírnir,
og Skekkils blakki
hleyptu til Fróns með fréttir,
af mönnum og mentum
segðu mætum höldum,
og bið þá að virða vel

---

KAUPMANNAHÖFN, 1828.
Prentaðr hjá *Harðvig Friðrek Popp.*

## Auglýsíng.

Þareð dönskum stílsetjurum er nærri ómöguligt, að lesa þá íslenzku svo kölluðu fljótaskrift, svo verða prófarkir eptir þvílíkum handritum venjuliga svo fullar af prentvillum, að það er mesti tímaspillir og óbæriligt leiðindastarf að lagfæra þær; verðr því fèlagið mikilliga að biðja góða menn bæði hèr og á Islandi, sem innsenda reikninga eða hvörskonar rit sem vera kunna, til prentunar ætlud, að lata þau vera med latínu letri og með svo glöggri hendi, sem kostr er á, svo það þurfi ekki að hafa þann kostnað og fyrirhöfn að láta þau uppskrifa fyrr enn þau sèu prentaranum í hendr seld. Þetta hið sama hefir einnig það fyrrverandi Lærdómslistafèlag tvisvar áskilið sèr, fyrst í samþykktum sínum og síðan í formálanum fyrir 13da bindi rita sinna 1794; vonar Bókmentafèlagið nú þess heldr, að hlutaðegendr auðsýni því þessa velvild og eptirlæti.

---

# Frèttir 1828.

Vorid 1827 var yfirhöfud gott og hagstædt med blídvidri og frjófsömum regnskúrum, svo þegar leit út til ardsamrar uppskeru. Þessi von brást heldr ekki; því kornskeran vard bædi í Danmörku og vídast hvar í Evrópu einhver en bezta, og bættist þannig ad fullu aptr úr gródurskorti þeim og korn-eklu, sem var í hitt ed fyrra.

Sumarid sjálft var framar svalt enn heitt, en haustid eitthvert ed blídasta, sem lengi verid hefir. Vetr gekk snemma í gard, en var hvorki hardr nè kaldr framundir nýár, þá fór frostid í vöxt, og stè allt ad 11 grádum eptir hitamælir Reaumurs, en varadi skamma stund, og snjór fèll einginn ad kalla. Med þorralokum jókst frostid aptr á ný, en þokur og þýdvidri gjördu snart enda á því, svo vetrinn mátti kallast einhvörr enn mildasti.

Nú er at geta þess merkiligasta, sem vid hefir borid í útlöndum á þessu tímabili, ok þykir þá til-hlýdiligast, ad byrja á *Grikkjum* og frelsisstrídi þeirra. Strax eptir inntöku Mesólongí, hvörs getid er í fyrra árs tídindum æddi Ibrahím yfir Móreu

sem logi yfir akr, ok þyrmdi eingu, sem fyrir honum varð. Grikkir sem ekki gátu veitt honum neina mótstödu, flúdu undan honum, hvar sem hann kom, sumir upp til fjallbygdanna, en adrir leitudu sèr hælis í kastölum landsins, en urdu þó brádum ad gefast upp fyrir Tyrkjum. Þannin höfdu margir Grikkir látid fyrirberast í klaustrinu Schafidía og kastalanum Tornese, en Ibrahím séttist um hvörutveggju, og lauk svo ad Grikkir urdu ad gefast upp fyrir honum, sökum vistaskorts. Þá Grikki, sem hèr fèllu í hendr Ibrahíms, sendi hann til Patra, og lèt selja þá þar mansali, og þar eptir hèlt hann til Korinthuborgar, og settist þar ad um stund, og hvíldi sig. Í efra Grikklandi hafdi Reshid Paska ogsvo mikinn framgáng; eptir Athenuborgar inntöku, settist hann um kastalann Akrópólis, hvörn Grikkir vördu med stakri hreysti, sem mest var ad þakka þeim nafnkenda franska ofursta Fabvíer og fylgdarmönnum hans, en vistaskortr vann loksins þad, sem vopn Tyrkja ekki gátu unnid. Grikkir gjördu fleirum sinnum tilraun, til ad frelsa kastala þennan af úmsátri Tyrkja, en urdu jafnan ad hverfa frá vid svo búid, og þannig gekk þad um hríd. Um þessar mundir voru þar ad auki innvortis misklídir og flokkadrættir medal Grikkja, svo ad stjórnarrádid og yfirmenn hersins vildu og ályktudu sitt hvörjir; En þegar misklídir þessar voru sem ákafastar, kom Cochrane Lávardr, hvörs lengi hafdi vænt verid, loks til Grikklands, og átti hann mikinn og gódan þátt í því, ad ófridi þessum linnti. Stjórnarrádid valdi nú fyrir adsetr-

stad sinn fyrst Náplíon og sídan Trözene, og útnefndi Cochrane til ædsta yfirbodara yfir flotanum. En þó var sú ályktun stjórnarrádsins máske enn merkari, ad þeir kjöru greifann Capódistría, sem er grískr ad ætt, en hefir um næst undanfarin ár verid einn af þeim handgeingnustu stjórnarherrum Rússakeisara til síns forseta, med jöfnum myndugleika og Nordrameríku fríIanda forsetar valdir eru, hvörju tilbodi þjódar sinnar greifinn og gódfúsliga veitti móttöku, komst nú þegar meiri regla á innvortis í Grikklaudi, ad minsta kosti linnti óeirdunum ad mestu leiti. Strax sem Cochrane var ordinn yfirmadr flotans, var hans fyrsta fyrirtæki ad reyna til ad frelsa Akrópólis, sem var ad þrotum komin, og hèlt hann í því skini þángad med fáeinum herskipum og nokkrum þúsundum landhers, sem áttu at setjast þar í land, og sameinast med Kara-Hyskakis lidi, en ekki bar hann gæfu til ad koma þessu til vegar, Uppgángan skedi á óhentugum stad og tíma, Tyrkjar sem sátu um kastalann, urdu varir vid ófridinn, og rèdust ad Grikkjum, ádr enn þeir gátu fengid svifarúm, til at skipast í fylkíngu; í bardaga þeim, sem hèr gjördist höfdu því Grikkir fullkominn ósigr, misstu sinn hrausta forníngja Kara-Hyskakis og hetjuna Nikítas, og meir enn 3000 af sínu einvala lidi, samt herbúdir sínar, sem stódu fyrir nordan Píreus, med miklum strídsbúnadi; var nú útsèd um, ad ekki mundi þess audid, ad frelsa Akrópólis, húngrid í kastalanum fór vaxandi, og litlu seinna gafst lidid upp fyrir Tyrkjum, þó med bæriligum kostum, sem

þakka var medalgaungu þess franska admíráls Rigni, sem þar var staddr á höfninni. Cochrane hèlt strax eptir ólánsferd þessa til Póros, til ad vera í vegi fyrir Tyrkja flota, er um sama leiti var lagdr úr höfnum, og honum hepnadist einnig ad tvístra flota Tyrkja í grend vid Kandía og eydileggja nokkur herskip; þaradauki nádi hann fleirum sinnum einstökum herskipum frá Tyrkjum; hann reyndi einnig til ad komast ad Alexandríu og flota Tyrkja, sem þar lá á höfninni, en ekki vard honum þess audid, og sneri hann því aptr vid svo búid. Þann 1sta ágúst lèt sá egyptski floti út frá Alexandríu og stefndi til Grikklands, var hann 100 skipa auk byrdínga og vistaskipa. 4000 landhers voru á flota þessum, sem átti ad gjöra landgaungu í Grikklandi, en flotinn rádast ad þeim grísku eyum. Nú sýndist komid í ovænt efni fyrir Grikkjum, því audsjáanligt var þad, ad ekki mundu þeir geta reist rönd vid slíku ofrefli, nè Cochrane, þótt hann sè frægr kappi, varid eyarnar fyrir slíkum skipaher, en þegar svo var komid og útsèd þókti um Grikki, hagadi forsjónin því svo til, ad fleiri skárust í leikinn. Þess skal getid í Englands sögu, ad samníngr var gjördr næstlidid sumar í Lundúnum milli Englands, Rússlands og Fránkaríkis, hvari þessi voldugu ríki skuldbundu sig til ad stödva þad blódúga stríd, sem um svo lángan tíma verid hefir í Grikklandi, en hjálpa Grikkjum til frelsis og fridar, og senda í því skini flota af stad, og nú bar svo vel til, ad floti þessi kom um þetta leiti til Archípelagus. Þar ed nú var audsèd ad Grikkir voru

aldrei framar enn nú lídþurfar; sömdu yfirbodarar flotans strax vid admírál Tyrkjaflotans, Tahír Paska, nokkurskonar vopnahlè, hvarvid Tyrkjar skuldbundu sig til, ad rádast ekki fyrst um sinn á Grikkland. Hafdi þá sá tyrkneski floti, ásamt þeim egyptska, tekid sèr stödu í höfninni vid Navarín. Vidlíkan samníng gjördu þeir vid Ibrahím, sem kvadst skyldu halda kyrru fyrir, uns ordsendíng kæmi frá Soldáni í Miklagardi; en ekki leid lángt um, ádr enn Tyrkjar rufu samníng þennan; Ibrahím eyddi og brendi bygdina eingu sídr enn ádr, og flotinn reyndi fleirum sinnum til ad skjótast út fra Navarín. Nú sáu foríngjar þess sameinada flota, ad ekki var neinna trygda ad vænta af Tyrkjum; þó gjördu þeir sendimenn á fund Ibrahíms, en þessir fóru erindisleysu eina; kom nú foríngjum flotans saman í því, ad halda inn til Navaríns, og ánýa aptr fyrir Tyrkjum samníng sinn. Þann 20 október sigldi því sá sameinadi floti, undir ædstu yfirrádum þess enska admíráls Codringtons inn á Navaríns höfn um middegis bil. Þad enska admírálskip Asía sigldi fremst, og varpadi akkerum öndverdt því tyrkneska admírálskipi, sídan sigldu hin skipin hvört eptir ödru, og lögdust fyrir akkeri. Floti Tyrkja lá fyrir á höfninni í þrísettum hálfhríng, og var þad meir enn 100 herskipa. Vid hafnarmynnid innanverdt og ávedurs, láu 5 tyrknesk brennuskip, sem ætlud voru, ef í bardaga slæi, til ad kveikja í þeim sameinada flota, og ad ödru leiti voru Tyrkjar vel vidbúnir. En er þeir kristnu höfdu lagt skip sín í lægi, og umbúizt, sendu

þeir bát yfir til eins af brennuskipunum, en á midri leid, var sendibodinn, sem í bátnum var, skotinn med byssukúlu frá brennuskipinu, og sömu afdrif hafdi sendibodi frá admíral Codrington, sem um sama leiti var sendr á báti yfir til þess tyrkneska admírálskips. Nú lèt Codrington blása til atlögu öllum skipum sínum, og þannig hófst einhver en merkasta orrusta er gjörzt hefir á seinni tíd; má því nærri geta, ad mikid muni hafa hèr ágeingid, þar sem yfir hálft annad hundrad stór-skipa, voru í hördustu skothríd; en svo lauk ad Kristnir unnu fullkominn sigr, þó þeir hefdu miklu færra skipalid; því ádr kvöld var komid, var floti Tyrkja gjörsamliga eydilagdr, 30 skip voru spreingd í lopt upp, 55 skotin í sjó edr rekin á land, og af þeim mikla flota voru ein 16 eptir, sem þó valla gátu á sjóinn skridid. I bardaga þessum lètu Tyrkj-ar fjölda manna, og var þó vörn þeirra en hraust-asta. Kristnir lidu ekki mikinn mannskada, nema Rússar, sem aptast lágu, og næst kastölum Tyrkja vid hafnarmynnid; en skip þeirra voru lítt sjófær, og þurftu stórrar adgjördar, hèldu þeir þessvegna strax eptir bardagann til ýmsra stada, einkum til Smyrna og Malta. Valla verdr ordum ad því komid hvad gladir Grikkir urdu yfir sigri þessum, og þad því framar sem óvænligar leit út fyrir þeim skömmu ádr; Opinber hátídahöld og þakklætisgjördir lýstu gledi þjódarinnar, og mannvinrinn gladdist med þeim! Konúngar, þeir sem gjört höfdu út þann sameinada flota, keptust hvör vid annann, ad sæma þá, sem í bardaganum voru, hærri sem lægri,

med ýmsum tignar- og heidrs-merkjum, og Grikkir sjálfir fengu nýan dug og djörfúng. Stjórnarrádid útgaf ýmsar tilskipanir, sem midudu til einíngar-eflíngar og vidrhalds laga og rèttinda. Sjóvíkíngs-skapr var stránglíga fyrirbodinn, og Cochrane út-sendr ad framkvæma þetta bod stjórnarrádsins, hvad hann og trúliga gjördi. Nú var og dagliga von á greifanum Capódistría, því hann er eptir seinustu fregnum, sigldr frá Ankóna til Malta, og þadan aptr til hinnar grísku eyar Egínu, til ad takast á hendr forrád Grikklands, og má vænta mikils af dugnadi hans og stjórnvísi. Sagt er þó ad sumir af Grikkjum hafi horn í sídu hans, og þetta hafi hamlad ad nokkru leiti ferd hans. Þegar bardaginn skedi vid Navarín var Ibrahím uppí sveit, og eyddi og brendi þar bygdina; en þá hann frètti afdrif flota síns, dró hann saman her sinn allskámt frá Navarín, og sendi lítlu seinna leifar flotans heim aptr til Alexandríu, ásamt nokkrum hluta lids síns, og miklum fjölda herteknum eda burtræntum Grikkjum med konum og börnum, líkliga sökum vistaskorts, en sjálfr sitr hann eptir med 10000 hermanna, og bídr nýrrar ordsendíngar frá Soldáni í Miklagardi.

Medal Grikkja hefir, sídan bardaginn stód vid Navarín, ekki gjörzt neitt til tídinda; þó hefir frètst ad Grikkir hafi rádizt á eyna Chios, og ad hún sè næstum öll í þeirra valdi. Cochrane er nýlega kominn til Einglands, en sagt er hann ætli brádum aptr til Grikklands. Erindi hans er óljóst.

Nú er ad segja frá sjálfum Soldáni *Tyrkja* í

Miklagardi. Eptir ad styrjöld þeirri, sem um er getit i fyrra, var lokid, framhèlt Soldán med stakri alúd og kappi æfíngu herlids síns á evrópeiskan hátt, og komu kristnir offisèrar honum hèr vel í þarfir; er nú sagt hann hafi töluverdt herlid, mentad og æft á þessa leid, sem ádr mundi þótt hafa nýúngum skipta. Strídinu vid Grikki framfylgdi hann med mesta kappi, eins og ádr er getid, þrátt fyrir medalgaungu Stórabretlands, Rússlands og Fránkaríkis. Tèd ríki gjördu því á næstlidnu sumri samníng í Lundúnum, um at hjálpa Grikkjum til fridar og frelsis, hvad sem hann segdi, og þó lèt Soldán ekki undan ad heldr. I næstlidnum december mánudi yfirgáfu sendiherrar þessara ríkja Miklagard, og hèldu hvör heim til sín, en á leidinni fengu þeir þá ordsendíng heimanad, ad snúa aptr, og til eyunnar Korfú; hvar þeir voru, þegar seinast frèttist. Af þeim mikla strídsútbúnadi sem Soldán hefir um gjörvalt ríki sitt, sýnist ráda mega med fullri vissu, ad hann ekki muni ætla sèr undan ad láta, fyrr enn í fullar naudsynjar, og er því hætt vid, ad strídid brjótist út, þegar vetrinum hallar, og vorid kemr.

I *Rússlandi* var á þessu tímabili markverdast strídid vid Persa, sem hófst næstlidid ár, og sídan var sókt med kappi á bádar sídur allt framundir haust; unnu Rússar, sem vænta mátti, hvörn sigrinn eptir annann. Loksins inntóku þeir, eptir 6 daga umsátr, þann mikla og rambygda kastala Eríván, hvörn Asíumenn hèldu óvinnandi, en ekki stódst hann fyrir hardfengi Rússa. Hèr fundu Rússar

mikid vistasafn og strídsútbúnad, og nádu þaráofan 3000 faungum samt foríngja þeirra Hassan Chan. Skömmu seinna nádu Rússar stadnum Tabríz, hvar konúngsefnid Persa, Abbas Mirza, hafdi bústad sinn, og þegar svo var komid, sáu Persar sitt óvænna, gjördi nú Abbas Mirza þegar sendimenn á fund þess rússiska hershöfdíngja Paschevitsh ad bidja um vopnahlè, og skömmu seinna kom hann sjálfr á fund hans í þorpi nokkru skamt frá Tabríz. Hèr komst þá á fridr med þeim skilmálum, ad Persar afsöludu sèr hèradid Erívan bádumegin vid ána Araxes, og skuldbundu sig þar ad auki til, ad borga 15 milliónir rúbla, í strídskostnad, samt láta Rússa halda kastölum þeim, sem þeir nád höfdu, uns summa þessari væri lokid. þannig báru Persar lægri hluta í strídi þessu, eins og von var, því þeir byrjudu þad í rádleysu einni. Rússar þarámóti færdu út takmörk ríkis síns sudr yfir 36ta mælistig," og þokudust þannig bædi nær eignum Enskra í Austindíum og ríki Soldáns í Asíu ad nordanverdu. Heima í Rússlandi sjálfu var allt kyrrt, þó vard uppvís samblásturs tilraun í Polen, hvör þó vard kæfd í fædíngunni. A þessu hausti brann stadrinn Ábú ad mestu leiti til kaldra kola af vodaeldi. Eldrinn vard ei slöktr í fullan sólarhríng, því vindr stód á hvass. Medal merkisbygginga, sem hèr brunnu, var háskólinn med miklu og fágætu bókasafni, er nú skipad af Rússakeisara, ad háskólann skuli flytja til Helsíngjafors, sem er Finnlands núverandi höfudstadr. þann 22. sept. fæddi Keisarainnan son, sem nefndr er Konstan-

tín, og var þá mikid um dýrdir í höfudborginni. Samkvæmt samníngi þeim, sem gjördist í Lundúnaborg, sendi keisarinn flota til Midjardarhafsins, sem kom vid hèr í Kaupmannahöfn, og dvaldist hèr fáa daga, en seinna sneri nokkur hluti hans aptr til Krónstadar. Sagt er nú ad mikill vidbúnadr sè í Rússlandi, óvigr her er samankominn vid ána Prút, og ord leikr á því, ad keisarinn ætli sjálfr til hersins, þegar undir vorid lídr. Stríd milli Rússlands og Tyrkja sýnist, þegar ad þessu er gætt, næstum óumflýanligt, nema þvíadeins ad Soldán láti undan í tíma, og ad ordum Rússlands keisara. Þetta ríki hefr nú eptir seinustu fólkstölu 59 milliónir sálna, hvaraf 44 eru í því evrópeiska Rússlandi, 11 í því asíatiska, og 4 í Polen. Herlidid er meir enn 1 millión, og þær árligu inntektir 130 milliónir rúbla.

Einhvörr enn merkiligasti vidburdr í *Stórabretlandi* má vafalaust teljast samníngr sá, sem gjördr var í Lundúnaborg á næstlidnu sumri þann 6ta júlí milli þessa ríkis, Rússlands og Fránkaríkis, áhrærandi málefni Grikkja og frelsi þeirra undan ánaud Tyrkja. Í þessum samníngi kom ofannefndum ríkjum ásamt, ad bjóda Soldáni medalgaungu sína í tèdu efni, og jafnframt ad láta hann vita med hvörjum kostum, þeir óskudu, hann gæfi Grikkjum frid og frelsi; og voru þá höfudatridin þessi: Grikkir skulu lausir af yfirrádum Tyrkja, en borga þó Soldáni árliga skatt, og álíta hann sem sinn lènsherra. Þeir skulu sjalfir velja yfirvöld sín, og skipa stjórnarform sitt, og einir búa í sjálfu-

Grikklandi og á eyunum, hvörsvegna Tyrkjar skulu skyldir, ad selja Grikkjum fyrir fullt verd eignir þær, sem þeir eiga kunna í Grikklandi. Vildi Soldán ekki med gódu fallast á þetta, eda láta ad ordum þeirra, skyldu þeir hjálpast ad sameiginliga ad stödva strídid í Grikklandi, allt saman án minsta tillits til eigin ábata edr hagnadar. Eigi miklu sídar var Soldáni tilkynnt þetta af tèdra ríkja sendiherrum í Konstantínópel, og floti sendr á stad til Grikklands, eins og ádr er getíd. I þessum merkiliga samníngi átti stjórnarherrann Canning mikinn og gódan þátt, en ekki audnadist honum, nema í andánum, ad sjá þad mikla, sem hèraf leiddi, því skömmu seinna tók hann sótt, sem fyrr enn vardi, gjördi enda á lífdögum hans, þann 8. ágúst. Hann var einhvörr enn djúpsærasti stjórnvitríngr og mælskumadr mikill, og vard hann mörgum harmdaudi. Hann hafdi ávalt verid vinveittr Grikkjum, og mistu þeir því mikils vid fráfall hans. Vinr hins andada, Lord Góderich, settist, í sæti hans, hann var ádr fjárhirzlukanselleri, og þessvegna vissi hann gjörla hvörnig ástandi ríkisins var háttad, líka vissi hann, ad honum var mótstada búin af ýmsum stórbokkum, sem raun bar sídar vitni um. Hann sókti því nokkru sídar, um lausn frá embætti sínu, sem einnig veittist honum, hvareptir hertoginn af Vellíngton vard efsti stjórnarherra, sem þó er sagt, mörgum sè ámóti skapi, því hertoginn er midr vinsæll. Þess er og getid, ad hann sè ekki (í raun og veru) hlidhollr Grikkjum, nè mæli fram med strídi vid Soldán

þeirra vegna, og ad fleiri sèu þar sömu meiníngar, má sjá af rædum þeim, sem fluttar vorū vid opnun Parlamentsins þann 29 janúar.. Víst er þad þó, ad í árslokin var samníngrinn af 6ta júlí ányadr, og aukinn med nokkrum artikulum, sem nákvæmar ákvarda hann, og hvád gjöra skuli, ef Soldán þverskallast, og ekki lætr undan med gódu. Vid Nordrameríku Frílönd áttu Bretar í misklídum þetta ár útaf kauphöndlun og landamerkjum, er þad enn óafgjört á milli þeirra. Kanada tekr líka ad láta brydda á sèr, og þykir Bretum sem álit þeirra fari þar mínkandi. Margir fluttu sig þangad í ár frá Englandi, og er sagt ad þeir framar aflagi, enn bæti millí módur og dóttur. I sjálfu Bretlandi hefir mátt heita kyrrt, þegar Írland er undanskilid, hvar jafnan er hredusamt, og almennings vellídan fór á þessu tímabili heldr vaxandi, einkum er kaupverzlun þeirra í Austindíum í miklum blóma. Med því markverdasta, er hugvit Enskra leiddi í ljós á þessu tímabili, má telja brúkun dampvagna; sagt er, einn slíkr hafi nýlega farid milli Bristóls og Lundúna; vagn þessi var med 6 hjólum, hvaraf tvö þau fremstu eru ætlud til ad stýra vagninum, og eru þau minni enn hin 4r. Vagninn sjálfr er 15 álna lángr, og svo rúmgódr, ad 20 fullordnir menn gátu rýmst í honum, þó svo ad sumir sátu utan vid. Hann hefir mjúka ferd, en þó svo mikla, ad hann getr farid meir enn hálfa þíngmannaleid á einni klukkustundu, enda er kraptr sá, sem knýr hann, samsvarandi 12 hesta kröptum. Smidrinn hefir líka hagad því svo til, ad naumast

þarf ad óttast fyrir, ad dampketillinn springi af ofrefli gufunnar krapta, af hvörju opt hefir leidt mikinn skada. þared vagnar þessir eru ódýrari og í mörgu hagkvæmari enn venjuligir vagnar, þykir líkligt ad þeir verdi almennir, ádr enn lángt um lídr. þad mikla stórvirki, sem Bretar hafa fyrir stafni, ad gjöra veg under Thems fljótinu, gekk í fyrstu greidliga, og þó vatnid brytist gegunm jardveginn nidr í undirgánginn, tókst samt þeim franska meistara, er stendr fyrir verkinu, ad bæta þennan brest, og tæma aptr gánginn af vatni, og var verkid þegar meir enn hálfnad; enfyrir skömmu brauzt vatnid í gegnum á ný, og fylti undirgánginn ad vörmu spori; margir lètu líf sitt, af þeim er ad verkinu unnu, en fleiri komust þó af. Fáum dögum ádr stód í nefndum gángi veizla mikil, hvar margir stórhöfdíngjar, — medal hvörra konúngsefnid af Portúgal, Michael — voru samankomnir. Frètst hefir ad þessu stórvirki verdi eigi ad sídr áfram haldid, enda þykir nú íllt ad hverfa frá vid svo búid. Sá nafnkendi Kapteinn Parry, sem sendr var med Heklu sína í fyrra, til ad leita nordrpólsins, er nú kominn aptr heim svo búinn, þo komst hann lengra enn nokkur annar fyrir hann komizt hefir, nfl. nordr fyrir 82ad mælistig, en vard þar ad snúa aptr til Englands, eptir miklar hættur og mannraunir. Englands konúngr hefir á seinni tíd verid veikr af ikt, en nú er sagt hann sè í æskiligum aptrbata.

I *Fránkaríki* hefir á þessu ári ekki gjörzt neitt sèrligt til tídinda. Innvortis óeirdir og óánægja

hefir brydt á sèr tölnverdt, en þó ekki brotizt út í opinbera styrjöld, nema litla stund í París, sem þó brádum vard stödvad. Jesúítar hafa nád sèr gódri fótfestu aptr í ríkinu, og spara þeir ekki hèr, heldr en annarstadar, ad auka ríki sitt, og efla vald Páfa, hvörs máttarstólpi þeir jafnan voru. Múká- og nunnu-klaustr fjölga dagliga í landinu, og prest-aveldi þrífst meir enn skyldi; hèr af leidir ýmsa óreglu, sundrgjörd og flokkadrætti, svo ríki þetta er í rann og veru hvörgi nærri farsælt eda rósamt. Lagafrumvarp þad, sem gjört var hèr í fyrra, áhrærandi prentpressufrelsid, var ónýtt, og olli þad mikillar og almennrar gledi. Þar á móti mæltist midr fyrir því, ad konúngr aftók hermanna sveit þá, sem kalladist þjódar-garden, útaf lítil-fjörligu tilefni. Vid Alzír hafa Frakkar átt þetta ár í alvarligum misklídum, sem rak svo lángt, ad floti var sendr af stad móti Alzírsmönnum, en ekki hafa þeir enn, sem komid er, átst íllt vid, svo ord megi ágjöra. Nú er sagt ad vidbúnadr mikill sè hafdr í Túlon, og nýr floti egi ad fara á stad strax sem vorar, og er þá hætt vid ad Alzírsmenn verdi undir í skiptum. Samkvæmt Lundúna samníngnum sendu Franskir flota til Grikklandshafs, sem ásamt hinna sambundnu ríkja herflota vann þann mikla sigr vid Navarín. Sagt er floti Frakka sè nú meir enn 64 línuskip, og jafnmargar fregátur; en fólksfjöldi í ríkinu reiknast nú til 31 millíóna 851,540 sálna, hvaraf 890,431 einúngis í höfud-stadnum.

I þeim sameinudu *Nidurlöndum*, var ástandid

líkt því sem næstlidid ár er fráskírt. Sótt sú, sem hèr gekk, einkum í Græníngi, gjördi ogsvo vart vid sig þetta ár, en hvörgi nærri var hún svo mannskæd sem í fyrstu. Óeirdirnar á eyúnni Java vidhèldust, þegar seinast frèttist, og fóru jafnvel vaxandi, kostadi þó konúngr miklu fè og fólki, til ad sefa óróa þenna, en útgjörd sú gekk mædusamliga, því naumast voru herskip hans í haf látin, fyrr enn þeim barst eitthvert óhapp til, og sneru því flestöll aptr vid svo búid. Drottníngin slisadist í sumar af biltu, en er nú fyrir laungu heil ordin; Vid Mexíkó gerdu Hollendíngar á þessu ári vinskapar og verzlunar samníng, sem heimilar þeim jöfn hlunnindi med þjódum þeim, sem mest er þar vidhaft, og munu Hollendíngar, sem jafnan hafa verid gódir kaupmenn, nota sèr af því, þegar framlída stundir.

I *Þýzkalandi* gjördust eingin sèrlig nýmæli, þó andadist öndverdliga á þessu ári Fridrikr Agúst konúngr yfir *Sachsen* á 80rædis aldri; hann eptirlèt sèr eingan son en eina dóttur, og var því eptir erfdarèttinum bródir hans, Anton Clemens Theódór, sem nú er því nær sjötugr til kóngs tekinn, og þykir því líkligt ad stjórn hans ekki verdi lángvinn, en gódfræg er hún þegar ordin þarvid, ad hann hefir veitt öllum þegnum sínum frjálsa æfíngu trúar sinnar. Drottníng hans, María Theresía, systir keisara Frans annars, deydi þann 7. nóv. af vatnssýki í Leipzíg, rúmt sextug ad aldri.

*Bajerns* alment elskadi og unti Konúngr, var á þessu ári sem ad undanförnu Grikkjum mjög vinveittr, og þágu þeir mikinn styrk úr ríki hans;

almenn upplýsing og sérhvad þad, sem eflir heill þegna hans, liggr honum á hjarta, og sjálfr er hann lærdr, og skáld gott; þannig orkti hann nýliga drápu um þjódskáldid Göthe, og heimsókti hann ogsvo í Veimar á fædíngardegi hans. Hann ferdadist líka til Rómaborgar, og naut vor nafnfrægi landi Thorvaldsen þar þeirrar æru, ad vera í bodi hans; medal dáinna merkismanna í ríki þessu þetta ár, er lögvitríngrinn Th. Gönner nafnkendastr.

I *Austuríki* gekk líkt og ad undanförnu; Keisarinn var málefni Grikkja lítid hlidhollr, og tók enga hlutdeild í medalgaungu hinna sameinudu ríkja, vid Soldán í Miklagardi. Mælt er þad og, ad ófarir Tyrkja vid Navarín, hafi eingin gleditídindi þókt í Vín, þar Soldán þykir reyndr ad gódu einu í vidskiptum sínum vid Austurríki; ekki vildi þó Keisarinn né stjórnarrád hans kannast vid þad, ad þeir dræu taum Soldáns, sem útlendir tídindaritarar ekki hikudu vid ad fullyrda á prenti. Nú er sagt, Keisarinn gángi á milli, og leitist vid ad hindra strīd þad, sem nú áhorfist milli þeirra sameinudu ríkja og Soldáns, en óljóst er þad ennú, hvörju medalgánga hans fær til leidar komid; Ad undanförnu hefir sendiherra Austrríkis Keisara Barón Ottenfels jafnan verid í miklum metum hjá Soldáni, en nú fer þessu svo mjóg hnignandi, ad hann hefir mælzt til, ad mega hverfa heim þadan, ad minsta kosti um stundar sakir, því Soldán gefr lítinn gaum ad rádum hans, nú ordid; en þetta fer máske aptr batnandi fyrr enn varir.

Um nýársleitid deydi í Vín greifi Ypsilanti, sem

einkum er ordinn nafnkendr vid uppreist Grikkja, hvörrar adill og oddviti hann var í fyrstu; en þá hann var ofrlidi borinn, og neyddist ad flýa af landi, lèt hann fyrirberast í Austurríki, en var ad keisarans bodi tekinn, og settr í vardhald i kastalanum Munkaths, hvar hann og sat til skams tíma; Grikkir, sem voru í Vín, gjördu, sem skyldugt var, útför hans ena virdugligustu, einsog tignarstètt hins andada sæmdi. Nú er Jesúítum leyfd bólfesta í Austurríki, og þykir þad lítils góds viti, en þó er þeim máske ad eigna framför sú, er trúrækni hèr tekr, því nýliga er hèr útkomin merkilig tilskipun, sem alvarliga býdr öllum embættismönnum og þeim, sem eru af heldri stètt, ad gánga rækiliga í kyrkju sína á hvörjum helgum degi, og er ríkt straff vidlagt, ef af er brugdit, en jafnframt er prestum þar bodid ad prèdika ordid uppbyggiliga, ad einnig þeir, sem betr eru upplýstir, geti þarvid styrkzt í trúnni, og þarf ekki um þad ad efast, ad þvílík tilskipun fær gódu til leidar kómid.

Frá *Vallandi* er lítid merkiligt ad segja á þessu ári, *Páfinn* átti ad strída vid ýmislegt mótdrægt, og sjálfr er hann mikid heilsulinr; mælt er hann hafi tekid sèr mjög nærri, ad sendibodi Rússlands keisara, sem er í Róm, lætr nú syngja sèr þar messu á gríska vísu, en ádr var þad sidr medan Alexander lifdi, ad allir Rússar, sem adsetr höfdu í Róm, ferdudust annadhvört til Flórenz edr Lívornó til ad halda páskir og adrar hátídir sínar; ad ödru leiti efldi hann trúna og ríki sitt hver-

(2)

vetna, jafnvel í Ameríku, og naut þeirrar gledi, ad sjá vidburdi sína vídarsthvar krýnda med æskiligum málalyktum.

I *Sardiníu-ríki* dafnadi katólska og klerkaveldi ad öllum vonum, ríkt bann er lagt vid því, ad fluttar sèu þangad bækr frá útlöndum; þegar ferdamenn koma þar, eru bækr þeirra teknar, ef nokkrar hafa, og vandliga innsigladar, ádr þeir megi þær med sèr flytja, mega þeir um leid vedsetja tiltekna peníngasummu, er þeir ad eins ega aptr ad fá vid burtför sína úr ríkinu, sè innsiglid fyrir bókunum óraskad, má hèraf ráda, hvílíkt þánkafrelsi þar sé drottnandi. Bædi hèr og annarstadar í Vallandi gjördu vatnsflód og sjáfargángr mikid landbrot, og líka vard þar vart vid jardskjálfta, sem þó ekkèrt edr lítid mein af sèr leiddu.

Á *Spáni* hefir þetta ár gengid bísna skrikkjótt, megnir flokkadrættir og styrjöld hafa geysad hèr ad kalla hvíldarlaust, og veldr því ofurmakt klerka og afl hjátrúar, sem ekki vill láta sitt minna fyrir ljósi sannrar upplýsíngar. Flokkr þessi vill aptr koma á Inkvísizíón (edr trúarbragdadómstól), og nota sèr hèrtil af hjátrú og þekkíngarleysi almenníngs, og útrýma þannin öllu þánkafrelsi og sannri upplýsíngu, svo einir geti í völdum vasad; þessu lýsir fullkomliga sá mikli órói, som geysadi á nærstl. sumri í Katalóníu, og ekki vard stödvadr fyrr enn eptir fleiri mannskadar orrustur; komst þad þá upp, ad klerkastèttin átti hvad mestan þátt í uppreistinni, einkum biskuparnir í Vich og

Tortósa, og var nú svo komid ad klerkum ekki vard leingr hlíft fyrir laganna hegnandi straffi, jafnvel þó þad ekki gengi af med öllu mótstödulaust. Konúngr ferdadist sjálfr á stad til Tarragónar, á álidnu sumri, og skaut þad upphlaupsmönnum skelk í bríngu, enda er mælt hann láti þúngliga refsa þeim, er handsamadir verda, af uppreistarflokkinum, og þessu til frekari framkvæmdar er dómstóll tilskipadr í Tarragón, sem einúngis fellir dóm yfir þessum sakamönnum. Ad ödru leiti er óróanum á Spáni þannig varid, ad ekki verdr greiniliga frá honum sagt edr söguliga. Sagt er ad óróaseggirnir sèu flestir flúnir upp til fjallbygdanna, og þadan rádast þeir nidr í sveitina, þegar þeim gefst færi; lángt mun þess því ennþá ad bída, ad fullkomin rósemi komist á í landi þessu. Hid franska herlid, sem hèr hefir setid í ýmsum kastölum landsins, er sagt nú egi aptr ad hverfa heim á komandi vori eptir þarum gjördum samníngi milli Spánar og Fránkaríkis konúnga, og munu Spanskir verda fegnir, ad losast vid gesti þessa. Konúngr lá, þegar seinast frèttist, sjúkr af fótaveiki í Barcellóna, og var því ekki kominn heim aptr til höfudborgarinnar.

I *Portúgal* var ástandid líkt því á Spáni, þó af ödru tilefni, nfl. óánægju klerka, og sèrílagi múka med nýa stjórnarformid, sem keisarinn af Brasilíu hafdi útgefid fyrir Portúgal.

Í flestum umdæmum ríkisins voru töluverdar óeirdir og upphlaup, sem herhöfdínginn Villaflór átti fullt í fángi med ad stödva, þó dugnadr

hans og breystí sè framúrskarandi. Þó hafdi hann ad lokúnum vídasthvar yfirhönd, og gat hrakid óróaseggina útúr landinu, sem leitudu hælis á Spáni, en opt hurfu þeir aptr, og vöktu nýar óspektir. Prinsessan, sem er tilsett af Brasilíu-keisara, bródur sínum, ad stjórna ríkinu, tók þegar óeirdirnar voru hvad mestar, þúnga sótt, sem vard svo áköf, ad læknirar töldu henni ei lengr lífs von, hèrvid jókst uppreistarflokknum hugr. Heil hersveit, sem hafdi adsetr í stadnum Elvas, gjördi nú uppreist, og gekk múgr og margmenni í lid med þeim. Þó heppnadist hersforíngjanum Caula, ad bera hærra hlut í vidskiptum þeirra, hvad þó ekki gekk af án blódsúthellíngar. Þegar fregnin um sjúkdóm prinsessunnar barst til keisara Peturs í Brasilíu, útnefndi hann þegar bródur sinn Michael, sem þá var í Vín í Austrríki, til Portúgals stjórnara, þó med þeim skilmálum, ad hann ríkti samkvæmt því nýá stjórnarformi, er hann háfdi ríkinu ádr gefid. Prinsin tók móti tilbodinu, og ferdadist strax til Parísar, og sídan um jólaleiti til Lundúnaborgar, hvar honum voru veittar hátídligustu vidtökur, og þadan er hann nú í febr. mánudi sigldr af stad til Líssabónar, hvar sagt er menn þrái mjög eptir komu hans, skömmu eptir ad Michael var útnefndr til Portúgals stjórnara, breyttist sjúkdómr prinsessu til batnadar, og nú er hún fyri laungu komin aptur til heilsu sinnar, er svo sagt, ad hún ætli, þegar lagt hefir nidr stjórnina, ad setjast ad í klaustrinu Santos, og dvelja þar eptirleidis.

Ekkjudrottníngin ætlar í vor að ferdast til Róms, og ílengjast þar, edr setjast þar ad til fulls og alls; henni hefir lengi verid kent um lidsinni vid uppreistarmennina, og miklar líkur eru til þess, ad hún sè völd af þessu, því jafnan hefir hún látið í ljósi ímugust á allskonar frelsisstjórn, líkt og bródir hennar á Spáni. Herlid Enskra, sem sent var í fyrra til Portúgals, víkr nú hèdan og heim aptr á komandi vori, er svo tilætlad, ad Portúgals ríki beri allan kostnad ferdarinnar, en ad ödru leiti vill England ei krefjast útláta edr endrgjalds fyrir sína ljúfmannligu adstod vid Portúgals ríki á þessu tímabili. Þess vona menn, ad Michael audnist ad koma aptr á rósemi og fridi í landinu, en ókomin tíd fær betr í ljós leidt, ad hvad miklu leiti von þessi rætist edr ekki.

I Ameríku edr *Vestrhálfunni* er fyrst ad geta þeirra nýu amerikönsku frílanda, og má þá um þau segja, ad hèr er hvörki sönn lukka nè rósemi drottnandi. Bólívars tilraun ad skapa af Sudr-ameríku fríríkjum, eitt adal-fríländasamband, mun traudliga lukkast, fyrir sakir óeiníngar og innbyrdis flokkadrátta. I fríveldinu *Mexíkó*, sem þó var einna bezt farid, ad því leiti ad stjórnarformid hafdi nád föstum grundvelli, bryddi á talsverdum óeirdum, jafnvel landrád voru hèr í bruggerd, sem midudu til ad koma landinu undir Spánar konúng, en svika-samtök þessi komust upp í tækan tíma, og oddvitinn, múkr nokkur ad nafni Arenas, var af lífi tekinn, og hèrvid komst aptr á fridr um stundar sakir. Líka átti Mexíkó í Landaþrætum vid Nordr-

ameríku, sem ekki voru til lykta leiddar, þegar seinast frèttist. Hatr til Spanskra hefir á seinni tíd farid mjög svo í vöxt, bædi í Mexíkó, og annarstadar í Sudr-ameríku, og sumstadar er þeim þegar útrýmt til fulls og alls; í Mexíkó er ályktad, ad Spanskir innan tiltekins tíma skuli vera burtu úr landinu, nema því ad eins, ad þeir hafi búid þar mörg ár, og sèu giptir med innlendum konum, því þá mega þeir búá þar í nádum framvegis, og gjalda þannig nidjarnir forfedra sinna. I Kólúmbíu hefir allt gengid á trèfótum þetta ár; ad vísu stödvudust óeirdirnar vid heimkomu Bólívars frá Perú, en ekki var þad nema stundarfridr; Bólívar var opinberliga skuldadr fyrir, ad vilja gjörast einvaldi landsins, og tók hann sèr þetta svo nærri, ad hann sagdi af sèr völdin, en stjórnarrádid, sem kveid fyrir nýum óeirdum, þordi ekki ad láta þad eptir hönum, en skaut því á frest, til þess alþíng þjódarinnar gæti samankomid, sem haldast á í marzí mánudi í Okanna. Um sama leiti gjördi herlid þad, sem verid hafdi í Perú med Bólívar, uppreist móti hönum, en hann hèlt á móti óróaseggjunum, og vann sigr, og vidlíka heppinn var hann í vidskiptum vid adra mótstödumenn sína, og komst þannig ad kalla rósemi á í landinu. Höfudstadrinn Bógóta hrundi ad mestu leiti af jardskjálfta þann 21ta nóv., og lètu margir þar líf sitt aumkunarliga.

I Perú hvadan Bólívar fór, ádr enn fullkomin ró var þar ákomin, brutust óeirdirnar út, strax sem Bólívar var í burtu farinn; allar hans tilskipanir voru ónýttar, og þeim vísad úr landi, sem líkir

þóttu til, ad unna setníngum hans, en innlendr madr, hershöfdíngi Cruz ad nafni var gjördr ad forseta fyrst um sinn, en brádum risu misklídir útaf stjórnarformi, því er nú skyldi innleidast, og voru þær ekki til lykta leiddar, þegar seinast frèttist.

I *Paragvay* hafdi Doktor Francia, sem ad undanförnu, ædstu yfirrád landsins, er hann ad kunnugra dómi einhverr en frekasti hardstjóri, og þekkir ekki önnur lög enn eigin þótta, og má allt hlýda bodi hans og banni. Sagt er ad samblástrs tilraun móti hönum sè í bruggerd medal herlidsins, af hvörri þó, enn sem komid er, ekki hafa farid vissar fregnir.

I Brasilíu keisaradæmi var ástandid eitthvert þad bágasta, hvartil ad eru fleiri orsakir; einkum leidir af Brasilíu stjórnarformi, sem einveldi, margar og lángar misklídir og óánægju, því reynslan sýnir, ad einúngis fríþjódligt stjórnarform þrífst í þessari heimsálfu og getr því ekki hjá því farid, ad einvaldsstjórn verdi hèr óvinsæl og ílla þokkud bædi hjá undirsátunum og fríveldum þeim, er í grend liggja; þaradauki er í ríki þessu rammasta katólska, sem í tilliti til klerkaveldis, hjátrúar og sidferdis spillíngar, naumast á sinn líka annarstadar. Hèrvid bættist lángt og kostnadarsamt stríd vid Buenos Ayres, sem sókt hefir verid á bádar sídur med miklu kappi og hardfýlgni. Ekkèrt var líkligra enn þad ad Brasilía mundi bera hærra hlut í vidskiptum vid Buenos Ayres, því þetta ríki er hverki mikid nè voldugt, og hafdi þaradauki í fleiri horn ad líta, en keisarinn hafdi bædi mikid skipalid, og

æfdan og allmikinn landher, og stýrdu hönum evrópeiskir hersforíngjar; en eingu ad sídr veitti Brasilíumönnum jafnan midr, sem mest var eignad fylgisleysi herlidsins, er margsvegna óþokkar stríd þetta, og er því ej kyn þótt ílla gángi, hvörutveggju urdu þó brádum leidir af strídinu, og tóku því á álidnu sumri ad semja um frid og sættir, en þá fridarsámníngi var því nær ákomid, var öllu brugdid, þótti hann Brasilíumönnum hlidhollr um of, og hófst þá strídid ad nýu, miklu grimmara enn ádr. Sagt er ad sendibodi Enskra Ponsonby leitist vid ad koma sættum á milli hlutadegenda; og mun þad sídan í ljós leidast, hvad vidburdir hans í þessu efni fá til leidar komid. Fjárhagr Brasilíu er sagdr í óreglu mikilli, sem von er til, og innbyrdis ósamlyndi í meira lagi, sem fyrst um sinn naumast mun verda ad fullu sefad.

*Nordr-ameriku frílönd* blómgudust á þessu ári, sem ad undanförnu; kauphöndlun þeirra breidist út til fjarlægustu landa, og verksmidjur fjölga ódum í landinu, og engin innvortis styrjöld edr flokkadrættir lögdu hindranir í veginn fyrir almenna heill eflandi fyritæki og tilskipanir, og flest gengr þar eptir óskum. Af rædu forseta, hvörja hann flutti á þjódarinnar adalþíngi, sem hófst 4da december, má og svo sjá, ad fjárhirzlan audgast eptir vonum, enda hafa af skuldunum verid borgadar fullar 5 milliónir Dollars, og nýtt lán ekki verid tekid í stadinn. Vid England hefir þjódin átt í töluverdum misklídum útaf kaupverzlun og landamerkjum, en þess er ad vona, ad þad jafnist allt med gódu, þegar framlída stundir.

Yfir *Sudrheimsálfunni* hvílir myrk skýla, sem ekki hefir tekizt ennþá, sem komid er, ad lypta til hlítar. Á nýa Hollandi fara nýlendur Enskra stórum í vöxt, og telja nú fleiri enn 60000 evrópeiskra innbyggjara, flytst þadan ekki lítill kaupeyrir bædi til Englands og Sudr-ameríku, einkum Brasilíu, hvört ad er 40 daga sigling. Landid er allt til þessa lítid kannad, enda er þad ógreidt yfirferdar, stórir fjallgardar gánga næstum ad sæ fram, med litlu undirlendi, en hinumegin fjallanna er landit mjök grösugt og landskostir gódir. Á austrströndinni þykir einna byggiligast, er landid þar fjallaminnst, og einkum hæfiligt til akryrkju, Enskir leitast mjög vid ad kanna land þetta, og er þess ad vona og óska, ad vidburdir þeirra hafi farsælan framgáng.

I *Affríku* hafa á þessu ári ekki gjörzt nein stórtídindi. *Egyptalands* stjórnari Mahómed Ali efldi, sem ad undanförnu, ríki sitt med mörgu móti, og verdr því eigi neitad, ad hann á fáa síña líka í dugnadi og atorku; en stríd hans vid Grikki, sem bædi kostar hann fólk og fè, dregr allan kjark úr vidburdum hans. Fjárhagr ríkisins er á fallanda fæti, og almennings velgengni fer hnignandi. Vekkabítar hafa þaráofan brotizt inní ríki hans á Arabíu med miklu lidi, unnid sigr í fleirum bardögum, og inntekid Medína og Mekka. Lengi hefir ord á því legid, ad Mahómed vildi gjörast sjálfrádr, og gánga undan soldáni, en þetta mun líkliga oflhermt, ad minsta kosti er sagt, hann nýliga hafi heitid soldáni öllum þeim styrk, er hann mest orkadi, ef svo mætti til bera ad

strídid brytist út milli hans og Rússlands keisara, enda þykist hann nú ega sin í ad hefna fyrir hrakfarir og eydileggíngu flota síns vid Navarín, hvörrar ad framan er getid.

I *Sudr - affriku* hafa blámenn gjört miklar árásir á nýlendur Enskra, einkum Kaffrana, líka mætti nýlenda þeirra Sjerra - Leóna miklum ágángi, og vard nú loksins ofrlidi borin, og fluttist því til eyarinnar Fernandó del Pó í Ginea - bugtinni. Asjantíarnir eru heldr ekki aflátnir óspektum sínum. Vidburdir Enskra, ad kanna þad innra af Affríku, gánga mædúsamliga, því frètst hefir, ad Kapteinn Clapperton sè nú dáinn þar á ferdalagi sínu inní landinu; en Bretar eru þolgódir, og gefast ekki upp, þó nokkud gángi á moti.

I *Asiu* ellur Austrhálfunni hafa á þessu tímabili vída verid miklar styrjaldir; þess er ad framan getid, ad Hollendíngar áttu í miklum ófridi vid innbyggjarana á Celebes og Java, med misjafnri lukku. Þad eldgamla Kínaríki hefr sætt á þessu ári töluverdum hræríngum, fólksfjöldinn er vaxinn þar framúr hófi, margir lída atvinnu brest, og eru því fúsir til óeirda. Embættismanna stèttinni er brugdid um órádvendni, og herlidid er duglítid, Kristindómr hefir jafnan mætt hèr ofsóknum, og hjátrú ok hleypidómar eru því drottnandi. I ríkisins vestlægu umdæmum, sem bygd eru af Tartörum, er einkum rostusamt, og þó keisarinn hafi sent ærinn her móti uppreistarflokknum, var þó óróa þeim ej linnt, þegar seinast frèttist.

I Birmanaríki er mesta óregla og flokkadrættir;

ríki þetta er bygt á því pegúanska, liggja því Pegúanar í sífeldum ófridi vid Birmana, af hvörju mælt er, Enskir noti sèr klókliga. Í Birmana strídinu fengu þeir sèr afsölud flest þau hèröd, sem liggja næst sjó, og bezt eru fallin til kauphöndlunar, svo verzlun þeirra í Aptr-indíum fer ódum vaxandi. Aldrei hefir veldi Enskra verid meira enn nú í Aust-indíum, og aldrei máske á valtari grundvelli; þeir svonefndu blendíngjar, fjölga þar ódum, en Bretar hafa þá útundan, og ná þeir því engri tign edr álíti, en þetta kemr inn hjá þeim, sem von er, kala til Enskra, sem sagt er færi vaxandi, þó lítid áberi. Veldi Breta í Indíum hefir einúngis ad stydjast vid fámennan her frá Evrópu, en einkum vid innlenda dáta, sem standa undir evrópeiskum hersforíngjum, og er þad audsèd, hve hæpid þad er, ad kenna þeim yfirunnu, ad beita vopnum þeim, med hvörjum þeir ádr hafa sigradir verid; en einkum má vöxtr Rússaveldis í Asíu verda Enskum ad ólidi, ef svo kynni tilbera, ad ríki þessi yrdu ósátt innbyrdis. Persaríki, sem var ad álíta sem varnarvegg fyrir eignir Breta ad nordanverdu, er vid fridinn vid Rússa, ordid miklu vanmáttugra enn ádr, og ad miklu leiti áhángandi af Rússum. Ástandi Asíu er því á þessu tímabili þannig varid, ad þad ad mestu virdist komid undir vinfengi Rússa og Breta, hvört því er óskandi ad lengi og vel vidhaldist.

Í nábúaríkinu *Svíaríki* var ástandid líkt sem ad undanförnu. Kornár var í flestum hèrödum ríkisins allgott, einkum í Skáney, og var því ódar

lagdr bísna hár tollr á innfluttar kornvörur frá Danmörku og annarstadar frá. Vodaeldr eydilagdi kaupstadinn Borás annad sinn, var skadi sá metinn til meira enn einnar gulltunnu virdis. Konúngsættin jókst á ný med ungum prinsi, sem heitir Karl Gústav Oskar, prins af Upplandi. Sagt er ad Svíar ætli ad senda flota til Midjardarhafsins á komandi vori, sem frida á og vernda kaupför þeirra fyrir áhlaupum affríkanskra sjóvíkínga, sem á þessu tímabili hafa ónádad kaupför þeirra þar um slódir.

I sambandsríkinu *Noregi* endadi stórþíngid adgjördir sínar á álidnu sumri. Af því sem hèr var vidtekid, var þad einna merkiligast, ad nýa lögbók skyldi semja fyrir ríkid, og er þad verk þegar byrjad. Ekki gedjadist þó konúngi ad öllu leiti ad ályktunum stórþíngsins, einkum þókti honum peníngasummur þær, er þad lèt af hendi rakna til hersins og flotans þarfa, öldúngis ónógar, og ekki þótti honum betr fara máls sókn sú, sem höfdud var móti statsrádi Collet fyrir allt of sjálfráda rádstöfun hans á fjárefnum ríkisins, og fleira fann hann sèr til vid Norska á þessu tímabili, en þad má segja stórþínginu til hróss, ad þad er einbeitt, og lætr lítid þoka sèr af Svíum. Nú er ályktad ad stórþíngid skuli samankallast á ný, þann 8da apríl næstkomandi, til ad semja um ýms árídandi alþjódlig málefni, og er mælt, konúngr muni þá sjálfr koma til Kristjaníu. Þó einíngin milli ríkjanna fari dagvaxandi,

skedu þó óspektir nokkrar á næstlidnu hausti í sjónarspilahúsinu í Kristjaníu, þá þar var haldinn afmælisdagr ríkjanna sameiníngar, og reis hèraf eptir bodi konúngs laungrannsókn, utaf hvörri þó lítid merkiligt í ljós leiddist.

Frá árferdi í *Danmörku* á þessu tímabili er ad framan greint hid markverdasta. Ríkid naut sem ad undanförnu fridar og innbyrdis rósemi í öllum umdæmum sínum, og kaupför Dana fóru óhindrud ferda sinna til framandi landa, einkum fluttust á þessu ári miklar kornvörur til nábúaríkjanna, og græddu Danir þarvid ad vanda ærna penínga; þó gengu bædi hèr í Danmörku og annarstadar umkvartanir yfir deyfd í kaupverzlun yfirhöfud, og verdr þad ekki hèr med vissu sagt, ad hvad miklu leiti þetta sè grundvallad edr eigi, víst er þad þó, ad á þessu ári sigldu fullar 12 þúsundir kaupskipa gegnum Eyrarsund, sem framar þykir lýsa vaxandi enn hnignandi kaupverzlun, þegar yfir allt er litid. Konúngr vor samdi á þessu ári til ad efla og frama kauphöndlun þegna sinna verzlunarsamníng vid Soldán í Miklagardi, og fá Danir þarvid meiri hlunnindi enn þeir fyrr höfdu í Tyrkjaveldi, og geta rekid kaupskap sinn vídar enn þeim ádr hefir leyft verid þar um slódir. Med merkiligustu vidburdum hèr á þessu ári má telja endurfæding og innvígslu akademíisins í Sórey, þessi vísinda-stiptan mátti heita undir lok lidin, svo valla fundust neinar menjar hennar fyrri blómligu tilveru; fjárhagr stiptunarinnar var þó allgódr, og fór ávalt batnandi, einkum undir umsjón hennar

fyrrverandi fjárhaldsmanns, þess valinkunna herra Páls Stemanns, sem nú er forseti í því konúngliga danska Kansellíi, og bar raun hèrum ljósast vitni, því þá háskólinn í Kristjaníu var á stofn settr af konúngi vorum árid 1811, lagdi stiptunin hönum ad konúugs bodi af eigin ramleik 100,000 rdl. silfrs. Nokkru seinna brann akademíisins höfudbygging, enn reis upp ad nýu miklu ásjáligri enn ádr, var smídi því fyrst lokid til fulls á næstlidnu vori. Þann 21ta Mají; var akademíid því hátídliga innvígt, í nærveru konúngs, prinsanna og margs annars stórmennis; hátídin byrjadi med dýrdligri gudsþjónustugjörd i Sóreyar kyrkju, ad hvörri lokinni konúngr hèlt med fylgd sinni til akademíisins höfudbyggíngar, hvar hönum var hásæti búid, stè þá stjórnarherrann Malling í rædustólinn, og lýsti í snjallri rædu stiptunarinnar fyrri og núverandi kjörum, og endadi rædu sína med fögrum fyrirmælum fyrir konúnginum, ríkinu og stiptuninni; um leid voru stiptunarinnar nýu statútur fyrsta sinn gjördar heyrumkunnar, ad svo búnu leyfdi konúngr kennurum vid stiptunina, er lektórar nefnast, tal vid sig, og sæmdi þá um leid med jöfnu metordi og prófessóra vid Kaupmannahafnar háskóla, en forstjórinn, Tauber, fèkk tignarrètt med Etatsrádum; þvínæst lèt konúngr lærisveinana koma fram fyrir sig, og spurdi þá med födurligri blídu ad nöfnum og ætterni, líka þóknadist hönum næsta dag, ad hlýda á yfirheyrslu þeirra í ýmsum lærdomsgreinum, sneri konúngr sídan sama dag til höfudstadarins, ferdadist skömmu seinna med yngri dóttur sinni á því kon-

úngl. dampskipi til Kíl á Holtsetulandi, en þadan til Láenborgar og vídar um hertogadæmin, og útbreiddi, hvar sem fór, ánægju og gledi; eptir hèrumbil hálfsmánadar burtuveru kom hann farsælliga híngad aptr til bæarins, og flutti þegar til sumarbústadar síns á Fridriksbergi. Um sama leiti ferdadist prins Kristján med krónprínsessu Karólínu umkríng á Fjóni Mön og Lálandi, og heimsókti á þeirri ferd greifa Reventlow, sem þá lá á banasænginni, og andadist nokkru sídar. Prins Fridrikr Karl Kristján, sem í hitt ed fyrra veik til útlanda, hefir þetta ár búid á slotinu Plongeon, nálægt Genf, og stúdèrad þar undir leidsögn frægustu kennifedra málvísi, strídskunst og stjórnarfrædi, stökum sinnum hefir hann sèr til heilsustyrkíngar brugdid sèr til efra Vallands og Sudrfránkaríkis, en á komandi sumri er mælt hann ætli ad ferdast vídar um í Evrópu, og sídan ad hallandi sumri vitja síns födurlands, hvar allir bidja hann heilan aptrkoma; er nú verid ad tilbúa prýdiligan hofgard honum til íbúdar á Amalíuborg, hvar konúngr einnig býr á ödru sloti; meinast ad snildarsmídi því muni ad fullu lokid á öndverdu komandi sumri. Í stadnum Slèsvík var á næstlidnu hausti sjaldgæf hátíd í minníngu þess, ad tengdafadir konúngs vors, landgreifinn af Hessen, hafdi þá verid landstjórnari yfir hertogadæmunum í samfleytt 60 ár, Slesvíkr stadar innbyggjarar sendu honum ad gjöf dýrdligan silfrbikar, med snoturri innskrift, og háskólinn í Kíl, gjördi hann ad doktor edr lærifödur í sínum fjórum höfudvísindagreinum; I sömu minníngu var í stadnum

Itzehó öllum gömlum þurfamönnum, sem þar voru áttrædir edr eldri, haldin mikil og gód middagsmáltíd, hvörja þeir þágu, sem skyldugt var, med þakklæti og einlægum heilla óskum fyrir sínum haá og gódgjarna velgjörara.

Um nýársleitid kom híngad til höfudstadarins frá Stokkhólmi Nordrálfunnar nafnkendasta saungkona; frú Katalaní, ættud af Vallandi, og naut hún skömmu seinna þeirrar æru, ad sýngja vid hirdina fyrir konúngi og drottníngu; þareptir saung hún nokkrum sinnum í því konúngliga sjónarspilahúsi, og flyktist múgr og margmenni til þeirrar skemtunar, og þó voru inngángssedlar óvenjuliga dýrir, edr frá 3 til 4 ríkisdala af manni hvörjum; Saungrödd hennar er, sem nærri má geta, bædi mikil og fögr, og svo lidug, ad hún getr hafid síg frá lægsta tóni til þess hæsta, og á víxl til þess lægsta, med slíku yndæli og mjúkræmi, ad engir þóttust slíkt ádr heyrt hafa; svo opt sem hún saung, voro þau konúngr og drottning vidstödd, og Katalaní vissi med engu betr ad láta í ljósi þakklæti sitt og lotníngu, enn med því í hvört sinn ad enda saung sinn, med þeim alkenda enska þjódsaung: *God save the King*, med umbreyttu konúngs nafni, sem vakti allra vidstaddra inniligustu gledi. Hún er nú komin yfir fertugt, og hefir um fleiri undanfarin ár ferdazt umkríng í Evrópu, súngid vid hird keisara og konúnga og annara stórhöfdíngja, og þegid af þeim miklar virdíngar og stórgjafir; hefir hún þannig dregid saman mikid fè. Hèdan fer hún til Fránkaríkis, hvar hún er gipt

og búsitjandi, og ætlar hún þar ad setjast um kyrrt, þad eptir er æfinnar. En undireins og Danir þannig offrudu mannúdliga á altari snillis og kunstar, gleymdu þeir ekki á hina sídunna naudstöddum medbrædrum. Þad er kunnugt ad um nærst undanfarin ár hafa mörg ríki í Nordrhálfunni skotid saman ærnu fè til hjálpar Grikkjum, sem annars hefdu mátt deya úr húngri og hardrètti; Danir vildu ekki verda eptirbátar annara í þessu gódverki, og mundi þad ogsvo fyrri hafa látid sig í ljósi, ef einhvörr hefdi ordid tilad gángast fyrir þessu, og er hèrum sjón sögu ríkari; því strax sem prestrinn Basthólm, sonr þess á Íslandi alþekta gudvitríngs og mælskumanns Doktors Basthólms, medal annara hafdi á prenti hvatt til þessa gódverks, og bodizt til ad veita móttöku gjöfum þeim, sem kristiligt örlæti landa hans lèti af hendi rakna, sýndi þad sig fullkomliga, ad gódgirni Dana ekki var aptrfarid; talsverdum gjöfum er þegar safnad, og fyrir skömmu sendi nefnd sú, er stendr fyrir gjafasafninu, 5000 fránka til Hofráds Einards í stadnum Genf, er sídan leidbeinir þeim til Grikklands. Sendíng þessi vard svo hradfara, ad sídan er komid bref frá herra Einardi, hvarí hann med fögrum ordum þakkar gjöfina í Grikkja nafni, og kvedr þá aldrei meir enn nú þarfnazt hafa annara adstodar og velgjörnínga, og má því fullyrda, ad gódgirni Dana vid Grikki nú er byrjud en ekki aflátin.

Til mikillar sorgar fyrir kóngahúsid og foreldra sína deydi á þessu ari, þann 20 dec., ekki fullt ársgömul, prinsessa Vilhelmína Ágústa Elísa-

bet, yngsta dóttir Lóvísu Skarlottu, prinsessu af Danmörku; og Vilhjálms prins af Hessen; lík hennar var, sem sidr er til, flutt til Hróarskeldu, og þar hátídliga lagt til hvíldar í þeirri konúngligu greptrunarkapellu. Danmörk mátti þaradauki á þessu tímabili sjá á bak tveimr af sínum merkustu sonum, greifa Kristjáni Reventlow, og leyndarrádi Johann Bülow. Hinn fyrri, andadist þann 11ta okt. næstum áttrædr ad aldri; hann var fyrrum forseti í því konúngl. Rentukammeri, leyndarrád kongúngs og riddari af fílsordunni; en Arid 1813 lagdi hann nidr embætti sín, og flutti sig yfir til greifadæmis síns á Lálandi, og bjó þar sídan til dánardægrs; í sínum mikilvægu embættum sýndi hann mikinn dugnad og réttsýni, og mun því minníng hans leingi uppi vera. Hinn sídari andadist þann 22 jan. þ. á. þá hann hafdi sjö vetr um sjötúgt. Hann gekk í úngdæmi sínu í strídsmanna stétt, en vard skjótt leidr á því, einkum þessvegna ad hugr hans hneigdist mjög til bókmenta, og fór hann því til akademíisins í Sórey og stúdéradi þar nokkur ár; þareptir kom hann í þjónustu hjá krónprinsinum, vorum núverandi Kóngi, og steig hjá hönum frá einni tignartröppu til annarar, uns hann vard kammerherra og dróttseti hans; en lukkan var hér, sem optar, óstödug, því nokkru eptir, nfl. árid 1790, var hönum svipliga vikid frá embættum sínum, og flutti hann sig þá yfir til Sanderúmgards á Fjóni, sem hann hafdi keypt nokkru ádr, og hér bjó hann sídan. Þótt hann væri nú kominn ad kalla í fjarlægd, naut hann eingu ad sídr konúngsins nádar og velþóknunar, og er hér sjón

sögu ríkari; þad er og kunnugra enn frá þurfi ad segja, ad hann var einhvörr enn mesti mennta stodari og mannvinr, svó ekki mun þad ofhermt, ad hann hèri hafi átt fáa edr einga sína jafníngja af sèr samtídis mönnum í Danmörku. Fleiri vísindamenn ferdudust á hans kostnad utanlands, og urdu þarvid födurlandinu til enn meira gagns og sóma, og margr rithöfundr þádi styrk hans til prehtunar ritum sínum, og varla var nokkud alþjódligt fyrirtæki svo stofnad, ad hann ej á einhvörn hátt til góds væri vid þad ridinn. Einnig fèlag vort, naut frá því fyrsta hans örlátu og ljúfmannligu adstodar, og mun því seint bætast missir sinn, en minníng velgjörara síns aldrei fyrnast. Vor gódfrægi og hálærdi landi prófessor Magnúsen, setti þessum sínum göfuga velunnara snotra grafminníngu í bladinu Dagen, og fleiri mintust hans á líkan hátt. hann eptirlèt sèr eingin börn, en ekkjufrú hans (födursystir Stiptamtmannsins yfir Íslandi) og födurlándid, syrgir því meir og sárar. Líka dóu á þessu ári 2 merkismenn ádrir, nefnil. Prófessor vid Kaupmannahafnar háskóla í Landbústjórnarfrædi Olufsen, og Georg Vilh. Pfingster, Prófessor og riddari samt forstödumadr heyrnar- og málleysíngja-stiptunarinnar í Slesvík, hvörrar höfundr hann var í öndverdu, og nádi stiptunin undir hans forstödu miklum og gódum þroska, enda vardi hann trúliga kröptum sínum og þekkíngu til þessa verduga augnamids allt til síns dánardægrs.

Einnig Ísland leid á þessu ári mikinn missir vid fráfall Doktors philosophiæ Gísla Brynjúlfs-

sonar á 33ja aldrs ári; gáfur hans og lærdómr voru afbragd, og hafdi hann sýnt þaruppá óræk merki, en þó sálar-atgjörfi hans væri mikid, voru mannkostir hans öllu meiri, er missir hans því þýngri, sem færri eru til ad fylla skardid, hann eptirlèt sèr syrgjandi ekkju, dóttur Amtmanns Konferenzráds Steffáns Þórarinssonar, og einn son, sem ber nafn síns andada födurs.

Frá ödru merkiligu, sem gjörzt hefir á þessu ári útá Íslandi, árferdi þar og ödru frásagnarverdu skírir Herra Konferenzráds Stephensens margfródi Klaustrpóstr svo greiniliga, ad þad er hèr med öllu undanfellt: sama er ad segja um nýútkomnar bækr hèr í landi, hvarum greinilig skírsla fylgir frá annari hendi; en hvad merkiligt fréttast kynni erlendis frá, ádr en prentun þessa fréttaágrips er lokid, því mun verda vidaukid aptanvid, einsog sidr hefir ádr verid.

---

# Fèlagsins
## ástand og athafnir.

Laugardaginn þ. 8da marzí var haldin almenn samkoma þessarar fèlagsdeildar á vanaligum stað, hèlt forsetinn þar ræðu þessa:

M. H.

„Það er í dag sú aðalsamkoma, sem vèr egum að halda á vorrar fèlagsdeildar afmælisdegi. Öllum m. h. mun kunnugt, að það var lögleidt í fyrra

vor; að flytja samkomudaginn, svo tveir fundir yrðu haldnir í þessum mánuði, á þeim fyrri á að gera grein fyrir það umliðna árið, á þeim seinni að ráðslága um fèlagsins athafnir fyrir það komandi ár.

það nú umliðna ár hefir verid fèlaginu heldr starfsamt en arðsamt. Af Árbókunum er prentað það, sem til var í handriti, og gerir það 14 arkir, en verðr ekki vel útgefið fyrr en framhaldið verðr oss sendt frá Íslandi. það var fèlagsins álÿktan í fyrra, að tvö ný verk skyldi prenta láta, annað var *Uppskrift* yfir bækr Stiptbókasafnsins í Reykjavík, en annað *Æfisaga* Konferenzráðs Jóns heitins Eyríkssonar. Bókauppskriftin, sem Próf. Rafn hefir um hönd haft, er nú búin, og gerir hèrum 14 arkir. (Framlagðist hûn þá ásamt Hra. Prófessorsins skírslu um Bókasafnið.) Af Æfisögunni er búið að prenta 6 arkir, (sem hèr framlögðust); að ekki sè lengra komið með hana, er vegna hindrana frá prentsmiðjunni, nefnl. fyrst af því prentarinn fèkk seint frá Holtsetalandi þá nýu stíla, sem brúka skyldi í textanum, og í öðru lagi varð að vænta leingi eptir smærri stílategund, sem hann keypti af öðrum prentara hèr í staðnum, og sem brúka skyldi í viðbætirnum. Verðr því ekki uppá víst ákvarðað, hvað margar arkir þesi bók muni verða, þó held eg hûn verði eitthvad um 10 eða 12.

þannig eru þá fyrir fèlagsins reikníng prentaðar (14 + 14 + 6 =) 34 arkir, en 11 eða 12 eru eptir, áðr en árbækrnar og æfisagan verða útgefnar; hefir það því haft eintómar útgiftir af

þessum fyrirtækjum, enn sem komið er; samt sem áðr er auðsèð, að þessum peníngum er ekki eydt, heldr mun því öllu vel varið, til að frama landsins heiðr og bókmentir, sem er vort aðalaugnamið; líka er til vonar, að nokkuð komi inn fyrir þessi verk, þegar þau verða búin, og stundir líða.

Reikníngrinn fyrir það umliðna ár er búinn og saminn eptir venju af gjaldkera vórum, Hra. Kand. Þorgeiri Guðmundssyni, en hefir þó ekki náð að yfirskoðast, vegna þess fundrinn í þetta skipti var haldinn svo snemma, en sjálfsagt, verðr hann nú yfirskoðaðr, og síðan prentaðr í Skírnir, eins og vant er (var hann þá framlagðr). Samkvæmt honum eru annars:

| | í silfri | | í seðlum. | |
|---|---|---|---|---|
| | rd. | sk. | rd. | sk. |
| innkomnir frá Ísl. í haust | 30 | - | 196 | 25 |
| gefnir af H. H. kónginum | 100 | - | - | - |
| heiðrslima tillög hlaupa til | 50 | - | 105 | 50 |
| yfirorðu- og orðulima tillög hèr . . . . . . | 36 | - | 27 | 13 |
| bókaverð hèr innkomið . | - | - | 23 | 28 |
| rentur af fèlagsins höfudstóli . . . . . . . | 100 | - | 71 | 36 |
| alls | 316 | - | 423 | 56 |

en útgjöldin hafa verið:

| | rd. | sk. | rd. | sk. |
|---|---|---|---|---|
| fyrir prentun og pappír til fèlagsins forlagsbóka og þeirra innbindíng . . . | 60 | - | 638 | 69 |
| til þarfa Stiptbókasafnsins í Reykjavík . . . . . . | - | - | 115 | 44 |

| | rd. | sk. | rd. | sk. |
|---|---|---|---|---|
| óákveðin útgjöld s. s. til fèlagsins sendiboða, leiga af geimsluhúsrúmi, innpökkun bóka, auglýsingar, skriffaung o. þh. | - | - | 134 | 70 |
| til Konsistóríalassessors Sra. Gunnlaugs Oddssonar hèr | 50 | - | | |
| og á Íslandi aðrir . . . . | 50 | - | | |
| alls | 160 | - | 888 | 87 |

og eru þó ekki borguð prentunarlaun fyrir Bókauppskriftina auk annarra útgjalda, sem eptir eru.

Annars sèst af þessu einnig, að fèlagsdeildin á Íslandi er vel við líði, og þó hennar tillög rírni smámsaman eins og okkar, þá er það ekki að furða, þar eð fèlagid hefir nú staðið í 12 ár, og margir á þeim tíma gefið töluverdt til þess. það er einnig til bótar, að það hefir nú smámsaman feingið dágóðan stofn, og getr útgefið dálítinn bækling árliga með eigin kröptum, þegar það færist ekki ofmikið í fáng. Einginn hefir sagt sig úr okkar fèlagskap á þessu ári, en fáeinir hafa viðbæzt, sem taldir munu í lista fèlagslima. Konúngr hefir enn veitt oss jafna náðargjöf og í fyrra. Einnig greifi A. V. Moltke; líka hefir greifi Knúth ennþá veitt okkr höfðíngliga stórgjöf, en þarmeð óskað sig framvegis afsakaðan, og mun fèlagið víst með þakklæti minnast hans velgjörða, þar hann hefir styrkt það svo stórkostliga, alla stund sem það staðið hefir, híngað til.

þarámóti er sárt að minnast á vorn missir í

láti einhvörs hins merkasta velgjörðamanns fèlagsins, leyndarráðs Jóhanns Bulows á Fjóni, sem viðbar í janúarí mánuði þ. á., svo að fèlagið ekki öðlaðist svar frá honum uppá seinasta brèf og bókasendíng sína, sem varla mun hafa komið honum fyrir sjónir, þar hann um það leiti lá á banasænginni, og kvaldist af mjög sárum sjúkdómi. Annann sáran missir höfum vèr liðið útá Íslandi í fráfalli þess hálærða Drs í heimspeki Sira Gísla Brynjúlfssonar á Hólmum eystra. Er þó sjálfsagt, að vèr egum eigi þessvegna að láta okkr fallast hendr, heldr miklu fremr þaraf að hvetjast til þess að kappkosta, að geta náð hans dugnaði og lærdómi og dreingskap, og þannig bætt föðurlandinu þann skaða, sem það eptir forsjónarinnar ráðstöfun liðið hefir.

Annars hefir eingin sèrlig umbreytíng skeð í fèlagsins ástandi, nema að Reykjavíkrdeildin í staðinn fyrir Hra. Landfógèta Sigurð Thorgrímsen hefir valið Hra. Kaupmann Sigurð Sívertsen til gjaldkera, og í staðinn fyrir Dr. H. Schevíng Hra Sýslumann Ólaf Finsen til aukagjaldkera. En í vorri deild hefir Hra. Eggèrt Jónsson, eptir vali fèlagsins, tekið að sèr að vera þess bókavörðr, en það sem þartil heyrir hefir þángað til legið á skrifarans höndum. Af umboðsmönnum fèlagsins á Íslandi hafa sumir afsakað sig, nokkrir eru fluttir, og hafa þá aðrir verið tilfengnir í staðinn. Þannin er Hra. Faktor Steinbach kominn í staðinn fyrir Hra. Faktor Boga Benediktsson á Stykkishólmi: Sra. Ólafr Sivertsen í Flatey í staðinn fyrir Sra. Böðvar Þorvaldsson. Líka hefir fèlagið tilmælzt vid

Hra. Faktor Jón Jónsson á Ísafirði, að takast á hendr þess umboð þar vestra með bókasölu o. þessh. Í staðinn fyrir Sra. Snorra Brynjúlfsson hefir Faktór Thaae tekið að sèr fèlagsins umboð í Suðr Múlasýslu; en á Eskjufirði hefir Hra Faktor Beck lofað að annast þess efni þar í hèraði.

Þannig er þá útendað þetta fèlagsár, þó ekki sè útkljáð um þau verk, sem fèlagið á því hefir fyrir stafni haft. Að eg hefi leitazt við að fá þau prentuð, sem eg vissa bezt og nákvæmast og falligast, vonar mig að flestir muni játa. Í þeim tilgángi, að fá einkum það nýa verk, æfisögu Jóns Konferenzráðs Eyríkssonar prentaða sem rèttast og snotrast (því einúngis það rètta getr verið samkallað snoturt), en innleiða þó einga nýlundu af eigin rammleik, lèt eg gánga um til hinna lærðu fèlagsbræðra minna lista, til að safna atkvæðum um það, hvört brúka skyldi stúngið dè *) eðr eigi

*) Það stendr svo á þessu máli, að í íslenzku eru tvennslags *d*, einsog tvennslags *t*: allir vita greinarmun á *tá* og *þá*, *til* og *þil*, *tó* og *þó*; líka greinir hvört barn, sem talað getr, ámilli þess harða eðr eginliga *dè*, og þess lina eðr stúngna *dè*, sem það er kallað eptir teikninu, en sem heldr skyldi heita *Eð* eptir hljóðinu, t. d. í orðunum: *Ódáinsakr* og *Óðinsey*, *ádeila* og *áðan*, *lærdómr* og *vèr lærðum*, *bardagi* og *eg barða*. Stundum heyrast hvörutveggju í einu orði, svo sem: *dugnaðr*, *dauði*, *dáð*, *dygð*, *munduð*, *haldið*, svo og *meðdeila*, er hljóðar öðruvísi en *Edda*, *aðdáanligt* öðruvísi en *gladda*, jafnvel þó þetta sè dregið af *eg gleð*. Líka hafa fornmenn á öllum Norðr-

yfirhöfuð í því, sem fèlagið eptirleiðis útgefr. þeir urðu 11, sem kváðu þar já við, en 3 nei, og 6 vildu hafa það í öðrum fèlagsins bókum, en eigi í Skírnir. þó þessir sèu nú svo fáir, að þeir hafi raunar tapað sínu máli; vildi samt svo vel til, að á meðal þeirra var Hra. þórðr Jónasson, er eptir mínum tilmælum hefir samið hins umliðna árs frèttir, og leyst það prýðiliga vel af hendi, sem raun mun vitni um bera: á hann sjálfsagt, eins og hvör og einn höfundr, að ráða sínu riti, og fá þeir hinir fáu þannig sinn vilja í þessu, eins og hinir, er mèr samsinntu, í hinu. Var mèr það mikið kært, svo allir sjái, að það sè hvörjum og einum frjálst, minna vegna, að hafa þetta rètt eptir sinni hjart-

löndum haft sèreiginligt *Eð* í skrift sinni, en það er geingið mjög úr móð á Íslandi í seinni tíð, nema hvað stöku menn hafa leitazt við að færa það í gáng á ný, t. d. Ó. Ólavíus í Njálu; Jón Ólafsson lærði í bókunum *de Baptismo* og *de Cognatione spirituali*; eg sjálfr í Snorra-Edda, og Próf. Rafn í Krákumálum og Norðrlanda Fornaldarsögum, einnig það norrena Fornfræðafèlag í öllu því, sem það hefir útgefið. Nú var spursmálið, hvört þessi bókstafr skyldi alítast að heyra málinu til ennþá, eins og hljóðið vissuliga heyrir því til, og þessvegna brúkast í þessa eins og í hins fèlagsins ritum; elligar hann skyldi leggja fyrir óðal, af því hann er ekki brúkaðr í dönsku né öðrum nýrri og umbreyttum túngumálum, sem heldr ekki hafa *þ*. Varð nú að ákvarða þetta, af því höfundr Æfisögunnar hafði skrifliga mælzt til, að hûn yrði prentuð eptir þeirri rèttritun, sem fèlagið fylgir í öðrum nýrri tíma ritum, er það útgefr.

þorta þengla favður,
þat man eins henni fara.
Myrkvar fyrst á himni
megin njólo tíma;
þá ec em héðan farinn
hvílo vil ec sojótt recja,
nú vill reiðarstjóri¹)
rennsli hardt auca,
máca ec lengr dvala,
mál er til vestrheima.
Heilan bid ec þic lifa!
Hann í því hverfa cnátti,
reið savcc Dellíngsmagar
Ráhar í seng miðja;

var mèr eptirsjá
allmicill í viðr,eðo
þengils ins þrecmicla,
þeirrar ec lengr escti.
Locin var mèr sýn sjá,
leit ec eigi reið aðra,
Njóla fór of allan hifin,
nersta var máni fullr,
ter sá ec Avrvandils,
augo leit ec þjassa beði,
þreyta cnátti brásólir.
þecc varð mèr draum-
njórun.

## Viðbætir vid Frèttirnar.

Framanskrifudu frèttaágripi var lokid vid byrjun marzi - mánadar, en þess markverdasta er sídan gjörzt og frètst hefir, er þannig ad geta í fám ordum.

Í nærstl. mánadi var vedrlag stirdt og yfrid óstödugt, svo opt var fjúk og frost sólskin og þýdvidri sama dag, þó hafa fagrir dagar verid þess á milli, nú er vedrid ordid stödugra, og máske er verblídan þegar í gard gengin. Frèttir þær er á seinustu tíd borizt hafa frá soldáni í Miklagardi, stadfesta fullkomliga hvad ádr var getgáta, ad ekki mun hann ætla sèr ad láta undan med gódu. Því þann 20ta dec. útkom auglýsing í Miklagardi, er sídan var send um kríng í ríkinu til allra fylkishöfdíngja og annara embættismanna. Auglýsíngin byrjar þannig: „þad er hvörjum heilvíta manni alkunnugt, ad einsog hvör rèttrúadr (Muselmadr) er

1) Dagr.

af náttúrunni til fjandmadr hinna vantrúudu (ɔ: Kristinna), svo eru á hina síduna þeir hinir vantrúudu, allra Muselmanna svarnir óvinir". Þarnæst víkr rædunni til Rússlands, yfir hvört ríki soldán eys íllyrdum sínum í fullum mælir, og því næst hina adra Evrópu stjórnendr, sem hann kvedr án allra saka hafa slegizt uppá sig fyrir fortölur Rússlands, einúngis til ad stappa stáli í, og styrkja uppreist Grikkja; en bardaginn vid Navarín sè ljósastr vottr þess, hve drengiliga þeim farizt hafi; en jafnframt þessu segir hann nú med berum ordum, ad lánglundarged sitt og hógværd vid allt þetta, hafi einúngis midad til þess, ad fá nokkurt svifarúm, til ad bera hönd fyrir höfud sèr gegn fjandskap vid sig í frammi höfdum. Ad endíngu, upphvetr hann alla sanna Mahómets trúarjátendr, ad sameinast sem einn madr í ordi og verki, til forsvars trú sinni og tilveru, og huggar sig og þá med því, ad þeim muni nú einsog ad undanförnu, fyrir adstod hins mikla spámanns, audnast ad bera sigr úr býtum; og í því trausti kvedst hann ætla ad halda áfram, og láta sverfa til stáls milli sín og hinna vantrúudu. Hèr tekr soldán þá svoleidis af öll tvímæli, ad ekki verdr annad enn gengid úr skugga um fyrirætlun hans, og hvörnig hann nú er skapi farinn, og þad því framar, sem hann ekki lèt þad lenda vid ordin einsömul, því strax sem auglýsing þessi var útkomin, hófust ofsóknir í Miklagardi gegn Kristnum, sem þar bjuggu, en einkum urdu Armenískir, er játa katólska trú fyrir brædi soldáns; innan ákvedins tíma var þeim í hördustu árstíd, vísad af landi

burt frá eignum og ódölum, og þeir sem fyrir fátæktar sakir ekki gátu hlýdt þessu grimdarbodi, voru hneptir á skip út, og fluttir álíkt og sakamenn útaf landinu, flestir til efra Vallands. Fullar 27,000 af Armeniönskum urdu þannig allt í einu húsnædis og hjálparlausir ad hrekjast frá öllu sínu; en soldán kastadi eign sinni á þad, sem þeir eptirskildu, og þeir ekki gátu med sèr flutt. I kýbýli hinna burtflúnu fluttu adkomnir dátar, er dagliga flykkjast þúsundum saman frá Asíu meginlandi til Miklagards, hvar því er samankomid ógrynni hers ad tölunni til, en dugnadr og strídsæfing hers þessa mun ad sínu leiti miklu minni; því eptir sem ord fer af, hafa þeir vakid miklar óspektir í Miklagardi. Höfud-adsetrsstadr hersins er í Adríanópel, og þángad ætlar soldán, ad sögn, þegar vorid byrjar. Hinumegin sundsins lætr hann nú byggja sèr víggirdt slot, hvar hann mun ætla sèr, ef í naudirnar rekr, ad láta fyrirberast. Þegar auglýsing soldáns barst til Rússlands, þótti keisaranum fjandskapr soldáns nú gánga mjög svo í berhögg vid sig, og tók hann því auglýsing soldáns sem strídsbodun, sem ekki var ólíkligt, þegar ad því er gætt, ad soldán um sama leiti og auglýsing hans útkom, lagdi hald á skip Rússa, og kastadi eign sinni á farminn, og fyrirbaud þeim siglíngu gêgnum Dardanellasund til svarta hafsins. Þad er því sagt ad Rússl. keisari hafi sagt soldáni stríd á hendr, en ekki er strídsbodun hans en þá auglýst í opinberum tídindum. Þann 12ta apríl, átti, her sá en mikli, er liggr vid Prút, ad fara yfir á þessa, og inní Furstadæmin Moldáv og Vallakíid,

og mun yfirgánga sú þegar framkvæmd, þó ekki hafi fregnir af farid. Fránkaríki sendir og her manns til Mórea, og eykr einnig flota sinn í Grikklandshafi. England sýnist þarámóti ad vilja draga sig í hlè og sneida hjá strídi vid soldán, en ómannligt mun því þó þykja, ad gánga úr leik, og sitja hjá, ef strídid brýzt út til fulls og alls, mun því þetta fara ödruvísi enn áhorfist.

Frá Portúgal er þad ad segja, ad konúngsefnid Michael nádi þar landi sídla í febr. mánudi, og sór hann litlu sídar á hátídligri samkomu eid því nýa stjórnarformi, (hvad þó adrir segja hann gjört hafi mjög lágraddadr); en prinsessa Ísabella lagdi í sama sinn nidr völdin og í hönd bródur sínum. Michael byrjadi stjórn sína med því, ad tilskipa nýa Stjórnarherra, og voru þeir allflestir mótsnúnir því nýa stjórnarformi, og er þad lítils góds viti, einkum er hætt vid því ad Ekkjudrottníngin og þeir sem henni fylgja, fái meiru rádid hjá Michael, enn í fyrstu var tilætlad, og líkliga vendr ekki af burtför drottníngar ad sinni. Skríllinn þyrpist dagliga saman hjá sloti því, hvar Michael býr, og á strætunum í Lissabon, og hrópar án afláts: „lifi Michael konúngr hinn einvaldi" og annad þvílíkt, og þeir sem ekki vilja taka lagid med þeim, mega búast vid vanvirdu og jafnvel misþyrmíngum af almúganum. Þad er og sagt, ad hinn hrausti og nafnfrægi da Caula sè afsettr frá völdum sínum, og má þad vekja íllan grun hjá vinum nýa stjórnarformsins. Hagr Portúgalsríkis er því, enn sem komid er, ærid tvísýnn, og þad því framar, sem herlid Enskra nú stendr ferdbúid, og nokkur

hluti þess er þegar af stad farinn. Þegar yfir allt er litid, þykir því mega fullyrda, ad miklir vidburdir og umbrot sèu í vændum, en hvörnig Forsjónin lætr þá í ljós leidast, og hvad af þeim fljóta, er oss hulid. þ. 3. apríl.

## Brauðaveitíngar á Islandi árið 1827.

Þ. 16. marzí. *Vigfúsa* Presti *Eiríkssyni Reykdal* veitt Hof og Spákonufell í Húnavatnssýslu.
s. d. *Birni* Presti *Arnórssyni* veittr Hvammr og Keta í Skagafjarðar sýslu.
11. apríl. *Ingjaldi* Presti *Jónssyni* veitt Nes í Þíngeyjarsýslu.
s. d. *Magnúsa* Presti *Sigurðssyni* veitt Reínisstaðaklaustr í Skagafjarðarsýslu.
14. mají. *Böðvari* Prófasti *Þorvaldssyni* veittr Staðr í Steingrímsfirdi.
21. s. m. *Sveini* Prófasti *Pètrssyni* veitt Berufjarðarþíng í Suðr-Múlasýslu.
19. júní. *Jóni* Presti *Austmann* veittr Kyrkjubær í Vestmanneyjum.
27. s. m. *Gísla* Presti *Jónssyni* veittr Stærri Asskógr í Eyjafjarðarsýslu.
25. júlí. *Jóni* Presti *Arnasyni* veittr Gufudalr í Barðastrandarsýslu.
26. s. m. *Jóni* Presti *Einarssyni* veitt Stafafell í Austr-Skaptafells sýslu.
7. septemb. *Benedikt* Stúdent *Vigfússyni* veittir Hólar í Hjaltadal.
15. s. m. *Guðmundi* Presti *Bjarnasyni* veittir Hólmar í Suðr-Múlasýslu.
s. d. *Jóni* Presti *Guðmundssyni* veittr Hjaltastaðr í Norðr-Múlasýslu.
17. s. m. *Sveini* Presti *Benediktssyni* veitt Þykkvabæjarkl. í Vestr-Skaptafellssýslu.
24. októbr. *Jóni* Stúdent *Bergssyni* veitt Einholt í Austr-Skaptafells sýslu.
27. s. m. *Daða* Kapelláni *Jónssyni* veittir Sandar í Vestr-Isafjarðarsýslu.

8. nóv. *Guðmundi* Djakna *Jónssyni* veittir Skeggjastaðir í Norðr-Múlasýslu.
23 s. m. *þorvarði* Kapelláni *Jónssyni* veittir Ásar í Vestr-Skaptafells sýslu.
s. d. *Páli* Stúdent *Thórarensen* veitt Sandfell í Austr-Skaptafells sýslu.
6. decbr. *Benedikt* Stúdent *Jónssyni* veittir Melar og Leirá í Borgarfjarðarsýslu.

## Auglýsíng.

## Fornaldar Sögur Norðrlanda.

þetta sögusafn á að innihalda sögur þær, sem greina frá atburðum þeim, er orðið hafa á Norðrlöndum fyrir landnámstíð Islands. Eg læt þá hèrmeð vita, er skrifað hafa nöfn sín fyrir kaupi verks þessa, og þá aðra, sem það girnast kynna til kaups, að *fyrsta bindi* þess, mun verða svo tímanliga búið, að það með sumarskipum verði sendt til Islands. Hin *tvö bindin* koma seinna.

þareð söguflokkr þessi, sem kunnugt er, hefir um fleiri aldir gengið munn úr munni, áðr enn sögurnar voru sjálfar ritaðar, er það auðvitað, að þær ekki eru svo áreiðanligar, sem þær eiginligu sagnabækr, er *hið Norræna Fornfræðafèlag* nú útgefr í tveim flokkum, er nefnast *Fornmanna-* og *Islendinga-sögur*, en þó eru hinar mikilsverðar og sumar dýrmætar að málinu til, og að því leiti, sem þær eru einustu minni frá fornöld. það er vitanligt, að eptir því sem einn söguflokkr eða saga er annari fremri að frásögn og frásagnar trúverðugleik, verðr hún hinum, sem eigi hafa það eins til að bera almennari og í meira afhaldi. þess er því að óska og vænta, að þær ágætu sögur sem innihalda greiniliga útmálun og frásögn frá Islandi og fyrstu landnáms mönnum þess; og þeirra merku niðjum, *(Islendinga-sögurnar)* njóti alúðligrar viðtöku hjá Islendingum æðri og lægri stèttar, og að þeir, sem það geta, ekki vili án vera þessarar rèttnefndu bæarbótar, eins og líka að þær sögur sem

skíra frá tilburðum í Danmörku og Noregi úr því Island bygðist (*Fornmannasögurnar*), og kalla má máttarstólpa Norðrlanda sögufræðis, er Islendíngar reistu á fyrri öldum, fái álíka móttöku og sú fyrsta af því safni, *saga Olafs Tryggvasonar*. Að útgáfa *Fornaldar sögubókanna* njóti nú þvílíkrar almennrar aðstoðar og fulltíngis, á Islandi, sem áðrgreindir söguflokkar, er ekki ætlanda, en þó mun þess vænta mega, að eigi muni þeir allfáir söguvinir þar, er líka unni þessum fornritum, og aðstoði útgefarann til að varðveita þær komandi öld betr útgefnar enn híngað til hefir verið.

Hvað mikils sögur þessar hafa í Utlöndum metnar verið, lýsir það því, meðal annars, að þó sá lærði Prófessor við Háskólann í Berlín *von der Hagen* árið 1814 gæfi út mikinn part þeirra á Islenzku og þýzku, hafa þær í þýzkalandi enn svo marga vini, að hann nýliga hefir aptr boðað útgáfu þeirra á þýzka túngu, sem löguð mun verða eptir textanum í því að framan boðna sögusafni. þeir sem framvegis æskja sèr sögusafns þessa til kaups geta ennþá fengið það fyrir það ákveðna lægsta verð, þegar þess óskað verðr í brèfi til útgefarans, *Kronprindsensgade Nr.* 40.

Kaupmannahöfn dag 10. Aprílis 1828.

*C. C. Rafn*,
Dr. og Prófessor.

---

## Meðlimir ens íslenzka Bókmentafèlags eru nú:

### 1. *Á Íslandi.*

Embættismenn Reykjavíkr deildarinnar:

Forseti: *Arni Helgason*, Stiptprófastr og Prestr til Garða á Alptanesi.
Fèhirðir: *Sigurðr Sivertsen*, Kaupmaðr, í Reykjavík.
Skrifari: *Jón Jónsson*, Lektor á Lambhúsum.

Aukaforseti: *Isleifr Einarsson*, Etatsráð, Assessor í Landsyfirrèttinum, á Brekku.
- féhirðir: *Olafr Finsen*, Sýslumaðr í Kjósar og Gullbríngusýslum, í Reykjavík.
- skrifari: *Jón þorsteinsson*, Landlæknir á Nesi.

## Heiðrslimir.

Herra *P. F. Hoppe*, Stiptamtmaðr og Amtmaðr yfir Suðr-amtinu.
- *Steingrímr Jónsson*, Biskup yfir Islandi.
- *Bjarni þorsteinsson*, Amtmaðr yfir Vestr-amtinu.
- *Grímr Jónsson*, Amtmaðr yfir Norðr- og Austr-amtinu.
- *Jón Espólin*, Sýslumaðr á Frostastöðum.
- *Sveinn Pálsson*, Handlæknir á Vík.

## Orðulimir:

(sem ennþá borga árlig tillög).

Herra *Magnús Stephensen*, Dr. júris, Konferenzráð, Justitiaríus í Landsyfirrèttinum, o. s. frv. á Viðeyjarklaustri.
- *Isleifr Einarsson*, Etatsr., o. s. frv., á Brekku.
- *Bjarni Thórarensen*, Assessor í Landsyfirrèttinum á Gufunesi.
- *Björn Stephensen*, Júst̃itssekretèri á Lágafelli.
- *Arni Helgason*, Stiptprófastr, o. s. frv. á Görðum.
- *Gunnlaugr Oddsson*, Konsistóríalassessor og Dómkyrkjuprestr í Reykjavík.
- *Sigurðr Thorgrímsen*, Land- og Býfógeti í Reykjavík.
- *Olafr Finsen*, Sýslumaðr.
- *Jón Jónsson*, Lektor á Lambhúsum.
- *Sveinbjörn Egilsson*, Aðjúnkt á Bessastöðum.
- *Jón þorsteinsson*, Landlæknir á Nesi.
- *Bjarni Sívertsen*, Kaupmaðr, Riddari af Dbr. í Hafnarfirði.
- *Sigurðr Sívertsen*, Kaupmaðr í Reykjavík.
- *Th. Thomsen*, Gullsmiðr og Skóla-ökónómus á Bessastöðum.

Herra *Guðmundr Pètrsson*, Stúdent, Faktor í Hafnarfirði.
- *þórðr Bjarnason*, Stúdent á Sviðholti.
- *Rist*, Faktor í Reykjavík.
- *Jörundr Olafsson*, Hreppstjóri á Hliði.
- *þorkell Gunnlaugsson*, Examinatus júris á Hamri.
- *Lárus Thórarensen*, Sýslumaðr, á Hofsósi.
- *þorsteinn E. Hjálmarsson*, Prestr til Helgastada.
- *Páll Melsteð*, Sýslumaðr á Ketiltsöðum.
- *Páll Guðmundsson*, Proprietèr á Keldum.

## Umboðsmenn Fèlagsins:

Herra *Sigurðr Sivertsen*, Kaupmaðr í Reykjavík.
- *Guðmundr Guðmundsson*, Faktor á Búðum.
- *Ole Steenback*, Faktor á Stykkishólmi.
- *Olafr Sivertsen*, Prestr á Flatey.
- *Fr. Svendsen*, Kaupmaðr á Önundarfirði.
- *Böðvar þorvaldsson*, Prófastr, Prestr á Stað í Steingrfirði.
- *Björn A. Blondahl*, Sýslumaðr á Hvammi.
- *Jacob Havsteen*, Kaupmaðr á Hofsósi.
- *Th. Thorarensen*, Kaupmaðr á Eyjafirdi.
- *Baagøe*, Faktor á Húsavík.
- *Guttormr þorsteinsson*, Prófastr, Prestr að Hofi.
- *Beck*, Faktor á Eskjufirði.
- *Thaae*, Faktor á Berufirði.
- þórðr *Sveinbjörnsson*, Sýslumaðr á Hjálmholti.
- *Sigurðr Sivertsen*, Stúdént, Faktor á Eyrarbakka.

## 2. *I Danmörku.*

### Kaupmannahafnar deildarinnar Embættismenn:

Forseti: *Rasmus Rask*, Prófessor, annar Bókavörðr Háskólans.

Fèhirðir: *Þorgeir Guðmundsson*, Cand. Theol., Kennari við drengjaskóla sjóliðsins.
Skrifari: *Þorsteinn Helgason*, Stúd. Theól.
Aukaforseti: *Finnr Magnússon*, Prófessor, Meðhjálpari við Leyndarskjala-safnið.
– fèhirðir: *Þórðr Jónasson*, Stúd. júris.
– skrifari: ~~*Jacob Thórarensen*~~, Stúd. júris. B. Einarsson
Umboðsmaðr: *Eggert Jónsson*, Stúd. Chírúrg.

## Heiðrslimir:

Herra *B. Thorlacius*, Dr. Theól. og Philós., Etatsráð, Prófessor, Riddari af Dbr.
– *A. W. Moltke*, Greifi, Kammerherra, Depúteraðr í Rentukammerinu, Kommandör af D. og Dbr. m., o. s. frv.
– *J. G. T. v. Castenschjold*, Kammerherra, Stiptamtmaðr í Ripum. (Kos. af D. á Isl.)
– *H. S. Knúth*, Kammerherra, Kommitteraðr í Rentukammerinu.
– ~~*G. J. Thorkelin*, Dr. juris, Etatsráð, Leyndarskjalavörðr, R. af D.~~ dáinn
– *J. Collin*, Etatsráð, Depúteraðr í ríkissjóðsráðinu, R. af D., o. s. frv.
– *A. S. Ørsted*, Dr. juris, Etatsráð, Generalprókúrörr, Depúteraðr í enu danska Kansellíi, R. af D.
– *P. E. Müller*, Dr. og Prof. Theól., R. af D.
– *R. Nyerúp*, Prófessor, efsti bókavörðr háskólans, Prófastr á Regenzi, R. af D.
– *K. L. Rahbek*, Prófessor, R. af D., o. s. frv.
– *E. C. L. v. Moltke*, Kammerherra, Stiptamtmaðr í Alaborg, R. af D. (Kos. af D. á Isl.)
– *E. C. Werlauff*, Jústitsráð, Próf., efsti bókavörðr við Konúngsins stóra bókasafn.
– *Fr. Münter*, Dr. Teól., Biskup yfir Sjálandsstipti, Stórkross af D., o. s. frv.
– *L. Engelsoft*, Dr. Philos., Etatsráð, Próf., Meðlimr stjórnarráðsins fyrir Háskólanum og enum lærðu skólum, R. af D.

Herra *J. Møller*, Dr. og Prófessor Theól., o. s. frv.
- *J. L. A. Kolderup-Rósenvinge*, Dr. og Prófessor júris.

Hans Excellenz Herra *O. Malling*, Geheime-Statsminister, Forseti stjórnarráðsins fyrir Háskólanum og enum lærðu skólum, konúngligr Sagnaskrifari, R. af Fílsorðunni, Stórkr. af D. og Dbrm.

Herra *J. F. W. Schlegel*, Dr. og Próf. juris, Konferenzráð, R. af D.
- *J. N. B. v. Abrahamson*, Majór, Divísiónsaðjútant, Kammerjúnkur, R. af D. og Dbrm. Kommandör af St. Önnu-orðunni, R. af Bath- Heiðrsfylkíngar- og Sverð-orðunum, o. s. frv.
- *Finnr Magnússon*, Prófessor, o. s. frv.
- *Rasmus Rask*, Prófessor, o. s. frv.

## Yfirorðulimir:

Herra *A. F. Mulertz*, Yfirlærimeistari við hinn lærða skóla í Nyborg.
- *L. S. Borring*, Cand. Theól., Kadettinformator.
- *A. Krejdal*, Aðjúnkt í Oðinsey.

## Orðulimir:

Herra *Olafr S. Stephensen*, Regímentskvartermeistari og Adítör að Jegersborg.
- *Vigfús Erichsen*, Cand. júris.
- *Jón Finsen*, Kancellísekretèri, Hèráðsfógeti í Kolding á Jótlandi.
- *Gísli Simonsen*, Kaupmaðr.
- *C. C. Rafn*, Dr. og Prófessor.
- *Þorgeir Guðmundsson*, Cand. Theól., o. s. frv.
- *Páll Arnason*, Rektor.
- ~~*Benedikt Bergsson*, Cand. Chirurg.~~
- *Jakob Thórarensen*, Stúd. juris.
- *Jóhann Briem*, resíderandi Kapellán á Jótlandi.
- *Haldór Einarsson*, Cand. júris.

Herra *Skúli P. C. Thorlacius*, Stúd. júris.
- *þorsteinn Helgason*, Stúd. Theól.
- *Páll þorbergsson*, Cand. Chírúrg.
- *þórðr Jónasson*, Stúd. júris.
- *Ögmundr Sigurðsson*, Stúd. júris.
- *Sigfús Skúlason*, Stúd. júris.
- *Hallgrímr Bachmann*, Stúd. júris.
- *J. L. C. Michelsen*, Dr. júris.
- *Baldvin Einarsson*, Stúd. júris.
- *Eggert Jónsson*, Stúd. Chírúrg.
- *Jón Jónsson*, Stúd. júris.
- *Kristján Flór*, Prófessor í Kíl.
- *Jón þórarinsson*, Stúd. Theól.
- *Stephán Gunnlaugsson*, Stúdíós.
- *Thómas Sæmundsson*, Stúd. Phílós.
- *Hallgrímr þ. Björnsen*, Stúd. júris.
- *J. N. Hornbech*, Aðjúnkt í Hrossanesi.
- *Kristján Sk. Magnusen*, Exam. júris.

## Brèfligir limir:

Herra *P. Iversen*, Kennari við bæarmannaskólann í Meðalför.

## 3. *Erlendis:*

## Heiðrslimir:

Sir *Georg Stúart Mackenzie*, Barónet, Forseti fornfræðafèlagsins, o. s. frv., í Edínaborg.

Herra *Ebenezer Henderson*, Dr. Phílós., o. s. frv.
- *Friðrik de la Motte Fouqvè*, Barón, og Jóhannita-riddari í Mark-Brandenborg. (Kos. af D. á Isl.)
- *Friðrik Davíð Gräter*, Prófessor og Pædagogarcha Konúngsins af Würtemberg, o. s. frv., í Ulm.
- *Amodeus Chaumette des Fossés*, R. af Leiðarstjörnunni, franskr General-konsúl, o. s. frv í París.
- *Olafr Olafsson*, Prófessor, R. af Leiðarstjörnunni á Kóngsbergi.

Herra *Jakob Grimm*, Dr., Kjörfurstans af Hessen Bókavörðr, í Kassel.
– *Wilhjálmr Grimm*, Tilsjónarmaðr við Kjörfurstans bókahirzlu, samastaðar.
– *Robert Jamieson*, Skjalavörðr við General-Register-Office í Edínaborg.
– *J. Bosworth*, Prestr til Little Horwood Bucks. (Kós. af D. á Isl.)
– *John Adamson*, Ritari fornfræðafélagsins í Newcastle. (Kos. af D. á Isl.)

**Orðulimir:**

Herra *Þorleifr Guðmundsson Repp*, Bókavörðr við lögvitrínganna bókasafn í Edínadorg.
– *G. F. Lundh*, Prófessor í Kristjaníu.

---

## Auglýsíng.

Auk þeirra í Skírnis fyrsta árgángi nefndu bóka eru enn framar til kaups hjá félagsins umboðsmönnum:

Æfisaga Konferenzráðs Jóns Eyríkssonar, samin af amtmanni Bjarna Thorsteinson og Handlækni Sveini Pálssyni, Kh. 1828. 8. með eyrgrafinni andlitismynd, og handarritssýnishorni, á prentp. 80 sk. á skrp. 1 rbd. n. v.

Skírnir, annar árgángr, fyrir 1828, á prp. 28 sk. á skrp. 40 sk. n. v. Þeir félagslimir á Islandi, er leggja félaginu árligt tillag eigi minna enn 1 rbd. silfrs fá Skírnir á prentpappír gefins árliga hjá þeim næsta umboðsmanni þar, þegar þeir framvísa eða senda honum kvittanzíu fyrir borguðu tillagi sínu.

Loksins fæst enn til kaups hjá umboðsmanni félagsdeildarinnar í Kaupmannahöfn: Rit ens íslenzka Lærdómslistafélags 2.–15 bindi, hvert fyrir 16 sk. silfrs.

---

Póstskipið kom í ár híngað til Hafnar þ. 3ja apríl.

---

# SKÍRNIR,

## NÝ TÍÐINDI

## HINS ÍSLENZKA

## BÓKMENTAFÈLAGS.

---

**ÞRIÐJI ÁRGÁNGR,**

**er nær til sumarmála 1829.**

---

**Ristu nú, Skírnir,**
**og Skekkils blakki**
**hleyptu til Fróns með fréttir,**
**af mönnum og mentum**
**segðu mætum höldum,**
**og bið þá að virða vel.**

---

KAUPMANNAHÖFN, 1829.

Prentaðr hjá *Jens Hostrûp Schûltz*,
Konúngsins og Háskólans Bókþrykkjara.

# Auglýsíng.

Þareð dönskum stílsetjurum er nærri ómöguligt, að lesa þá íslenzku svo kölluðu fljótaskrift, svo verða prófarkir eptir þvílíkum handritum venjuliga svo fullar af prentvillum, að það er mesti tímaspillir og óbæriligt leiðindastarf að lagfæra þær; verðr því félagið mikilliga að biðja góða menn bæði hèr og á Íslandi, sem innsenda reiknínga eða hvörskonar rit sem vera kunna, til prentunar ætluð, að láta þau vera með latínu letri og með svo glöggri hendi, sem kostr er á, svo það þurfi ekki að hafa þann kostnað og fyrirhöfn að láta þau uppskrifa, fyrr enn þau sèu prentaranum í hendr séld. Þetta hið sama hefir einnig það fyrrverandi Lærdómslistafèlag tvisvar áskilið sèr, fyrst í samþykktum sínum og síðan í formálanum fyrir 13[da] bindi rita sinna 1794; vonar Bókmentafèlagið nú þess heldr, að hlutaðegendr auðsýni því þessa velvild og eptirlæti.

# Fréttir 1829.

Veduráttufar í álfu vorri á þessu tímabili var margbreytiligt; vorid var blídt og hagstædt, en sumarid var í nordrhluta hennar óvenjuliga regnasamt, í sudrpartinum þarámóti gengu þurkar og hiti fram úr hófi; haustid var allhagstædt, þó vetradi vída snemma, og þegar kom fram um jól, gjördist vetur hvervetna en hardasti, med miklu frosti og snjókomu, sem ennú (í midgóu) vidhelzt. Sumarveduráttan hafdi óhollar afleidíngar á heilsufar manna, einkum í þeim nordlægu löndum, hvar köldusóttir og kránkleikar gengu venju framar, og urdu mörgum ad bana; í sydra hlutanum gekk en austrlenzka drepsótt, og í Gíbraltar sú vestrlenzka, hvar slík landplága var ádr óþekkt; jardskjálftar og fellibyljir hreifdu sèr allvída, og ollu sumstadar stórskemdum; náttúran var því þetta ár hvörki blíd nè kyrrlát, en gekk svo ad kalla í berhögg vid manneskjurnar.

En einsog þad var á þessu ári venju framar ókyrrlátt í ríki náttúrunnar, svo var ad hinu leitinu ekki heldur med öllu fridsamt medal

þjódanna innbyrdis. Þannig hófust í álfu vorrar austurparti nýar herferdir, og í hennar vesturhluta, gengu óeyrdir og flokkadrættir hvíldarlaust, stödugr fridur og rósemi var einúngis í þeim nordlægu löndum. Í hinum ödrum heimsálfum vóru og einhvör merk umbrot á þessu ári: Ameríku nýu fríveldi deildu um stjórnarform sitt og valdaskipun, og Norduramerika um takmörkun verzlunar vid Evrópu-menn; í Sudur-hafs hálfunni átti ljós og myrkr affararíkt stríd saman, og vidlíka var ástadt í Affríku, hvar ogsvo vóru vopn á lopti, en hvörgi var þó meiri ágreiníngr nè margbreyttara stríd enn í Austurhálfunni um ár þetta.

Ad svo mæltu víkjum vèr sèrilagi til vorrar heims-álfu, og viljum í fám ordum geta þess merkiligasta, er þar hefir gjörzt á þessu tímabili: skal þar tiltaka er stórvægust eru tídindi frá ad segja, á *Rússum* og herferd þeirri, er þeir hófu gegn Tyrkjum, því líkast er ad af henni leidi mikilvægustu fylgjur fyri ástand og hagi flestra Nordrálfunnar þjóda, einsog þegar má sjá merki til. Atridi tèdrar herferdar, eru í fám ordum þessi: Strax sem auglýsíng Soldáns í Miklagardi, sem getid er um í fyrra, barst til Rússlands, baud Nikólás keisari leidángr út gegn Tyrkjum, og lèt einnig auglýsíng útgánga, er ýtarliga telr allar sakargiptir Rússa gegn soldáni, vóro þær helztar tvær, atyrdi þau og íllmæli, er soldán hafdi í auglýsíng sinni valid gegn Rússum, og þad annad, er keisari kvad undanfarna

fridar-samnínga á margan hátt rofna af soldáns hendi. Lýsir hann, þar og ýfir, hvörr tilgángr sinn sè og fyriræthun med herför þessa, ad ná borgun fyri hernadar-kostnad sinn, ad hjálpa undirsátum sínum ad ná tilhlýdiligum skadabótum fyri rángindi þau og ágáng, er þeir höfdu fyrirordid af Tyrkjum, og loksins ad vernda og frida Kaupverzlun ríkis síns á Svartahafinu; kvedr keisari sèr eigi í hug ad brjóta land undir sig á þenna hátt, og skyldi því samníngurinn af 6[ta] júlí standa óraskadr med öllu. Þegar þessi auglýsíng var útgengin, hèlt keisarinn med drottníngu sinni og stórfursta Michael af stad frá Pètursborg, settist drottníngin ad í Odessu, en keisarinn og stórfurstinn hèldu til hersins, sem lá vid Prút, er um sama leiti hafdi bodid verid ad leggja upp, og halda sudr yfir á þessa og inní furstadæmin Moldá og Valakíid. Þegar hèr var komid skiptist herinn í 3 sveitir: einn flokkurinn, er herforínginn Róth stýrdi, átti ad leggja undir sig furstadæmin, og hafa gát á Rûstshûk og Silistría; annar flokkurinn, er stórfursti Michael rèd fyrir, átti ad setjast um Braílof; og enn þridji, sem var þessara sterkastr, ad halda vid Isaktshí sudur yfir Dóná. Furstadæmin gengu ódar á vald Rússum, en yfirferdin yfir Dóná aptradist um sinn, fyrir vaxtar sakir er í ánni var; því fram í marzí mánud hafdi ís legid á henni, og snjó leysti og seint úr fjöllum; ekki lètu þó Rússar þetta lengi dvelja ferd sína, med frábærum dugnadi, og miklu ómaki

bygdu þeir brú yfir ána, og komust yfir hana nálægt Satúnovo, og tóku litlu sídar Isaktshí; en nú þurfti herinn í fleiri horn ad líta, Matshin, Hirsóva, Kûstendshí eru allmiklir kastalar, sem ekki þókti rádligt ad ega á baki sér, en til ad setjast um þá, var naudsynligt ad skipta hernum í fleiri minni sveitir, og þetta ásamt Braílofs umsátri, olli því ad Rússar ekki gátu haldid lengra áfram ad sinni. Enir umgetnu kastalar vördust hreystiliga, einkum Braílof, sem vard Rússum mjög dýrkeypt, svo ad þeir, eptir sjálfrà þeirra sögusögn, mistu meir enn þrjár þúsundir manna í umsátrinu. En þegar þessu var lokid, safnadist herinn saman ad nýu, og hèlt nú ímóti Hûssein paska, hrakti fremra hluta lids hanns á flótta frá Bazardshik til Koslûdshí, og tók sèr stödu vid Shûmla, sem vegna legu sinnar, allskamt frá Balkan fjallgardi, er einhvör merkasti stadr í strídssögu Tyrkja. Í undanförnum strídum, átti her Tyrkja hèr örugt vígi, og nú var Hûssein hèr fyrir med 40,000 hermanna; eingu ad sídur hèldu Rûssar ímóti honum, en ekki áttu þeir þó adal-bardaga vid hann, því hann hèlt kyrru fyrir í herbúdum sínum. Ad setjast um borg þessa, sem vegna afstödu sinnar utan í fjalli, má álítast því nær óvinnandi, og þaradauki hefir gnægd öflugra varnarvirkja og fjölda varnarlids, þókti ad sinni ekki rádligt, og mikid í vedi, ef ílla hefdi tiltekizt, því þá var eigi annad sýnna enn hverfa aptr og nordr yfir Dóná, sem berliga mátti verda

Rússum ad miklu ólidi; eptir lánga rádagjörd baud keisarinn ad skipta skyldi hernum, og nokkur hluti hanns leggja sátr um Varna og Silistría, en hinn hlutinn halda kyrru fyrir vid Shûmla, til ad hafa gætur á Hûssein paska og fyrirtækjum hanns; veik keisarinn nú ad sinni frá hernum til Odessu, og dvaldist þar um hríd. Brádum urdu Rússar þess varir, ad Varna var bædi meiri og sterkari, enn þeir höfdu gjört sèr í lund, og reyndist því atbúnadr þeirra og lids-afli mèd öllu ónógr til ad taka med borgina; hèraf kom þad ad umsátrid dróst miklu lengr enn rád var fyrirgjört, svo at í stad þess ad ætlazt var til, ad borgin mundi unnin verda innan ágûsts mánadar loka, vard þad eigi fyrr enn í öndverdum október mánudi, þótt Rússar rèdist ad borginni med öllum þeim lids-afla, er þeir áttu völ á; var þá og líka um þær mundir mjög sóttnæmt í her Rússa, vegna óvenjuligs hita, (er steig allt ad 46 grádum í sólu) og skorts á hollu neyzluvatni; en þó lauk svo um sídir, ad borgarmenn gáfust upp eptir fræga vörn, án þess ad Stórvizírinn, sem lagt hafdi á stad med miklum her, gæti ordid borginni ad nokkru lidi, og þannig komst borg þessi, sem, sídán Mikligardr var unninn, ávalt hefir hlýdt Tyrkjum, fyrsta sinni í vald Rússa. Kapúdan paska fèkk med nokkrum hundrudum manna fararleyfi úr borginni, en annar foríngi Tyrkja, Jûsûf paska, beiddist þó heldr ad mega gánga á vald Rússa, enn fara heimleidis, er hann óttadist ad

herforusta sín mundi verda sèr fremr höfudleysis sök, enn til upphefdar hjá soldáni, þótt vörn hans hefdi verid en ágætasta; hefir þad og sannazt, ad svo mundi ordid hafa, einsog sídar mun sagt verda. I borg þessari fundu Rússar mikinn strídsútbúnad, vopn og nægar vistir, er komu þeim einka vel í þarfir; fengu þeir þad og med, er meira var verdt, er þeim gekk i hendr med borg þessari, sem liggr vid sjá og hefir höfn góda, öflug fótfesta í ríki Tyrkja, er verda mun þeim sídan ad miklu lidi. Keísarinn lèt í minníngu sigurs þessa, halda undir berum himni hátídliga messu-gjörd, sem endadi med guds ákalli, ad blessa vopn Rússa, framvegis sem híngad til, med frægd og frama; þeir yfirmenn hersins og af dáta stètt, sem einkum höfdu sýnt hreysti og hugprýdi sína, þágu af keisaranum sambodin heidursmerki, sýndi hann og á margan hátt ad mikils þókti honum umverdt, ad borg þessi var tekin. Í borg þessa lögdu nú Rússar mikid varnarlid, og reistu á ný virki, þau sem brotin voru í umsátrinu, miklu öflugri enn ádr, mun því Tyrkjum örđugt veita ad ná aptr borginni, þó þeim sè þad ríkt í hyggju, hvar um vidburdir þeirra í vetr bera ljósast vitni.

Medan þessu fór fram vid Varna, krýndust vopn Rûssa med álíkri frægd annarstadar; herforínginn Róth, er sezt hafdi um Silistríu, og fríherra Geismar í því litla Valakíi, unnu hvörr um sig frægan sigr yfir Tyrkjum; enn síd-

ari rak med fjórum þúsundum manns, 20 þúsundir Tyrkja á flótta, sem ekki höfdu minna í hyggju, enn ad flæma Rússa útúr furstadæmunum, en flýdu nú sjálfir í mestu óreglu, og leitudu sèr athvarfs fyrir sunnan Dóná.

þannig báru Rússar hærra hlut af Tyrkjum í Evrópu, og ekki var lukkan þeim óblídari í Asíu, hvar strídid einnig var hád á þessu tímabili undir herstjórn þess mikla hershöfdingja Paskevitsh, er nú hefir fengid heidursnafnid Erívánsky, (af kastalanum Erívan, er hann í fyrra tók frá Persum); þegar strídinu var lokid vid Persa, og fridr ákominn, hèlt hann í svip vestr yfir takmörk þau, er skilja Persíu og þá tyrknesku Armeníu, og rèdist þegar á borgina Kars, og tók hana í áhlaupi þ. 25 júní, ásamt kastala þeim er ver borgina, og haldinn var þvínær óvinnandi; varnarlid þad, er fyrir var í borginni, og ad tölunni ekki var Rússum fámennara, leitadi forgefins varnar, því á svipstundu voru þeir annadhvört drepnir edr teknir höndum af Rûssum, og brást þannig Tyrkjum illa von sín, ad geta hèr tafid fyrir Rússum, unz þeir fengi dregid saman meiri lids-afla, og algjörliga hrakid þá aptr yfir landamærin. Um sama leiti nádi furstinn Mentshikoff med litlum her kastalanum Anapa, er liggr austanmegin vid Svartahafid, og nokkru seinna gafst Potísíne upp fyri Rússum, sem þarvid fengu fastan fót í Míngrelíu- og Imeretíu-hèrödum. Medan þessu fór fram, hafdi Paskevitsh fengid fregn um ad

jarlinn yfir Erzerûms fylki, hefdi dregid mikid lid saman í kastalanum Achalzik, og þared hann ekki hafdi svo mikinn lidsafla, ad hann þyrdi ad vita hann á baki sèr, og jafnframt sá hvad umvardandi sèr var ad ná borg þessari, hèlt hann þegar af stad móti henni, þrátt fyrir torfærur þær er fjallgardurinn vid Tsildurs lögdu í veg fyrir hann. Med hèrumbil 8 þúsundum manna hrakti hann Tyrki á flótta, sem voru farnir borginni til lids med 20 þúsundum hermanna, og þann 13da ágûst gjördi hann áhlaup ad borginni, hvörja fullar 15 þúsundir einvala lids áttu ad verja, og tók hana med ekki miklum mannskada. Fleiri borgir og kastalar höfdu brádum sömu afdrif, og óttinn af vopnum Rússa nádi nú allt ad Erzerûms stad, hvar Tyrkir aldrej mundu hafa trúad því, ad hersveitir kristinna mundu bagga um rósemi þeirra. Þannig báru Rússar hvervetna hærra hlut í vidskiptum vid Tyrki, og þad má med sanni segja, ad aldrej hefir þeim ad undanförnu ordid jafnmikid ágengt, sem nú er afordid; mundi hèr oflángt og ófródligt upp ad telja allar smá-orrustur þeirra, en hins má geta ad í ekki fullt 4 mánudi hafa þeir brotid undir sig í allt 17 borgir og kastala, nád 1280 kanónum og 400 merkjum, hertekid fullar 20 þús. Tyrkja, en sjálfir ekki mist meir enn 18 eda 20 þús. af föllnum og særdum; en þarámóti leikr ord á því, ad sóttir og kránkleikar hafi höggid drjúgt skard í fylkíngar þeirra, einkum í umsátrinu um Silistríu,

er þeir þess vegna urdu ad rjúfa med allmiklum mannskada. Gjördu nú Rússar hvíld á herferdinni, þá um veturnátta skeid, og bjuggust til vetrarsetu fyri sunnan Dóná, og völdu sèr einkum adsetr í Varna, Pravadí og Hirsóva, en keisarinn veik, ásamt drottníngu sinni og stórfursta Michael, heimleidis til Pètursborgar, hvar hann fèkk dýrdligustu vidtektir, einsog tign hanns sæmdi. Ord fer nú af ad mikill herbúnadr sè í öllu Rússaveldi, og miklu meiri enn í fyrra; þannig er nú fullyrdt ad stórfursti Konstantín ætli ad taka þátt í herferdinni, og med polskum her ad halda inní furstadæmin, og í Rússlandi sjálfu er lidssafnadr svo mikill, ad mællt er ad nái fullum 200,000 manna, svo líkligt er ad afdrif strídsins á komanda sumri verdi miklu merkari enn í fyrra, og þad því heldur, sem herferdin nú mun bygd verda á nákvæmari reynslu og kunnugleik Rússa, og ad því leiti á fullkomnari og vissari höfudástædum enn kostr var á híngadtil.

Heima í Rússlandi sjálfu gjördist ekkèrt merkligt til tídinda, þó andadist á nærstl. sumri keisarainna María Federovna, ekkja Páls keisara þridja, og vard hún þjódinni mjög harmdauda; sínum miklu audæfum vardi hún í lifanda lífi til styrktar fátækum og eflíngar ýmsum andligum og alþjódligum stiptunum, einsog hún á deyanda degi gjördi margar þvílíkar tilskipanir, er lengi munu tigna minníng hennar medal þjódar sinnar.

Fyrir herferdinni gegn Tyrkjum mæltist einka vel hjá sjálfri þjódinni, sem bædi þykist ega ad hefna harma sinna á Tyrkjum, og jafnframt vernda trú sína, sem játud er af Grikkjum. Á þessu ári hefir Rússlands stjórn tekid ærna peníngasummu ad láni í Hollandi, sem ekki er ad undra, þegar litid er til þess mikla kostnadar, sem svo stórkostligr stríds útbúnadr naudsynliga útheimtir.

I *Tyrkjaveldi* var þetta ár merkiligast strídid vid Rússa, og er þad af því, sem ad framan er greint, ljóst ad Tyrkir urdu mjög svo undir í skiptum, þótt ekki verdi þeim med sannindum ámælt um bleyduskap edr atfylgisleysi; þarámóti skorti þá mjög vígkænsku og vopnfimi, þá er prýdir hersveitir Evrópu-manna, og gefur þeim sigur í orrustum; hefir þó soldán ad undanförnu leitazt vid, ad menta herlid sitt á evrópêiska vísu, en raun bar í ár ljósast vitni um, ad vidburdir hans á þann veginn hafa mjög svo litlu áleidis komid; veldr því einkum óbifr Tyrkja á öllum nýbreytíngum, og fastheldni þeirra vid sidu og háttu forfedra sinna, er þeir og taka jafnlítid fram ad kunnáttu allri, sem hermensku og bardaga-íþróttum; þeir gátu því hvörgi reist rönd vid Rússum, og hreysti þeirra sýndi sig ad kalla í því einúngis, ad þrauka þad nokkud innan rammbygdra varnarvirkja, hvarí blind skapa-trú og ótti fyri hefnd soldáns átti mestan þátt; en hvörgi vard þeim audid ad

gánga inná landamæri Rússa, og vóru því allir bardagar hádir á landeign sjálfra þeirra, og ad miklu leiti á þeirra kostnad. Soldán sjálfr hafdi sig ekki í hættu, en sat heima í Miklagardi, og verdr því ekki hreysti hans sjálfs lygilofud ad þessu sinni. Spámannsins (Mahómets) helga merki, sem aldrei er hreift nema mikid liggi vid, lèt hann frambera, og hèlt hann sem sigrvegari í mikilli dýrd gegnum stadinn og til Ramis-Tiflik; en um sama leiti barst fregnin um ad Varna væri tekin af Rússum, þó sjálfr stórvizírinn væri farinn borginni til lids; datt þá mjög ofanyfir soldán og rádaneyti hans. Vard soldáni þá fyrst fyrir, ad setja stórvizír sinn frá völdum, og ad láta bannfæra Jûsûf paska, er haft hafdi fyrirsögn í borginni, og leggja drjúgt fè til höfuds honum; hèt hann því og ad taka borgina aptr med oddi og eggju sem skjótast, þótt lítid sè enn af ordid. Auk missirs Varnaborgar, er mælt ad fyrirsátrid í Dardanella sundi af flota Rússa fái soldáni mikillar áhyggju, þó hefir slíkt eigi enn leidt til neinnar dýrtídar eda hardæris í Miklagardi, eru samt adflutníngar sídan lángtum ördugri og strjálari enn ádr, en fridr og spekt þó engu sídr drottnandi í höfudborginni. Soldán hefir og haldid í vetur áfram öllum herbúnadi sem ádr, og haft adalhluta lids síns undir vopnum, þó ekkèrt hafi ágeingt ordid af hendi þeirra, eru og óunnin heit þeirra, ad brjóta Varnaborg aptr undir sig, og líkligt ad

meginher Rússa rísi fyrr upp aptr í vor nordanad, enn þad audnist þeim; Einsog ad undanförnu, leitadi Austurríkis keisari um sættir milli Soldáns og Rússa, hafa Enskir og flutt sama eyrindi; leit um stund svo út, sem fortölur þeirra mundu vinna svig á soldáni, en eptirá reyndust þad líkindalæti ein, sýnir og sá enn mikli útbúnadr, er Tyrkir nú og í vetur hafa haft, ad þeim mun enn eigi fridsamt í huga. Þó má þess hèr geta, er ad nýúngu hefir borizt, og til fridar virdist mida, ad fridar-boda-skip frá Rússum hafi komid verid til Miklagards, einkum þess eyrindis ad skiptast herteknum á vid Tyrki fyri medalgaungu Danmerkr sendiboda þar Baróns Hubschs; og er mælt ad soldán hafi gjört kost á því, ef Júsúf paska væri hafdr med í mannakaupum; líka er sagt, ad Reis-effendí hafi lýst því yfir, ad soldán væri fús ad samþykkja í þeirra sameinudu ríkja auglýsing, dagsettri 16^da^ nóvembris, (hvörrar getid er í fyrra vid Englands sögu) og nú er aptr ánýud af þeirra hálfu. Lengra verdr eigi ad þessu sinni frásagt edr fyrirsèd, og nemr hèr því stadar vid nýan kafla af því mikla sjónarspili, er sýnist ad verda því flóknara, sem meira lídr á þad; en þegar tídin hefir lypt upp fortjaldinu á ný, verdr fyrst sagt hvad eptir er ðleikid.

Nú víkr þá sögnum til *Grikkja*, og er þar nokkud helzt frá gleditídindum ad segja; ad undanförnu mátti hvörjum þeim, er hana yfirfór, renna til rifja og ofbjóda grimd sú og hard-

ýdgi, er Tyrkir geysudu fram med gegn þeim, og svo leit út sem lengi mundi þess ad bída, ad þeir nædi fridi og frelsi af áþján þeirri; mundi þad og eigi ordid hafa, ef ekki hefdi fleiri skorizt í leikinn med, en málstadr þeirra vakti Evrópu stjórnendr þeim til adstodar, og bardaginn vid Navarín mun þarum bera heidarligt vitni í árbókum Grikkja; med þessum merkis-atburdi rann upp frelsisdagr þeirra, og nú er svo komid, ad aldrei mun Tyrkjum verda þess audid, ad myrkva hann framar med nýrri áþján og undirokun. Ibrahím ílli, sem í samfleytt 4 ár hefir herjad í Móreu, gjöreydt landid, drepid edur selt þess innbyggjara fjötrada í ánaud, fór loksins þadan med íllum ordstýr í haust ed var, eptir samníngi vid hann og födur hans, einkum ad Englands undirlagi. Í kastölum þeim, er hann hafdi vald yfir, lèt hann varnarlid eptir, en Franskir, er um þær mundir komu med her manns til Móreu, tóku þá brádum med litilli fyrirhöfn, svo nú er Mórea ad öllu laus af Tyrkja valdi, og sambandsríkin hafa unnid frelsi landsins á þann hátt stadfestu, er þau í haust kvádu þad á ný skyldi vera undir einkar varatekt sinni móti árásum soldáns framvegis.

Forstjóri landsins greifi Kapódistria, hefir í sínu mikilvæga embætti lagt fram staka framkvæmd og röksemi, og þannig fullkomliga rættast látid von þá, er Grikkir og vinir þeirra gjördu sèr um hann í öndverdu; hann hóf

fyrst med því stjórn sína ad tilsetja 27 manna rád, er med honum skyldi gegna stjórnarsýslum; hann eyddi sjóvíkíngskap, er mjög var tídkadr af Grikkjum, einkum eyar-búum; hann setti þjódbánka á stofn, stiptadi skóla til úngdómsins uppfrædíngar, og hèlt á innvortis rósemi med stakligri forsjá og framtakssemi, þrátt fyri keppni þá og mótþróa, sem hann í ýmsum hèrödum landsins átti vid ad strída: veittist honum og loks sú mikilvæga gledi, ad sjá æskiligustu málalyktir allflestra vidburda sinna. Af Fránkaríkis og Rússlands stjórnendum þádi Kapódistría ærinn peníngastyrk til framkvæmdar þeim mörgu alþjódligu fyrirtækjum, er hann hóf upp, og ella mundu lítinn framgáng fengid hafa, en England dró sig ad því leiti í hlè ad sinni.

Vopn Grikkja voru á öndverdu þessu tímabili lítt sigursæl, tilraun þeirri, er ofursti Fabvíer gjördi ad þeirra hálfu, ad brjóta eyuna Chíos undir sig, vard ad engu framgeingt, og álíka fóru vidburdir þeirra á Krít; en í efra Grikklandi lèt lukkan þeim betr, því seinustu tídindi láta þess getid, ad herforíngi Grikkja, Ypsílanti, hafi tekid Lívadíu-borg, og fleiri minniháttar stadi þar, og unnid sigur á Tyrkjum í nokkrum orrustum. Líka höfdu Grikkir á ný leidángr fyri stafni til Krítar, en fyrir tilhlutan Enskra fórst þó útgjörd sú fyrir í þetta skipti.

Hvör verda muni takmörk Grikklands framvegis, er eigi enn afrádid, mælt er og ad sambandsríkja fulltrúarnir, sem nú eru staddir í

Neapel, sèu hèrum eigi á eitt sáttir, helzt leikr þó ord á, ad fjördrinn við Arta og sá vid Vóló muni ad nordanverdu þegar ætladir til ad skilja á milli landa, og ad enar stærri eyar í Grikklands hafi skuli í þeim sama skilmála rádnar undir Grikki; þó er þad augljóst ad þetta er mjög svo komid undir því, hvörn gaum soldán gefr ad fridar-fortölum Enskra og Austurríkismanna, og hvörnig strídid vid Rússa fær lyktad, hvad allt ókominni tíd er ætlad í ljós ad leida.

I *Fránkariki* var þetta ár einka merkiligust umbreytíng sú, er skedi í stjórnarrádinu (er kalladist þad hryggiliga) á þann hátt, ad Villele og allir hans medstjórnendr voru af konúngi kvaddir svipliga frá völdum, hvör atburdr ad olli betra hluta þjódarinnar mikillar gledi. Svo er ástadt, er reyndar mun kunnugra enn frá þurfi ad segja, ad sá katólski kennilýdr í Fránkaríki hefir um næst undanfarin ár á allan hátt reynt til ad ná þar sínum fyrri völdum, med þeim hætti ad útbreida hvervetna hjátrú medal almennings, stipta klaustur og múnkaordur, útsenda svonefnda kristniboda hópum saman um land allt, og ödru þvílíku; ad öllu þessu studdi þad villeliska stjórnarrád med mikilli alúd, og svo augljósliga, ad erkibiskupinn af Hermópólis, er var ædsti stjórnari andligra málefna í öllu ríkinu, opinberliga tók málstad Jesúíta, er ekki höfdu hèr heldr enn annarstadar vinsældum ad midla; vard stjórnarrádid af þessu og ödru mjög óþokkad, sást þad og brátt á, þegar fulltrúar

vóru valdir fyrir málstofurnar; því þeir einir vóru med frábærum atkvæda fjölda tilkjörnir, er ad því vóru kunnir ad unna þánkafrelsi og alþjódligri upplýsíngu. Streittust þó Villele og hans medstjórnendr öndverdir vid öllu þessu, er þeir nú sáu ad veldi þeirra var á þröminni; því gjörla vissu þeir, ad þeir sem nú vóru seztir í fulltrúa málstofurnar, mundu reynast þeim mjög svo ólíka ördugri í skiptum, enn þeir er ádr höfdu þar setid; en ádr enn þetta væri fullreynt, fèkk Villele ásamt flestum medstjórnendum sínum lausn í nád frá embættum *sínum*, eins og ádr er umgetid. Var þá og nýtt stjórnarrád, er hinu var ólíkt ad meiníngum sínum, af konúngi tilskipad, en þjódin hugdi sèr þessi umskipti ad miklu gódu verda mundu. Þad brást heldr ekki: frumvarp var þegar tekid ad semja til nýrri og fullkomnari vals-laga, er sídar voru samþykt í fulltrúanna málstofu; nefnd var og tilskipud, er meta skyldi og hugleida allar andligar kenslu-stiptanir og skóla í ríkinu; og auk þessa vóru og ýmislig alþjódlig fyrirtæki, er allsendis midudu til ad efla almenníngs heillir, á stofn sett: gekk þetta og slíkt annad þó ekki med öllu ordalaust af. Nefnd sú en umgetna lagdi þann úrskurd á málid, er minnst þótti þadan koma mundi, ad ekki væri þad gagnstædt grundvallar lögunum, ad Jesúítum væri leyft ad stadnæmast í ríkinu; en ódar gullu dagblöd vid, ad stjórnin ekki þyrfti í svo mikilsvardandi málefni ad gefa nokkurn gaum ad slíkri ályktun,

og fleiri af stjórnarherrunum tóku í sama strenginn. Loksins útgekk þann 16 júní konúnglig tilskipun, er lagdi bann á ad taka til kenslu í andliga skóla adra enn þá, er sídan væri ætladir til kyrkjunnar þjónustu; var því þá og vidbætt, ad allir þeir frumskólar (Semínaríer), er stædu undir umsjón þeirra svo kölludu andligu safnada (Kongregazíóna), er ekki væru af konúngi tilskipadir og innsettir, skyldu framvegis lagdir undir umsjón og yfirrád háskólans, og sviptust biskuparnir hèrvid umrádum þeim, er þeir híngad til höfdu haft yfir skólum öllum í ríkinu. Skyldi óg enginn limr ens andliga safnadar dirfast ad kenna úngmennum sín kristilig frædi, nema til þess hefdi fengid lof og leyfi konúngs. Þetta midadi allt til jesúíta, er nú og í svip sáu magt sinni og áliti í einu kollvarpad; þeir fóru því allflestir úr landi, og lètu einkum fyrirberast í Sveiz. Enir frönsku erkibiskupar og enir yppurstu af kennilýdnum, er mjög svo hneixludust á þessum nýbreytíngum, er mjög þóktu nærgaungular veldi þeirra, gjördu ad hinu leitinu konúngi og stjórnarrádinu svo bera, og þrálynda mótstödu, ad konúngr fann þad hlýda, ad senda yfirorduligan fulltrúa sinn gagngjört til Rómaborgar, ad tjá Páfa af rádríki og uppivödslu kennilýdsins; vard enn nafnkendi Chateaubriand fyrir ferd þessari, og er mælt ad hann svo rækiliga hafi flutt mál sitt fyrir födur Páfa, ad þessi hafi lofad æskiligum málalyktum á eyrindi hans.

Samfara þessum misklídum, er nú er getid, hófst önnur þrætan engu minni útaf því, hvört fara skyldi opinberri klögun á flot gegn enum afsettu stjórnarherrum; ýmsir löttu þess, og töldu þar á öll tormerki, en med atkvæda fjölda fór þó hitt framm. Nefnd manna var nú tilskipud, er rannsaka skyldi adgjördir hins úr völdum gengna stjórnarráds; og hún lagdi þann úrskurd á litlu sídar, ad nógar væru sakir til ad hefja mál á hendr stjórnarherrunum fyri sèrplægni þeirra og hrekkvísi, medan í völdum hefdu vasad. Þeir sem voru ákafastir vildu ad málinu væri þegar framfylgt, en hinir (og þeir höfdu sitt fram) ad því væri skotid á frest, unz önnur þjódarmálefni væru útkljád; fórust vid þetta málssóknir fyrir ad sinni. Í öllum þessum misklídum og flokkadráttum fór ed nýskipada stjórnarrád fram med mikilli ráddeild og stillíngu, og ávann sèr þarvid þjódarinnar hylli og virdíngu. Einkum gerdist La Ferronaye, efsti stjórnari útlendra málefna, (er fyrir fám árum var franskr fulltrúi hèr í Kaupmannahöfn), mjög vinsæll, því adgjördir hans virdust allflestar ad skapi þjódarinnar yfirhöfud: þannig studdi Fránkaríki í Portúgal adstodarmenn og vini ennar nýu ríkis-skipunar, er þar var inleidd; veitti og lofadi Grikkjum miklum peníngastyrk, sem eigi var Enskum handbær; og loksins sendu þeir at álidnu sumri med miklum kostnadi, her manns til Móreu, er ad fullu og öllu frelsadi landid frá áþján og yfirgangi Tyrkja, og útrýmdi

þeim ad fullu þadan. Alikt og þá Napóleon fordum, fór leidángursferdina til Egyptalands, fylgdi her þessum flokkr lærdra manna, er ferdast ega um kríng í landinu, og safna snilliverkum og menjagripum frá fornöld, er þó munu mjög hafa týnt tölu sinni á enni umlidnu styrjaldartíd. Undir vorid er mælt ad leidángurslidid egi ad hverfa heim aptr til átthaga sinna, og mun þeirra stutta dvöl og gódfúsu adgjördir lengi verda Grikkjum minnistæd, og geymd hjá þeim í þakklátri endrminníngu. Setulid Franskra, er adsat á Spáni, sneri heim þadan í haust ed var, er mælt ad fátt hafi ordid um kvedjur ad skilnadi, og þó helzt af álfu Spanskra. Útgjörd Frakka á hendr Alzírsmönnum, med hvörri ætlad var fyrir atflutníngs-bann at kúga þá, til ad fullnægja kröfum hinna, er eigi ennú lokid, enda hefir henni lítt verid framfylgt af Frökkum, sem ellá mundu fyri laungu sídan hafa nád rétti sínum, þar sem vid svo þróttlítinn óvin er máli ad skipta. Öndverdliga í febrúar vóru málstofurnar, einsog sidur er til, opnadar af sjálfum konúngi; lýsir ræda sú, er hann í þad sinni lét haldna, ríkisins invortis ástandi á allan hátt vel og glediliga, og jafnframt lofar konúngr því fyri sitt leiti, ad vidhalda fridi og rósemi í Evrópu, og sýnir þad berliga hvörnig hann og stjórnarrád hans eru skapi farnir í tilliti til Tyrkjastrídsins og oeirdanna í Portúgal, hvörra sídar mun getid verda.

Af dánum merkismönnum þetta ár í Fránk-

aríki eru einka nafnkendir læknirinn Gall, er fyrstr hóf *höfudskelja-frædina* (Hjærne-Organ-Læren), er svo nefnist, og á seinni tíd hefir mjög útbreidst. Merkiligt var þad, ad höfudkúpa Galls sjálfs enganvegin sannadi kenníngu hans, ad dómi þeirra er þar báru skyn á, og er þad ad vísu órækt vitni þess, ad margt murí enn óvíst og lítt áreidanligt í frædi þessari. Annar merkismadr, er hèr dó, var hershöfdínginn Barras, sem fyrstr manna kom Napóleon til frama, hann lèzt 74 vetra, og lætr eptir sig ritadar frásagnir um ýmisligt, er á hans dögum hefir vidborid, er þess tilgetid ad í þeim sè margt fródligt, um þad er gjördist í Fránkaríki, þá er Napóleon sat þar ad völdum.

Frá Spáni er þetta ár mjög fátt, er í frásögu sè færandi, bryddi vída innanlands á flokkadráttum og ófridi líkt og ad undanförnu, og sumstadar hófst opinber styrjöld. Konúngr og dróttníng komu loks heim til höfudborgarinnar at álidnu sumri, og höfdu þá lengi ferdazt um kríng í ríkinu, lagdist drottníng þvínæst sjúk, en er nú komin aptr til heilsu sinnar. Foríngi fyrir þeim svonefndu Karlistum, er vilja hefja bródur konúngsins (prins Karl) til konúngstignar, er þeir ætla hann hlidhollari kennilýdnum enn konúnginn, var af dögum rádinn, linnti þó óeirdunum eigi ad heldr, og um mídsumars leiti gjördist af oróa þessum almenn styrjöld í Katalóníu. Eigi óvida annarstadar synjudu og bændr prestum um tíundir sínar, og adrar

skyldur, og flest gekk um þær mundir á tréfótum. Nýliga hefir og borizt, ad landshöfdínginn í Katalóníu, de Espanna, hafi látid ráda allmarga af dögum í Barcellóna, sem ad því urdu uppvísir, ad vilja koma á annari ríkisskipan og konúngsstjórn: lýsir þetta allt berliga því, ad frelsisandinn tekr ad ná yfirhönd hjá þjódinni, og mun þess ad vísu eigi lángt ad bída, ádr ná mun þeim þroska, ad prestaveldi og ofríkisstjórn þar í landi rídi ad fullu; hefir slíkt og oflengi sturlad frid og farsæld innanlands í ríki þessu, er af náttúrunni og landskostum til er margskonar gædum búid. Í Gíbraltar gekk lengi sumars og á vetur fram sú svonefnda gulupest, og vard þar fjölda lýds ad bana; nú er hún loksins aflátin, og borgarmenn, er láu í tjöldum utanbæar, medan drepsótt þessi var banvænust, tóku um midjan vetur ad hverfa aptr til híbýla sinna, og þann 12ta febrúar var þar tilskipud og haldin mikil þakklætis hátíd, í minníngu þess ad landplágunni var til fulls aflètt.

Ord hefir á því legid ad Spánar stjórn hafi, og þó á laun, adstodad Michael í Portúgal og flokk hans med tillögum sínum og ærnum fèstyrk, og er þad ad vísu mjög ad líkindum mælt, þar sem spönskum klerkum og einkaveldisvinum stendr mikill ótti af Portúgals nýa stjórnarformi, ef því mætti verda framgeingt; því nábýli og annad samkvæmi þjódanna á milli, mætti ad þeirra ætlun, hægliga koma alþýdu til ad vekja líkar biltíngar á Spáni, og þannig steypa magt

klerka þar framvegis. Þó munu þad ýkjur einar, er seinustu fréttir herma, ad Spánar stjórn ætli opinbert ad taka málstad Michaels í Portúgal, en hitt er vissara ad Spanskir hafa útgjörd fyri stafni til eyjarinnar Kúbu, og þadan til Mexikós, hvar óeirdir hafa brotizt út í opinbera styrjöld, hugsa Spanskir sèr til hreifíngs, ad geta brotid þar land undir sig á ný, er þeir álla viduna missir eigna sinna í Vesturhálfu, og jafnan leita lags ad ná þeim aptr.

*Portúgal.* Eins og um er getid í ársfrèttunum frá Portúgal í fyrra, var hagr ríkisins í byrjun tímabils þessa mjög tvísýnn; hjá vinum nýa stjórnarformsins hreifdi sèr nokkurskonar kvídbogi, og svo var sem hugr segdi þeim, ad mikid óvedr drægi upp yfir höfdi þeirra. Ad vísu hafdi Michael eptir lánga útivist tekid land í Portúgal, og litlu sídar á dýrdligri samkomu svarid ad stydja hina nýu ríkisskipun, og stjórna henni samkvæmt, sýndist því Portúgals lukkusól ad svo komnu ad skína úr hádegisstad, en hèr vard sem optar, ad skúr kom eptir skin. Varla var Michael seztur ad völdum, er adgjördir hans berliga lýstu því, ad hönum hafdi þegar fyrnzt særi sitt, var þad fyrst til merkis þarum, ad í hans útvalda rádaneyti áttu þeir einir sæti, er kunnir voru ad því ad unna gamalli hjátrú og klerkaveldi, en hata nýbreytni alla og umbót í ríkisskipun. Lèk þar og grunr á, ad ekkjudrottníngin rèdi meiru enn vel mátti, og í fyrstu var tilætlad, en nú bar fleira til

tídindi. þann fyrsta marzí var hóf mikid hjá Michael, og mörg stórmenni voru þángad bodin; fyrir utan slotit hafdi því samanþyrpzt múgr og margmenni, þó mest af enni lægri alþýdu-stètt; þegar þeir er fyrstir komu gestanna hèldu ad akandi í vögnum sínum, heyrdist hrópad; *lifi Michael fyrsti!* múgrinn tók þegar undir í einu hljódi, lèt og ekki lenda vid ordin einsömul; med ofríki og ógnunum neyddu þeir ena adkomandi veizlugesti, til ad taka undir óp þeirra. Margt tíginna manna, medal hverra patríarkinn, fulltrúi keisara Pèturs, greifi Schvarzenberg, sem fylgzt hafdi med Michael frá Víen, og margir fleiri sættu misþyrmíngum, án þess ad vardmanna-lidid þyrdi ad skerast í, og stilla ofsa þeirra; er þad og mælt ad drottníng hafi heldur uppörfad múgann, med ad veifa klút sínum útaf glugga nokkrum á slotinu. Á þessu gekk nú fleiri daga í röd, og þad allt med meiri frekju, er annars dags gekk út skipun Michaels, ad vardmanna-lidid á engan hátt mætti sturla gledi fólksins, er nú tók ad gjörast heldur háraustad; lá og vid sjálft ad múgrinn hefdi grýtt vardmanna-lidid, af því ekki vildi fylla flokk þeirra. Rak og Michael um sama leiti 5 sveitarhöfdíngja frá herforustu, en skipadi aptur í þeirra stad adra, sem hann þekti ad trúnadi vid sig, frá því er hann um veturinn 1824 gjördi uppreist mót födur sínum, (sjá Sagnabl. 8 deild bls. 16). Loksins var fulltrúa Enskra, herra Lamb, leyft ad koma ad máli vid Michael, og fór hann

mörgum og þúngum ordum um ofríki þad og ofbeldi, er nú var talid, og kvad konúngi sínum mundi slíkt allítt gedjast, þar sem hann væri skyldr til ad sjá fyri því, ad eigi yrdi á keisara Pètur gengid, samkvæmt vináttu og varnarsamníngum þeim, er þeirra hefdu á milli farid. Þótti sem ord fulltrúans hefdu fengid á Michael, en þó mun þad reyndar hafa gengid helzt til, ad Lamb lèt ódar aptur hverfa til Englands skip nokkurt, er þadan var nýkomid med 500,000 punda sterlíngs, er Michael hafdi ad láni tekid hjá Rothschildi enum audga; gjördist hann ad þessu audmjúkr í ordi, en brádum kom þad upp, ad hann þó reyndar var eins lyndr og ádur; var þad nokkud til merkis, ad hann vildi eigi vera nærstaddr, þar er haldin var sorgarhátíd í minníng dauda födur hans. Líka afsetti hann herforíngjann da Caula, bannadi hann og dátunum ad sýngja kvædi þad, er keisari Pètur bródir hans, hafdi orkt, og hlýddi uppá ena nýu ríkisskipun, og fleira þvílíkt: en berligast mátti sjá fyriræltun hans, er hann litlu sídar baud ad leggja nidr bádar málstofurnar; hafdi þar komid í rædur ad stjórnarherrana skyldi beida nokkurrar skírslu á óspektum þeim, er þegar fyri skömmu vóru um gard gengnar, og fyrr var getid. Nú var enginn efi á því framar, ad ekkjudrottníngin rèdi öllu, og Michael sjálfr duldist nú og eigi leingur vid, ad eigi hefdi hann svarid enni nýu ríkisskipun nokkurn trúnad edr hollustu. Rèdist nú fulltrúi

Enskra, Lamb, í ad stansa burtför Enskra frá Portúgal, er hann hafdi komizt yfir brèf frá Spáni, sem af mátti ráda, ad Spanskir áttu illan þátt í því er nú fór fram í Portúgal. Lèk þarmed ord á, ad Michael ætladi skyndiför til Villa Viciosa, safna þar ad sèr flokki manna, en halda sídan med slíkan lidssafnad í broddi fylkíngar til Madrítar, og láta þar úthrópa sig til konúngs yfir Portúgal, en kvöldinu ádur enn ferd þessari var heitid, komst Lamb á mál vid Michael, og gat svo umtalid fyrir honum, ad förinni var brugdid; sendi Lamb þá og einardligt brèf til Madrítar, er gjördi þad ad verkum, ad Spánar stjórn hætti ad skipta sèr af högum Portúgals ad sinni. Ámedan þessu fór fram, kom sú ordsendíng frá Lundúnum, ad þad er eptir var herlidsins (sjá hèr Skirnirs 1ta árgáng bls. 7) skyldi aptur heim hverfa, og var því hlýdt þegar. Nú mátti þad ætla og öllu heldur enn ádur, ad Michael mundi fara betur fram; en brádum kom þad upp, ad hann einúngis leitadi sèr lags og haganligri tíma: þannig hratt hann smánarliga úr völdum stjórnarherranum Villareal; þá ónýtti hann og lög þau en nýsettu, er vördudu kosníng fulltrúa-rádsins, en skipadi ad í þeirra stad skyldi fylgt gömlum landsvenjum, baud hann og fleira þessu líkt, þó var eigi ofríki hans enn öllu lokid. Fædíngardagr ekkjudrottníngarinnar fór í hönd, ætludu þá vinir Michaels, ad stilla rádagjördum svo kænliga, at útlendu fulltrúarnir, er dvöldust vid hird

Michaels, eigi gætu látid því ótrúad, ad Michael hefdi neyddr verid til ad taka konúngs tign og nafn. Ad því lagi samdi borgarrádid í Lissabon audmjúkt bænarbréf, og bad Michael í því mörgum fögrum ordum ad gjörast konúng landsins, en þar sem ætlazt var til ad allir innbúar höfudborgarinnar, er teljast 240,000 sálna, mundu eiga hlut í þessu, urdu þó ekki nema fáir af enni lægstu og ósælustu almúga-stétt í flokk med sendimönnum, er þeir í hátídligri prócessíu fóru í þjódarinnar nafni med bænar-brèfid til slotsins; herlidid var hljódt og í íllu skapi, en borgarmenn lokudu húsum sínum og sölubúdum; og sá því Michael sèr eigi annad vænna, enn ad rita borgarrádinu nærsta dag á þá leid, ad svo alþjódligt málefni og árídandi, eigi mætti á annan hátt til lykta leida, enn ákvedid væri í ríkisins grundvallar lögum. Fám dögum sídar, stefndi þá Michael, en þó eigi ad konúngs nafni vidhöfdu, klerkdómi, adli og ædstu valdamönnum í ríkinu, er *Lamego-stönd* nefnast, saman til allsherjar þíngs, og þókti audvitad, hvörsu til var rádid, ad þá skyldi Michael háúdliga bedinn og krafinn þess, ad taka konúngs nafn yfir Portúgal. Var en nýa ríkisskipun þannig med öllu ónýtt og brotin; allir útlanda fullltrúar, er í Lissabon voru, og alljafnt sendibodi Spánar-konúngs, er í öndverdu var ætlad ad halda mundi í hönd med nýbreytíngum þessum, gjördu því jafnskjótt heyrum kunnugt í nafni drottna sinna, ad þeir mundu strax hverfa heimleidis, ef Mi-

chael tæki konúngdóm, en ad slíku var enginn gaumr gefinn. Stjórnleysi og ofríki fór sínu fram engu ad sídur, og alþýdan hafdi flest þad í frammi, er til smánar mátti virdast Pètri keisara og vinum hans, en svo var tilætlanda sem fór, ad þeir mundu leita hefnda er færi vard; innbyrdis stríd var því í adsigi, þótt ei brytist út þegar ad svo komnu. Lamegó-stöndin, er getid var, komu saman til málstefnu, dag 23 júní, og hafdi Michael fyrirfram svo atbúid, ad engir, þeir er í mótgángi voru vid hann, skyldu hèr ná sæti og atkvædis-rètti, urdu og þær málalyktir ad Michael ætti og skyldi vera Portúgals einasti og allsvaldandi konúngr, og nefnast *Michael enn fyrsti;* lèt hann og þegar tilleidast ad taka vid konúngdómi, en þóktist vid þad fara einúngis ad bænum þjódarinnar, en hvörki ad sjálfs síns ósk nè vilja. Þó gjördi hann þá útlæga, er á málstefnunni höfdu gefid neitandi atkvædi vid konúngstigu hans, en baud þá líka ad allir þeir, er ádur hefdu á einhvörn hátt hegnt verid, fyri þad er þeir hefdu haldid fram gömlum setníngum, en risid ígegn enni nýu ríkisskipun, skyldu aptur ná völdum og rètti þeim öllum, er þeir brotid höfdu, gætti hann og þess mjög ad eigi skyldu adrir enn þeir, er hann vissi holla vini sína, sitja ad völdum edur stjórnarrádum. En nú fór svo brátt, er og ætla mátti, ad slíkt ofríki og yfirgángr, er gjörsamliga kollvarpadi enni nýinleiddu ríkisskipun, æsti vini hennar til mótstödu og vidnáms

slíku lagaleysi, Borg sú er *Ópórtó* nefnist, er Michael og flokki hans hafdi jafnan leikid illr grunr á, gjördi sig nú opinbera ad uppreisn, og gjördust yfirmenn herlidsins, er þar sat, forsprakkar ad því; lètu þeir því hvervetna lýst fyrir alþýdu, ad þeir væru lausir svardaga sinna vid Michael, er hann gjördist eidrofi og risi gegn bródur sínum, keisara Pètri, og ríkisskipun þeirri, er hann hafdi í lög leidt, kvádust þeir og eigi mundu þjóna honum lengur, ef eigi breytti hann skjótt adferd sinni. Sjömannarád var nú þegar tilskipad, er stýra skyldi adgjördum uppreistar-flokksins, og tókst þad þegar forrád hans á hendr, en 15 hersveitir gengu til lids vid þá, auk landvarnar-lidsins og Óportós innbúa. þókti þad nú líkast, er svo var komid, ad Michael mundi skamma stund sitja ad völdum, og þad var, ad þá er þetta spurdist í Lissabon, fèkk þessi atburdr Michael og módur hans svo mikils, ad mælt var ad þau hefdu í fyrstu ætlad ad flýa úr landi, og svo mundi líkliga ordid hafa, ef uppreistar-herinn hefdi brugdid brátt vid, og snúid mót Lissabon; en því var eigi ad gegna, er þeir hèldu nokkra daga kyrru fyrir og med öllu atgjördalausir, fèkk Michael ad því skapi tóm til lidssafnadar og annars vidbúnadar. Menn hans hèldu nú þegar móti uppreistarflokknum, og bar fundum þeirra saman í grend vid Coimbra, og sló þar þegar í enn snarpasta bardaga, en svo lauk ad uppreistarmanna lidid var gjörsamliga á flótta rekit med

allmiklum mannskada, mátti þad og eigi sídan reisa rönd vid Michael; hèldu nú konúngsmenn inní Óportó, en gjördu þar þó ekki íllt af sèr ad sinni. Álíka vanst Michael ad þagga uppreist, þá er um sama lejti hafdi hafin verid gegn hönum á eynni Madeira; virdtist nú þannig allt ad gánga hönum ad óskum, óx og ofmetnadr hans alljafnt ad því skapi; fyrst yfirlýsti hann því, ad hann nú hefdi afhugad, ad giptast dóttur bródur síns, Pèturs keisara, þótt rádahagr þessi væri ádur fastrádinn, er hann kvad slíkt mega gjöra erfdarètt sinn til konúngsdóms í Portúgal efasaman, lèzt og eigi vilja ráda sèr kvonfáng, sem þetta væri, ámóti skapi landsmanna, og kvad hollustu þeirra sèr öllu ædri vera. Lèt hann og í annan stad auglýsíng útgánga, þess efnis ad allir svokalladir ríkissakamenn, eda þeir er á einhvörn hátt hefdu í landrádum verid, og í fjötrum sæti, edur leyndist sjálfir af ótta fyri straffi, skyldu þegar lausir látnir og í fulla sátt teknir; en brátt lýsti ordheldni hans og trúfesti sèr ad nýu á þann hátt, ad skömmu sídar skipadi hann í annari auglýsíngu rannsóknarrètti um land allt, er hafa skyldu vald til ad fella án appells dóm yfir lífi og eignum allra þeirra, er sekir höfdu ordid ad uppreistar-tilraun edur ödrum slíkum óspektum; midadi tilskipun þessi einkum til Óportós-manna, er helzt höfdu þeir gjörzt ad fjandskap vid Michael, máttu þeir nú þúngliga gjalda hollustu sinnar vid keisara Pètur og dóttur hans, þar

sem margir af þeim voru þegar dæmdir til dauda edur útlegdar og aleigumissirs. Fór og líkt fram annarstadar; margir þeir er ginnast lètu af fagurmælum Michaels, en ádur höfdu farid huldu höfdi, voru þegar gripnir og fyrir dóm dregnir, og var þeim annattveggja ákvedin aftaka edur æfinlig þrælkun og aleigumissir, og hefir þessu stjórnleysi farid fram í Portúgal þar sem enn er komid. Margir komust undan og af landi, og leitudu einkum hælis í Englandi, og vildu þó Enskir eigi leyfa þeim þar stadfestu til langframa. Margir af flóttamönnum þessum, er þeir höfdu gengid frá öllu sínu, komust í vandrædi mikil, svo þess er getid ad adalsmenn frá Portúgal hafi sèzt ad steinhöggi á vegum úti í Englandi. Franskir, er láu med nokkrum herskipum vid land í Portúgal, veittu og flóttamönnum styrk þann allan er þeir máttu, og hirdtu lítt um ógnanir Michaels og vina hans.

Ad álidnu sumri kom en únga Portúgals drottníng, Donna María, nordur híngad til álfu vorrar, hafdi fadir hennar, keisari Pètur, ádur enn hún fór ad heiman, frètt þad er til tídinda hafdi gjörzt í Óportó, og lèt þann þá svo fyrirmælt, ad dóttir sín á ferdinni skyldi nefnast hertogainna af Óportó, og skyldi þad til heidurs og hefdar hollvinum ennar nýu ríkisskipunar þar. Í fyrstu var þad mælt ad drottníngin mundi halda til Vínar í Austurríki, og setjast um kyrrt þar ad sinni, unz hagr Portúgals yrdi á nokkurn hátt skipuligri; en eigi vard ad því,

er hún hèlt til Englands, og tók höfn í Falmúth sídla í sept. þar var henni fagnad med konúngligri vidhöfn, baud konúngr henni til adseturs slotit Laleham, og lèt veita henni öll þau tignarmerki, er sýnd eru krýndum landstjórnendum. Litlu fyrir jól hafdi konúngr hana á bodi sínu í Vindsór, var þad ed dýrdligasta, fanst bædi konúngi og tignarmönnum hans mikid um hæversku drottníngar og kurteysi, og þókti hún ad þessu og mörgu ödru vera fyrir því; er af æsku hennar var ætlanda; mynntist konúngr og vid hana ad skilnadi, og kvadst mundu halda fram máli hennar, sem henni væri mestr vegr í. Var hún enn nokkru sídar í bodi konúngs á líkan hátt; þykir þad nú svo sem Englands stjórn hafi med slíku berliga sýnt, ad eigi játar konúngstign Michaels í Portúgal, er á því var þó ádur nokkur vafi. Mælt er ad keisaranum í Austurríki hafi þad ílla líkad er drottníng þannig stadfestist í Englandi, en fadir hennar lèt sèr þad vel lynda.

Ekki þókti Michael nè flokki hans þad gledifregn, er þeir frèttu ad drottníngin væri komin til Evrópu, en allr landslýdr, sem stjórnleysi Michaels lá þúngt á hjarta, fagnadi slíku mikilliga, og lýsti þad sèr í ýmsum atvikum. þannig var höfudstadurinn, sama kvöldid og frèttist koma drottníngar, hátídliga uppljómadr, lètu menn þó sem slíkt væri reyndar gjört ad bodi Michaels í minníng þess ad eyan Madeira aptur var gengin til hlýdni vid hann; en af

því Michael þókti meira vidhaft, enn hann ætladi verda mundi, baud hann ad slökkva skyldi ljósin sem skjótast, hèlt hann þad, er reyndar var, ad þetta væri framar gjört til heidurs vid drottníngu Maríu, enn af fögnudi yfir hernámi Madeiru-eyar, edur hlýdni vid bod sitt. Bannadi hann og skipi því, er flutt hafdi tídindin um komu drottníngar, brottsiglíng til Lundúna, hvar þad atti heima, og þegar þad ekki vildi láta ad ordum hans, lèt hann skjóta á þad frá kastalanum, en þad sigldi eigi ad sídr; gjördist Michael þá svo ódr ad eigi vard ordum vid hann komid. Þókti hönum og ad ástsæld hans væri minni enn hann hugdi; komst hann líka ad því, ad dátarnir höfdu snúid sálmi nokkrum, er gjördr hafdi verid vid komu hans til Portúgals í fyrra vetur, uppá Maríu drottníngu, og olli þad fáeinum dátum þúngrar hegníngar. Gætti Michael þá og í stjórnarrádinu svo lítt tignar sinnar, ad hann laust hertogann af Cadaval, er þó var honum kærstr manna, mikid höfudhögg med bók nokkurri, og þjódbiskupinum og lagastjórnarrádgjafanum var nær því líkt vegnad, er þeir rèdu konúngi til hóglætis, og þess med ad gánga ad eiga bródurdóttur sína Maríu drottníngu. Nú var múga manns med degi hvörjum kastad í fjötur og fángelsi, og eignir þeirra gjördar upptækar: þókti ofmetnadr Michaels og ofríki nú eigi framar komast mega; en þó bar nú svo til, ad nokkurt hlè vard á slíku um stund. Dag nokkurn (9 nóvbr.)

er Michael ók á vagni út med tveimr systrum sínum sèr til skemtunar, fældust asnar þeir er gengu fyrir vagninum, sumir mæla þad ordid hafa af fagnadarópi þeirra, er ímóti komu; bádar prinsessurnar duttu úr vagninum og löskudust allmjög, en sjálfr höfdínginn, er fyrirsat og stýrdi, dróst med vagninum allengi, ádr hönum yrdi bjargad; þjakadist hann mjög og kramdist, en lærleggur hans annar brotnadi. Hefir hann sídan lengstum legid í rekkju og svo þúngt haldinn, ad opt hefir hann verid sagdr látinn; var þad fyrst haft í gamanrædum, ad þar hefdu asnar tveir greidt úr stjórnarflækjum þeim, er enir vitrustu stjórn-vitríngar eigi máttu ádr úrgreida; en þó Michael væri hætt kominn, sem nú var sagt, er hann nú aptur ad vísu talinn lífs, og risinn úr rekkju, en má þó eigi gánga, nema vid hækjur stydjist.

Eins og líkligt var jókst frelsis-vinum í Portúgal hugr vid svo merkan atburd, fyllti og flokk þeirra mikill þorri alþýdu, og þó fyrst allra herlidid, er nú nefndi hlífdarlaust Michael hardstjóra og ofríkismann; rèdust þeir til slíks enn framar, er þeir frèttu veg þann og tign, er en únga drottníng var í med konúngi Enskra; var nú þad ráds tekid ad taka og útbrópa Donna Maríu til allsherjar drottníngar, en prinsessu Ísabellu skyldi til ríkisstjórnar kvedja, þartil er drottníng kæmi, átti þetta fram ad fara 5 dögum fyrir jól, en þegar ad deginum kom, var forgaungumönnum uppreistarinnar bodid ad

halda kyrru fyrir, en enginn veit hvad til þess hefir borid. þess er vidgetid ad Michaels flokkr, er módir hans nú ræd fyrir, hafi gjörla vitad af samtökunum, en eigi treyst sèr til ad rísa ígegn þeim, var því enginn vidbúnadr gjördr af þeirra hálfu, og allt var kyrrt, sem hvervetna væri hættulaust. þad er og ad sönnu mælt, ad uppreist þessi, er í tídindum nefndist hid *opinbera leyndarmál*, þád hafi mikinn styrk og opinberan ad Frönskum, er þar láu á höfn vid nokkur herskip, var og sagt ad í rádum hafi verid ad flytja prinsessu Ísabellu á skip út, hvar þá skyldu fyrirvera oddvitar ens fyrirhugada stjórnarráds, og bidja hana ad takast ríkisins forrád á hendr ad nýu; en þegar er stjórnarrád Portúgals kvartadi yfir slíku lidsinni Frakka, vid uppreistarmennina, gaf herskipa-foríngi þeirra þau svör, ad konúngr hans hefdi bodid honum svo gjöra. þarámóti virdast Enskir Michael hvervetna hlidhollari, og fer þad ad vísu eigi mjög ad líkindum, þegar ad því er gætt, ad Englands stjórn fyrir tilhlutan Cannings átti mikilvægan þátt í innleidslu þess nýa stjórnarforms í Portúgal, er Michael nú hefir med öllu kollvarpad. Sætir þad og undrum er Enskir nefna D.-Maríu drottníng Portúgals, en leyfa ekki einúngis þó Michael ad sitja þar ad völdum, heldr þaráofan studla til þess, ad hann geti í nádum búid ad þeim framvegis; en ad þessu þó raunar sè þannig varid, mun verda ljósara af því, er frá mun verda sagt í Englands sögu.

Sídan er Michael reis aptr úr rekkju, og tók vid völdum, hefir óstjórn og ofríki hvervetna fyrirrádid sem ádr, og er því audvitad ad hagr Portúgals er enn med öllu tvísýnn.

*England.* Á öndverdu þessu tímabili var hertoginn af Vellíngton nýordinn ædsti stjórnarherra ríkisins, átti hann í fyrstu vid rammann reip ad draga, er vinir Cannings heitins vóru honum ærid mótfallnir, þar sem hann lagadi eigi stjórn sína ad hætti þeirra og vilja; en brátt lètti þessum mótþróa, og gjördist hertoginn þá allvinsæll af alþýdu, sökum hóglyndis síns og ýmsra tilskipuna, er nytsamar þóktu og alþjódligar, er hann var frumkvödull ad. Þegar er hann var ordinn ædsti stjórnarherra, lagdi hann nidr embætti sitt sem ypparsti oddviti og foríngi herlidsins, og var Lord Hill kjörinn til þessa embættis eptir hann. Konúngr sjálfr lagdi og mikla virdíng á Vellíngton, og bar mikinn trúnad til hans, fól hann honum á hendr ad skipa nýtt stjórnarrád, og kjöri hann þartil ad vísu allmarga af flokki þeim, er konúngs-vinir kallast, og sumir þeirra höfdu verid berliga í mótgángi vid Canníng, medan hann var uppi, svosem Lord Peel, Bathurst og Ellenborough; en þó tilkvaddi hann eigi þá af þeim eldri stjórnarherrum, er hann kunni lítt vid alþýdu skap, nè og heldr þá af konúngsvinum, er hann vissi ákafamenn og þverlynda í tillögum sínum; sátu og í öndverdu í rádinu nokkrir, þeir ed vid stjórn höfdu verid med Canníng og vinir hans:

þessi fyrir konúng og stjórnarrád hans, en jafnan forgefins. Ad hallanda sumri, fóru óeirdir mjög í vöxt í Írlandi, var þad einsætt ad Írskir höfdu nú búid sig til hardari mótstödu og vidnáms enn nokkru sinni ádr; völdu þeir þá og sinn djarfmæltasta rædumann O'Connel til parlaments-lims, án þess ad hirda um, hvört hann mundi medtekinn í þá stètt edr eigi, sá ríkisstjórnin ad svo komnu þad eitt ráds, ad senda her manns til Írlands, svo aptrad yrdi þar styrjöldum og uppreisn. Gjördust nú og prótestantar katólskum mótsnúnir, og hófu hvervetna fèlög þau er Brúnsvíkr-fèlög nefnast, og hèldu þá samkomur miklar og rádagjördir, hvörnig bezt mætti veita katólskum vidnám. Vice-konúngr Írlands, hertoginn af Aungulsey, sem almennt var í ást og virdíngu hjá þjódinni, var kalladr heim þadan, og var Írskum þad mikill raunadagr, er hann skildist frá þeim. Sídan er hertoginn af Nordhumbralandi, manna audugastr í Englandi, aptr kjörinn af konúngi til þessa mikilvæga embættis. Málefni Íra og margt annad beid nú parlamentsins atgjörda, sem sett var þann 6ta febr. med rædu af konúngi, einsog sidur er til; fól konúngr parlamentinu á hendr ýtarliga ad hugleida málefni Írskra, og á hvörn hátt helzt mætti bæta úr kveinstöfum þeirra, án þess ad kyrkjunni edur ríkinu þyrfti þarvid hætt ad verda; og af því sem sídan hefir framfarid í parlamentinu má ráda ad fullnægt muni verda þessari bendíngu konúngs, þar sem Vell-

lington og fleiri höfdíngjar ríkisins nú taka málstad Írskra, er þeir gjörla sáu ad ríkisins velferd mundi þad útheimta, og þykir þannig málefni katólskra viss sigr. Næst málefni þessu kvartar kongúngr yfir strídinu milli Soldáns og Rûssa, og má ráda af ordum hans, ad fridur sè hönum hvörju ödru hugfastari; getr hann þess og ad samlyndi sè mikid milli sambandsríkjanna. Um Portúgal er rædan fáord og dul, en getr þó þess ad enskr sendibodi *hafi* flutt keisara Pètri í Brasilíu, hvörnig bezt yrdi rádin bót á högum Portúgals ad ætlun Enskra, en eigi segir þarfrá, hvör svör keisari Pètur hafi gefid eyrindum hans. En tídindi láta þess getid, ad keisarinn hafi lítt tekid á medalgaungu Enskra, er hún helzt þótti lúta ad því, ad Michael nædi ad halda ríki í Portúgal, þó med því skilyrdi ad hann giptist Donna Maríu, og hefdi sig þadanaf meir í hófi enn híngadtil. Þykir þad og svo sem Englands stjórn nú taki ad hallast á sveif med Michael, svo því nær mætti virdast, sem væri sú fyrirætlun þeirra, ad hjálpa honum ad halda tign sinni framvegis. Þykir og atburdr sá er fyri skömmu hefir gjörzt í þessu málefni af Enskra hálfu, berliga lýsa skaplyndi þeirra: þess er ádr getid ad margir flúdu af landi í Portúgal undan ofsóknum Michaels, og leitudu hælis einkum í Englandi, vildu þó Enskir eigi leyfa þeim hèr vidstödu svo lángdvölum skipti, en hètu flóttamönnum þessum, ad flytja þá yfir til Brasilíu, er þeir áttu sèr þar vísar gódar vidtökur af keisara Pètri, þar sem hollusta

ein gegn honum og ríkisskipun hans í Portúgal, hafdi steypt þeim í slík vandrædi. Nokkru eptir jól lögdu Portugísar af stad frá Plýmúth á fjórum enskum skipum, og stýrdi þeim herforínginn Saldanha, en þad var vid ord haft ad halda skyldi beint til Brasilíu, en raunar var þó ferdinni heitid til eyarinnar Terceiru, er til fulls var gengin undan Michael og á hönd Maríu drottníngu. Er svo sagt ad Vellíngton vissi þetta allt gjörla, en þegar hèr var komid, vördu 2 ensk herskip Saldanha og mönnum hans landtöku; og þá er hann (Saldanha) í nafni drottníngar sinnar og í trausti þjódarèttarins mótmælti adferd Enskra, skutu þeir á skip hans, og drápu nokkra af mönnum hans, er hann stód verjulaus fyrir. Var þá þad eitt ráds ad halda aptr burt af höfninni, og á haf út; fylgdu herskip Enskra þadan Portúgísum allt ad Spánar ströndum, og skildust þar sídan vid þá. Hèlt Saldanha skipum sínum til Brests í Fránkaríki, og fèkk af Frökkum ljúfar vidtökur, adstod og hjúkrun, er þeir vóru ad þrotum kómnir ad vistum og ödrum atbúnadi; baud og konúngr þeim skyldi veittr allr styrkr, sá er þeir vidþyrftu, af opinberum sjódi, unz hagr þeirra breyttist á einhvörn hátt til ens betra. Fyrir adferd Enskra mæltist lítt í frönskum dagblödum, en Saldanha sendi þegar beinleidis til Lundúna, og lèt þar frambera fyri stjórnarrádid umkvartanir sínar; hefir ei enn spurzt hvörsu svarad hafi verid eyrindi hans, nè heldr hefir mál þad enn verid borid

undir parlamentid, þó slíkt væri í fyrstu í umrædum. Hvört álit Enskir leggja á strídid milli Soldáns og Rûssa er mjög á huldu, ad eitthvad merkiligt sè þó í samníngum milli Enskra og Rûssa, þykir ráda mega af því, ad sendibodar fara tídar enn venja sè til, milli Pètursborgar og Lundúna, og fyrir skömmu sendi keisari sèrligan fulltrúa sinn, greifa Matushevitsh, sem sagdr er frábær stjórnvitríngr og einka-vin greifans af Nesselródu, til Lundúna, er eyrindi hans enn lítt kunnugt. Geta má þess og ad Enskir auka vid flota sinn í Midjardarhafinu, og hafa í vetr mjög endrbætt varnar útbúnad allan á enum jónisku eyum, og jafnframt fjölgad þar herlidi.

Medal dáinna merkismanna í Englandi á þessu tímabili má nefna greifa Liverpool, er í mörg ár var efsti stjórnarherra þar, og gódfrægr mjög sídan; og Dr. Vollaston, auka-forseta náttúruvísindafèlagsins í Lundúnum, merkan og vídfrægan náttúruspekíng.

*Holland.* Þad helzta, sem hèdan er til tídinda á þessu tímabili, er strídid vid uppreistarmennina á Java, sem framhaldid var þetta ár kappsamliga af hvorratveggju hálfu; veitti þó uppreistarhernum jafnan betr, hafdi þó kóngr mikla útgjörd, og sendi her manns af stad, til ad stödva óróann, er nú mun fara raunar vaxandi, og þegar hefir kostad Hollendínga fullar 37 mill. gyllina, svo stríds-útgjörd þessi tekr ad verda ærid útdragssöm, og þó ekki

nærri lyktum ad sinni. Heima í sjálfu ríkinu var allmikil þræta um prentunar-frelsi þar í landi, og var ad hallanda sumri tekid ad semja ný og fullkomnari lög preptsmidju-frelsipu vidvíkjandi. Svo er hèr ástatt, ad þá Napóleon árid 1815 kom frá Elba, útkom hèr svokallad tækifæris-lögmál, er stílad var gegn misbrúkun prentverka- og ritgjörda-frelsis þar í landi, sem árid 1818, þó med nokkurri umbót, var stadfest af konúngi, en jafnframt lofadi hann, þá málstofurnar voru opnadar, brádum at aftaka lög þessi, er illa mæltist fyrir hjá þjódinni yfirhöfud. Engu ad sídr dvaldist konúngi at uppfylla loford sitt, ok ýmsir rithöfundar og útgefendr vóru lög-sóktir og sakfeldir, samkvæmt þeim gildandi prentunar-frelsis lögum. Á medal þessara var rithöfundr nokkur, Ducpetiaux, er tjádi grund-vallar-lög ríkisins yfirtrodin, vid þad er tveir franskir vísindamenn, ad undirlagi rèttvísis-mál-efna-stjórnarans, vóru, og þó í nádar skini, reknir í æfinliga útlegd í stad 1 árs fángelsis, er dómstólarnir höfdu á þá lagt, fyrir afbrot gegn ritgjörda og prentunar-frelsi, er adferd þessi lítt þótti lögum samhljóda. En einkum vard óvildin ad fullu ber, þá einhvör hinn merkasti rithöfundr þar, ábótinn Potter, djarf-mæltr mótstödumadr katólskra og þeirra vaxandi rádríkis, var sóktr at lögum fyrir ritlíng nokkurn katólskum vidvíkjandi, er líka þótti nær-gaungull stjórnarherrunum, er eigi voru því seinir ad bera hönd fyrir höfud sèr, ok leita laga

adstodar. Í annari málstofunni var nú stúngid uppá því, at ónýta en gildandi prentunarlög, en semja önnur betri, og mæltu enna sudlægari hèrada-fulltrúar mjög svo fram med því, en v. Maanen, konúngsins stjórnarherra í rèttinda og alþjódligs sidferdis málefnum, mæiti í rèttvísinnar nafni svo ötulliga í móti, at framvarp þetta at því sinni var ónýtt, þó med allitlum atkvæda-mun, ok jók þetta lítt vinsældir v. Maanens hjá þjódinni. Geta má þess og ad hann fór því fram, at hvorki hann nè adrir stjórnarherrar þar í landi þyrftu at gjöra þjódinni edr alþjódligum dómi nokkra grein eda skil fyrir atgjördum sínum, er nokkrir höfdu látit sèr óhæfu þá um munn fara í málstofunum, ad þar væri dómstoll nokkur öllum ædri, hvar Jústizía sjálf ætti varnarþíng, ok hvadan ekki tjádi at skírskota máli sínu til ædri rèttar, ok væri þetta dómstóll alþjódligs álits, er aldrei framar enn nú sakfeldi þá, er leitudu mótvarnar. Jafnframt brýndu þeir fyrir honum þau merkisord, er Fránkaríkis núverandi stjórnarherra, Hyde de Neufville, lèt mælt næstlidid sumar, í enna frönsku fulltrúa málstofu: „Einginn veit betr enn eg, ad á þessum rædustól er eingum leyft at skáka í skjóli konúngsins, at konúngrinn sjálfr ekki gjörir sig sekan í nokkurri rángsleitni, en mætti svo vidbera, bytnar þad makliga eingöngis á stjórnarrádi hans." Þó urdu þær lyktir á máli Potters, ad hann var dæmdr til 18 mánada fángelsis, en þegar hann var fluttr til fáng-

elsis síns, þyrptust múgr ok margmenni saman, ok fylgdi honum; vildi þá svo óheppiliga til ad v. Maanen bjó beint yfir fyrir fángelsi Potters, og beindist því alþýdan ad húsi hans, hvar í það skipti var veizla mikil, ok mölvadi þegar glugga alla med steinkasti, ok urdu þetta veizluspjöll mikil. Kvartadi Brussels borgarrád sídan yfir óspektum þessum fyrir konúngi, og bætti því vid, ad þetta væri öllum gódum borgurum mjög móti skapi, og tók konúngr líkliga undir ad svo mundi satt vera. Litlu sídar baud konúngr ad semja skyldi ný lög um prentunar og ritgjörda-frelsi þar í landi, og eru lög þau þegar útkomin.

Rádahag dóttur Hollendínga-konúngs med prinsi Gûstav, syni þess fyrrverandi Svía-konúngs, Gûstavs 4[da], á hvörju þó lèk nokkur vafi, er nú med öllu brugdid, og èr svo sagt, ad prinsins nærverandi ættarhagr hafi ekki ad eingaungu bægt rádahag þessum.

Í *Þýzkalandi* gjördust á þessu ári eingin sèrlig tídindi, en fridr var þar hvervetna, og árferdi allgott. Geta má þess þó, ad næstlidid haust var í Berlín fundr mikill af lærdum náttúruspekíngum, er í nokkur undanfarin ár hefir haldin verid í Þýzkalandi; er augnamid slíkrar almennrar samkomu, ad náttúrufrædis ydkarar á þenna hátt geti borid rád sín saman, yfirvegad og prófad í sameiníngu uppgötvanir sínar og annara, er á vorum dögum gjörast í þessari vísindagrein svo mikilvægar og dýrmætar. Ferd-

udust til fundar þessa margir útlendir náttúruspekíngar, ad tilbodi þeirra er samkomunni stýrdu, þarámedal hèr frá Danmörku enn nafnkendi náttúruspekíngr Etazrád og Prófessor Ørsted og Prófessor Hórnemann, og í allt voru hèr samankomnir 380 náttúruspekíngar, og hafdi enn nafnkendi Barón Humbolt formensku á hendi. Eins og sidur er hèr til, hèldu þeir enir helztu opinbera fyrirlestra, og vard Etazrád Ørsted enn annar til þess, og næst honum Berzelíus frá Uppsölum, lèt og Prussa-konúngr gjöra þeim dýrdliga veizlu ad skilnadi. Næsta ár er svo tilætlad ad fundrinn verdi í Heidelbergi, og er audsætt ad hèr af má mikid gott leida fyrir náttúrufrædi og vísindi yfirhöfud. Af dánum merkismönnum hèr, á þessu tímabili, var eingínn nafnkendari enn gudvitríngrinn *Nímeyer*, kansleri vid Háskólann í Halle.

Á Vallandi bryddi á þessu tídinda-ári allvída á óspektum, er þó vídast hvar urdu sefadar í tækan tíma. Neapels konúngr gjördi flota út, og sendi hann móti Trípolismönnum, er mjög höfdu gengid í fjandskap vid hann, en útgjörd þessi fór næsta ólidliga, og kom því engu áleidis; var þó floti, sá er sendr var, svo mikill, ad hægt mundi veitt hafa ad eydileggja stadinn, ef vel hefdi verid tilstilt. Er svo sagt ad admíráll Neapels konúngs, legdi skipum sínum svo lángt undan landi, ad kúlur hans eigi nádu stadnum nema máttlausar, og vard því ekki meint vid þær í borginni. Þegar Borgarmenn sáu þetta,

rèdust þeir á kanónu-bátum út í móti Neapels mönnum, og gátu þessir þá eigi lengr vidhaldizt, og lètu því þegar undan síga á haf út; höfdu þeir þá skotid á stadinn meir enn hálfan annan sólarhríng, án þess ad hafa kveikt í nokkrum húskofa í borginni, eda drepid eina hrædu, en sjálfir höfdu þeir mist einn mann, en skip þeirra voru ílla til reika og lítt sjófær, og komust med illan leik til Messínu, og þótti ferd þessi en hædiligasta. Eigi laungu sídar samdi Neapels konúngr frid vid Trípolismenn, og undirgekst framvegis ad borga árligan skatt eins og híngad til, og er þannig fridr ákominn milli þessara ríkja ad nýu.

Einsog optar, vard hèr og annarstadar á Vallandi vart vid jardskjálfta á þessu tímabili, og umbrot nokkur voru í eldfjallinu Vesúvíus, er gígr þess opnadist, og spúdi eldi og glóandi steinum í hálopt, hvarmed fylgdi öskufall nokkurt, vard þó lítid mein ad þessu ad því sinni. Frèzt hefir ad nýúngu ad allmiklar hræríngar sèu í fjallinu á ný, en eigi hafa greiniligar fregnir þaraf enn farid.

Í Kyrkjulöndunum vard þad einkum til tídinda, er páfinn í Róm, Leó enn 12[ti], andadist eptir stutta sóttarlegu þann 10[da] febrúar, hafdi hann þá setid á Róms biskupsstóli rúm 4 ár; var stjórn hans, bædi sem kyrkjunnar forstödumanns og líka heima í ríki hans, mjög gódfræg, er hógværdar og sáttgirnis-andi þókti lýsa sèr hvervetna í rádstöfunum hans, sem kyrkjunnar

yfirherra, einsog hann á allan hátt vakti yfir rèttindum hennar og frama. Hann efldi vísindi; jók á margan hátt bókasafn þat ed mikla, er finst í Róm, og nefnist ed vatíkanská; og gaf mörg góð lög í ríki sínu: vard hann því katólskum mjög harmdauda. Eptir fornum sid söfnudust Kardinálarnir litlu eptir dauda hans saman, í því svonefnda *Conclave*, til ad velja nýan páfa, en eigi hefir enn frèzt, hvörjum hlotnazt hafi tign þessi, er ad vísu ennú er mikil og veglig, þar sem mælt er, ad fullar 150 milliónir sálna játi katólska trú, vídsvegar um heim, er allir hlýda bodi páfa og banni, og er þaraf ljóst, ad hann á yfir fleirum ad bjóda, enn þeir enir voldugustu heimsins stjórnarar á vorum dögum.

Í nábúaríkinu, *Svíaríki*, bar fátt vid þetta ár, er frásagnaverdt þyki. Árferdi var þar allgott, og almenníngs ástand þar tjáist í blóma; fluttust og á þessu tímabili allmiklar kornvörur frá Skáney til útlanda. Eins og rád var fyrirgjört, ferdadist konúngr í vor ed var til Kristjaníu, og opnadi þar Stórþíngid, og dvaldist þar sídan medan á því stód, unz hann svipliga sagdi því lokid, í öndverdum júlí mánadi, og sneri hann þá þegar heim til Stokkhólms. Nokkru eptir vetrnætr var í Stokkhólmi settr ríkisdagr med mikilli dýrd og vegsemd og rædu af konúnginum, og styrkir hún fullkomliga þad, sem ad framan er sagt af ástandi ríkisins yfirhöfud. Ríkisdagr þessi stendr ennú, og er svo frásagt ad margt sè hèr þegar rádid, og muni þó meir,

ríkisins þörfum og almennri heill þar í landi vidvíkjandi, frá hvörju þó ad sinni eigi sagt verdr. Konúngsættin jókst hèr á ný; er krónprins Oscar eignadist son, er nefndist: Oscar, prins af Austrgautlandi; þarámóti dó þar prinsessa Soffía Albertína, systir Karls 13^da^, 76 ára gömul.

Í sambandsríkinu *Noregi* gjördist þad helzt til tídinda, er stórþíngid kom þar saman í höfudstadnum Kristjaníu ad bodi konúngs, sídla í apríl mánudi; vard þad þá brádum ljóst, er og ádr þókti audvitad, ad hèr voru ýms alþjódlig málefni lögd fram af konúngi til stórþíngsins yfirvegunar og nákvæmari úrskurdar. Var þad fyrst er konúngr kvad peníngasummur, þær er stórþíngid lèti af hendi rakna til ríkisins naudþurfta, ónógar, er hann því mæltist til ad yrdu auknar. Þarnæst fól konúngr stórþínginu ad hugleida og ákveda ýtarligar enn híngad til, ábyrgd ríkisrádsins í stjórnarefnum, hæstarèttar í dómum sínum, og stórþíngs-medlima í lagasetnínga-málefnum. Var þá og annad lagaframvarp framborid, vidvíkjandi kosníngu fulltrúa þeirra, er sitja í stórþínginu, ad þjódin gæti haft þann trúnad til þessara, er hæfa þykir. Loksins felr konúngr nefnd þeirri, er í fyrra var þar tilskipud, og semja átti lögbók nýa fyrir ríkid, ad ljúka verki því sem skjótast; er hann telr landsins rósemi ad miklu undir þessu komna, þar svo væri ástatt, ad en gildandi lög þar í landi, lítt væru samkvæm grundvallarlög-

unnum. Lauk svo hèr ad stórþíngid samþykti og stadfesti flest, þad er konúngr hafdi uppástúngid. Árferdi var þar í landi allgott á þessu tímabili, og líkt mun mega fullyrda um kaupverzlun Norskra, er rúm 1000 skip þeirra sigldu í gegnum Eyrarsund á þessu ári. Á næstlidnu vori byrjadi Prófessor Hansteinn, er einkum hefir margt uppgötvad um edli segulsteinsins, frá Kristjaníu mikla vísinda lángferd til nordrhluta Síberíu, og er hans eigi heim von fyrr enn ad 2r árum lidnum. Geta má þess og, ad annar Prófessor þar og medlimr fèlags vors, Fougner-Lundh, hefir tekizt á hendr ad útgefa á prent norskt fornbrèfa og skjalasafn frá elztu tídum og til 16du aldar loka, og er sýnishorn af því verki þegar á prent útgengid.

Í *Asíu* hefir þetta ár verid mjög róstusamt, og voru styrjaldir þessar margbreytts edlis. Frá alda ödli hafa margsháttar trúarbrögd átt hèr stríd saman, er og mjög tekr líkum, er innbúar þessarar heimsálfu hafa ímyndunarkrapt ríkan og lítt reglubundinn. Af þeim margbreyttu trúarbrögdum, er finnast í Asíu, er kristni minst máttar en heidni öflgust; er þad og sagt ad í eignum Breta taki kristni litlum framförum, þótt lönd þessi, sem eru mikil og fjölbygd, standi undir kristinnar stjórnar yfirrádum, bædi vegna þess, ad kristnibodar eiga þar vid skipuliga gudsþjónustu, en presta-stèttin þar finnr hag sinn vid ad vidhalda gamalli hjátrú medal almenníngs, og líka hins vegna, ad Bretum, ad

sögn; er lítt um það gefið, ad innfæddir þar taki kristna trú, af ótta fyrir því ad þeir muni sameinast þeim svokölludu blendíngjum þar, er komnir eru af Enskum og innfæddum konum, og allir játa kristna trú. Annarstadar í Asíu, ad þeim hluta hennar undanteknum er Rûssar hafa yfir ad bjóda, er kristni undirþrykt og varla lidin. Í Kína, sem er allra ríkja mest og voldugast í þessari heimsálfu, og fjölmennast ríki í heimi, er landslýdr allr heidinn, en kristin trú ofsókt, hefir og keisarinn á þessu ári rekid burtu alla kristnibodara þadan. Rûssum sýnist þarámóti ætlad ad útbreida kristni í Asíu, einsog þegar má sjá merki til, er Rûsslands stjórn í Nordr-Asíu og í Kákasus fjallbygdum fridar og útbreidir kristna trú, vidheldr rósemi og fridi, medal margbreyttra trúarmeiníngа, og greidir þannig veg betri og skynsamari sannfæríngu eptirleidis. Vid sigrvinníngar Rûssa yfir Persum, unnu þeir þann hluta Armeníu, er Persar rèdu fyrir, hvar armeniskir kristnir nú búa, og rækja trú sína í nádum og gódum fridi, undireins og velferd þeirra á annan hátt blómgast. Í annan stad áttu kaupverzlunar og alþjódligir hagsmunir í strídi saman, einkum í eignum Breta og Hollendínga. Þannig áttu Hollendíngar á eyunni Java, (einsog ádr er sagt) ördugt og útdráttarsamt stríd vid eyarmenn, er gjört höfdu uppreist, og þótt fráleit trúarbrögd megi eiga þar í nokkurn þátt, er eyarbúar játa Mahómets trú, mun þó hitt raunar höfud-atridid, ad

eyarmenn þykjast strjúka um ófrjálst höfud, og sæta álögum af stjórn Hollendínga. Hagr Enskra þarámóti í Austr-Indíum er ad ytra áliti enn æskiligasti; þeir hafa nád þvínær öllum fremri Indíum, og öflugri fótfestu í enum epiri, hinumegin Ganges fljótsins. Birmanar, er um undanfarin ár hafa átt í strídum vid Breta, hafa nú látid hugfallast, og einnig lokid á þessu ári skilvísliga peníngasummum þeim, er Bretar vid seinustu fridargjörd höfdu sèr af þeim áskilid. Þykir og líkligt, ad líkt liggi fyrir konúngunum í Síam og Kotshinkínu, ad verda á einhvörn hátt Bretum hádir.

Þad er sagt ad Kína-keisari líti mjög hornauga til þess, er Bretar þannig nálgast ríki hans ár frá ári; greiddist þeim einkum vegr í Birmana strídinu, sèrílagi þarvid, er þeir brutu undir sig Nepálsríki, er liggr fyrir nordan Bengálaland; er þad og fullhermt, ad Kínamenn á allan hátt hamli kaupverzlun og ödrum afskiptum milli Breta og þeirra ríkisins umdæma, er liggja næst eignum þeirra. Kínaríki er þrátt fyrir stærd sína og fólksfjölda, og þótt þad nefnist ed himneska keisaradæmi, innvortis sjúkt og af sèr gengid, einsog lítid var ávikid í næstlidins árs Skirnir, þó er uppreist, sú er Tartarar hófu gegn keisaranum, nú fullkomliga sefud. Á næstlidnu sumri var höfudborg uppreistarmanna, er Kaschar nefnist, unnin, og foringinn sjálfr hertekinn, og nýtr þannig ríkid rósemis ad sinni, en engu sídr er innvortis vanmáttr

þessa mikla ríkis alljós, er Kínamenn á engan hátt kynna sèr herfrædi Evrópumanna, þótt þessir meir og meir nálgist takmörkum þeirra. Mælt er þad og ad mikill hluti þjódarinnar uni því mjög illa, er sú rètta og ríkisborna keisarætt þar, er Míng nefnist, var rekin þar frá völdum af mandshúiskum Tartörum, hvörra ættbálkr ad Zíng kallast, og nú hefir ríkt þvínær um 200 ár í Kína, og má hèraf leida óeirdir, þegar fram lída stundir. Skortir því ekki Breta tækifæri, til ad komast í verzlunarmök vid Kínamenn, ef þeir svo vilja. Veldi Breta í Austr-Indíum fer vaxandi ár frá ári, en þó má því eigi í móti mæla, ad veldi þeirra hèr er á veikum grundvelli, er raun ber ljóst vitni um, ad þad er mjög svo ísjárverdt, ad byggja velmakt lands nokkurs á fjærliggjandi nýlendum, þar sem mikid kostar ad vinna þær, þær verda traudliga vardar, og geta farizt allt í einu, ef til vill; Fyrir nordan eignir Breta í Indíum býr og þjód nokkur, er Síkir nefnast, hardfeng og mjög áleitin á nábúa sína, er svá sagt ad í fyrra væri herlid þeirra 20,000, mentad á evrópêiska vísu af frönskum herforíngjum, er hèr hafa látid fyrirberast; hefir þjód þessi brotid undir sig mikinn hluta ennar eystri Persíu. Vestr-Persía er eptir strídid vid Rûssa vanburda mjög og þvínær hád Rûssum: ad vísu komst fridr á milli Rûssa og Persa í Tûrkmantshaj þann 9da febrúar næstlidid ár, en hann vard Persum mjög dýrkeyptr, er þeir bædi lètu lönd fyrir Rûssum,

og þaráofan urdu ad borga þeim 20 milliónir rúbla til herferdarinnar gegn Tyrkjum; og var þetta raunar meira enn í fyrstu var tilætlad, og olli því tregleiki Persa, og þad ad þeir gerdust líklegir, til ad hefja ófrid ad nýu. Land þad er Rûssar fengu af Persum, nefnist Armeníufylki, edr Ermland; og þad sem áskortir af Tyrkja hálfu, ad þad gamla Armeníu konúngsríki fái risid upp ad nýu, því má kalla ad hershöfdínginn Pashevitsh hafi vidbætt med sínum mörgu sigrvinníngum í Asíu, er þó munu verda meiri og ágætari, ádr enn lýkr. Hann hefir fyrstr unnid svig á enum hardfengu þjódum, er byggja Kákasus fjallbygdir, er og hafa flèstar gengid Rûssum á hönd, og svarid þeim trúnad; og má allt þetta ad vísu benda Rûssum til þess, ad þeim í Asíu muni ætladr starfi eptirleidis. Má ráda af þessu, ad Rûssum og Bretum muni innbyrdis vinátta hvörju hollari, og má kalla ad hèr beri vel til, er þad sem er ed æskilig-asta einnig er þad sem næst gengr líkindum.

Í Affríku reyndu Enskir mjög álíkt og ad undanförnu ad útvídka nýlendur sínar, bædi á Gódrarvonar-höfda og á enum vestlægu ströndum álfu þessarar; en innlendir villimenn leitudu mjög á þá, og urdu þeim allmjög ad tjóni. Enn nafnkendi ferdamadr majór Laing og Clapperton fylltu og tölu þeirra, er látid hafa líf sitt fyrir vidburdi sína ad kanna midhluta Affríku, og þarvid ávinna þjód sinni nýa kaupverzlunar útvegi þar um slódir. Laing var enn fyrsti af

Evrópumönnum, svo menn til viti, er nádi til þess mikla stadar Tombúktu í Nígrizíu, er sumir hèldu varla mundi til vera nema í innbirlíngu, en Laing var myrdr af Blámönnum, sem höfdu íllan grun á ferdalági hans. Þarámóti er úngr ferdamadr frá Fránkaríki, ad nafni *Caillé*, nýkominn heim til Parísar, er med órækum jarteiknum hefir sannad, ad hann hafi verid í Tombúktu, og kæmi nú beinleidis þadan. Þóktu þetta merkilig tídindi, þádi hann og þau ákvednu laun af 10,000 fraunkum, af því konúngliga franska fèlagi til eflíngar sagnafrædi og landaskipun; lætr og fèlag þetta á prent útgánga ferdasögu hans, er margt er sagt innihaldi fródligt og ádr ókunnugt, sèrílagi þó landaskipun Affríku vidvíkjandi.

Á *Egyptalandi* átti Mehemed Ali paska í miklum kröggum, er hann átti ad skipta vid vantrúada upphlaupsmenn, og stjórnarlist Evrópumanna. Vechabítar, sem afneita Mahómet spámanni í sínu eigin födurlandi, og í fyrra höfu uppreist mikla, eru enn eigi aflátnir; sendi þó Mehemed mikinn her móti þeim, er þeir á ný gjördust líklegir til þess, ad rádast ad helgistödunum Medína og Mekka. Ibrahím, sonr hans, hlaut loksins ad yfirgefa Móreu jafnnær og þá hann fór á stad þángad, og fyrirfórst þannig med öllu von sú, er Mehemed hefir gjört sèr um yfirrád yfir Móreu og Kandíu, en útgjörd sú hafdi mjög tekid uppá sjód hans, og höggid drjúgt skard í herlid hans. Ad ödru leiti þykir

stjórn hans, einsög ád undanförnu, lýsa frábærum dugnadi, og jafnframt mikilli kænsku; en hann tekr nú mjög ad eldast. Mælt er ad soldán hafi gjört honum þá ordsendíng, ad senda sèr med vorinu drjúgan styrk til strídsins gegn Rússum, en eigi er enn ljóst, ad hvad miklu leiti hann muni fullnægja kröfum þessum.

Í Eyjahálfunni leitudust Evrópumenn, sem ad undanförnu, mjög vid ad útbreida kristni og auka nýlendur sínar, einkum Enskir; glædist þannig med ári hvörju ljós upplýsíngar meir og meir í heimsálfu þessari. Á nýa Hollandi eiga Enskir nýlendur allmiklar, og fluttu þeir á þessu ári marga sakamenn þángad, er þar skulu venjast til ydnis, en láta af ódygdum sínum. Auk þessara fluttu margir sig þángad frá Englandi, er svo sagt ad tala nýlendumanna nái fullum 50,000; vex med ári hvörju velmegun þeirra, er þar er sagdr jardvegr frjófsamr og vedrátta blíd, er lèttir alla vidburdi nýlendumanna, þá er horfa til akryrkju og annarar jardarræktar, er þar því þrífst æskiliga.

Hèdan víkjum vèr til *Ameríku*, og fyrst til *Brasilíu*, er á þessu tímabili naut innvortis fridar og rósemis, fremr enn flest önnur ríki í þessari heimsálfu; komst nú og loksins, eptir fleiri ára styrjöld, fridr á milli þessa ríkis og Buenos-Ayres (Gódloptalands) fyrir medalgaungu Enskra, og undir ábyrgd þeirra med þeim skilmálum, ad hvorirtveggju skyldu rýma fríríkid Montevídéó, utaf hvörju strídid hafdi risid, en innbyggjendr

þar eiga frjálst ad velja þad stjórnarform, er þeim væri sjálfum skapfeldast; þó skyldu 1500 brasiliskra hermanna fyrst um sinn verda eptir í landinu, og jafnmargir af argentínskum á landamærum; innan 4ra mánada, ad reikna frá fridarsamníngi þessum, skyldu innbyggjarar þar hafa tilskipad stjórnarform sitt, en þá skyldi og setulid hvorratveggju hverfa heim þadan. Þó skal fridr þessi eigi gilda lengr enn 5 ár, ad þeim lidnum skyldi tillyktaleidandi fridr saminn, og yrdi honum eigi ákomid, mættu þó hvorugir hefja stríd ad nýu, nema ádr hefdu leitad þarum orlofs Enskra o. s. fr.; og má þannig ætla ad styrjöld þessari muni til fulls lokid. Heima í Brasilíu gjördi en þýzki leiguher, er gengid hafdi á mála hjá Pètri keisara, mikla uppreist, er þeim þókti mjög brugdid af því, er haft hefdi verid í skilmálum vid þá í fyrstu. Uppreist þessi vard þó brádum þöggud af keisarans herlidi, med styrk Enskra, er þar láu vid nokkur herskip á höfninni. Samkvæmt auglýsíng sinni af 3ja Mají 1826, afsaladi keisari Pètr sèr á ný (3 marzí 1828) allan rètt til konúngstignar í Portúgal eptirleidis, en gaf dóttur sinni ríki þad til umráda; en fól bródur sínum Michael stjórn á hendr, þartil er drottníng þroskadist svo, ad hún sjálf gæti tekid vid völdum, med þeim skilmála ad hann þá geingi ad eiga hana, og er frá öllu þessu greint ljósliga á sínum stad; þad er og skírt, hvörsu ílla ad Michael hefir reynzt bródur sínum keisara Pètri, er ad

líkindum mátti vekja þenna til hefnda; er það því sagt ad keisari á engan hátt hafi viljad gefa gaum àd medalgaungu Enskra í sumar er leid, er allshendis þókti mida til þess ad Michael nædi ad halda völdum í Portúgal. Er og þess getid ad hann hafi skrifad dóttur sinni til Englands, ad hann væri þess albúinn, med oddi og eggju ad vinna ríki hennar á ný af höndum Michaels, og heitid því aldrej ad taka sáttum vid hann; hefir og keisari nú vidbúnad mikinn, og lætr útbúa flota sinn, og ætlar ad halda honum í vor til Portúgals: er þess bædi ad vona og óska, ad ofbeldisstjórn Michaels þar í landi fái þannig endad.

Í *fríveldum* þeim, er ádr stódu undir umrádum Spanskra, voru á þessu tímabili styrjaldir miklar; veldr það því, ad fríveldi þessi allt í einu komust frá þraungri ánaud Spánskra til fullkomins frjálsrædis, var þá einginn sá er rètt hefdi, til þess ad takast stjórn á hendr, einsog í Brasilíu, og var því fríveldisstjórn hèr innleidd; breifdi sèr þegar, einsog líkligt var, og fríveldum er edliligt, rádríki og drottnunargirni ýmissra óeirdarmanna, hvaraf sídan risu miklar styrjaldir, einsog á þessu ári hefir mátt sjá merki til. Í Midameríku edr fríríkinu Gvatímala, hefir innbyrdis stríd gengid hvíldarlaust, milli tveggja höfudborga þar, San Salvadór og Gvatímala; er svo sagt ad Gvatímalamenn hafi loksins gjörsamliga verid á flótta reknir í mannskædri orustu á næstlidnu hausti; bádust þeir þá

fridar, og fengu hann med þeim kostum, ad selja fram öll vopn sín, og sèrhvad þad er til strída þènti. Í Buenos Ayres vakti enn fyrrverandi yfirstjórnari landsins, Rívadía, og flokkr hans ófrid, og forsetinn þar, Antóníó Dorregos, er afsettr og sídan drepinn. Vidlíkar óeirdir frèttust frá Bólívíu, hvar Perúmenn nú rèdu öllu, og hafa rekid forsetann, hershöfdíngjann Sucre, frá völdum, og hrakid hann sídan útúr landinu. Þó láta seinustu frèttir þess getid, ad Perúmenn hafi samid frid vid Bólívíu, og leyft fríveldi þessu ad haga stjórnarformi sínu á þann hátt, er því þækti bezt henta, er þeir þóktust hafa gjört skyldu sína, er þeir höfdu ónýtt stjórnarform þad, er Bólívar hafdi þar í lög leidt. Í haust ed var sögdu Perúmenn Kólumbíu stríd á hendr, og er þad þegar byrjad, og veitir ýmsum betr. Í Kólumbíu átti forsetinn Bólívar fullt í fángi med ad stilla óeirdir þær og mótþróa, er hreifdi sèr þar í gegn honum og adgjördum hans. Var þar mikill flokkr og voldugr, er vildi koma hershöfdíngjanum Santander þar til valda, og átti flokkr sá sèr marga hlidholla af þeim er sátu í alþíngi því, er samankom í Ókanna á næstlidnu vori, og litlu sídar aptr var hafid: en vinir Bólívars máttu hèr þó meira, og urdu þær málalyktir, ad Bólívar var stadfestr í völdum sem forseti landsins, og var þad (ad líkindum) flokki þeim, er í móti var, allmjög í móti skapi. Gjördu þeir því eigi laungu-sídar mikil svikasamtök, er midudu til þess ad

ráda Bólívar og vini hans af dögum, en setja Santander aptr til valda; átti mikill hluti herlidsins þátt í svikum þessum. Brutust samsærismenn þann 24 september á náttar þeli inní slot þad í Bógóta, hvar Bólívar bjó, og drápu allt sem fyrir þeim vard; en Bólívar komst þó undan, og gekk herlidid í borginni þegar á hönd honum, og vanst honum þá ad hrekja samsærismenn á flótta, en forsprakkar þeirra urdu flestir handteknir, og voru þeir litlu sídar af dögum rádnir. Eigi vard þad sannad uppá Santander, ad hann hefdi verid í vitordi med samsærismönnum, en miklar komu líkur fram gegn honum, var hann því dæmdr til æfinligrar útlegdar; en er hann ætladi af landi, lèt Bólívar grípa hann, og setja í vardhald, í kastalanum *Boca-Chiga*. Lèt hann og litlu sídar auglýsa nýtt stjórnarform, er hann ætlar ad leida í lög í Kólumbíu, hvarí hann áskilr sèr alvalda (diktators) makt og myndugleika; gildir stjórnarform þad til ársloka 1830, þá alþíng þjódarinnar aptr skal samankoma.

Í *Mexíkó*, sem er mest og voldugast allra frívelda í enni spönsku Ameríku, brauzt út hættuligt upphlaup á öndverdum vetri, er lengi þókti vera þar í adsigi. Tveir hershöfdíngjar þar, Gverrero og Santa-Ana, brutust á jólaföstu í veir med her manns inn í höfudstadinn Mexíkó, og gekk þegar öll alþýda í flokk med þeim; herlidid sem fyrir var í borginni gjördi hreystiliga mótstödu, en vard þo ofrlidi borid af

uppreistarhernum, og fèllu í bardaga þeim, er hèr gjördist, fall 800 manna af hvorutveggjum. Fulltrúa rádid lagdi nú á flótta úr borginni ásamt forsetanum, D. Gvadelûpe Viktóría, en rádherrarnir, sem eptir urdu, og höfdu skrifligar fullmaktir frá fulltrúarádinu, tilskipudu aptr nýa embættismenn, einsog uppreistarmenn budu. Hófust þvínæst rán og hervirki í borginni, einkum í þeim hluta hennar, er Parían nefnist, og skipadr er kaupmönnum einum, hvar ógrynni varníngs og audæfa var samankomid; sviptust margir á þann hátt öllu sínu, og var skadi sá metinn til 3 millíóna (dollars) edr meira; slotadi þó eigi laungu sídar ofbeldis adferd þessari, en einganvegin var þó kyrt, er seinast frèttist. Gverrero vard nú yfirstjórnari í Mexíkó, kallast flokkr sá, er hann rædr fyrir, Jorkínar, er unna fríveldisstjórn öllu framar, ber og flokkr sá mikid hatr til Spanskra; vard þad nú og ljóst, er þeir stúngu uppá því, ad allir Spanskir er væru búfastir þar í landi, skyldu innan tiltekins tíma fara af landi, og stadfesti stjórnarrádid framvarp þetta, er svo sagt ad mikill hluti þeirra hafi þegar til fulls og alls, sagt skilid vid land þetta, hvar lífi þeirra og eignum nú eigi leingr virdist óhult.

Frá *Nordr-Ameriku fríveldum* er á þessu tídinda-ári þad helzt ad segja, ad velmeigun þeirra, kaupverzlun og innvortis kraptr þroskadist og jókst á allan hátt, líkt og ad undanförnu. Nýir stadir rísa þar upp hvervetna og

blómgast skjótt, einkum í enum vestlægari fríveldum, og verksmidjur, allskonar vöru-smídi og handydnir taka þar ódum þroska, einkum er bómullarvefnadr þar í miklum blóma. Hèr útgekk í ár merkiligt lagabod, er ýtarligar, og ödruvísi enn híngad til, ákvardar toll af varníngi, er þangad flyzt frá útlöndum, sèrílagi frá Englandi, er ad vísu má heita endrgjald fyrir þad, er Enskir leggja álögur miklar á varníng Amerikanskra, er þeir flytja til Englands. Eigi gedjast þó öllum sambandslöndunum ad tollbálki þessum; þannig hafa fríveldin Georgía og Sudr-Karólína mótmælt honum hátídliga, og borid fulltrúarádinu á brýn, ad þad hefdi hèr stigid fram yfir takmörk þau, er því höfdu sett verid. Voru þar og allmiklar misklídir útaf þrældómi Blökkumanna, er sum löndin vildu med öllu hafa aftekinn, önnur fríveldin þarámóti mæltu fram med hönum, og einkum en sudlægari, sem ega plöntunarakra mikla, og þessvegna þykjast þurfa þræla vid, til ad yrkja þá hæfiliga. Þann 2an december næstlidid ár, kom alþíng sambandsins saman í stadnum Vashíngton, gjördi forsetinn Adams þar gód skil fyrir embætti sínu í sinni stjórnartíd, og var til þessa mikilvæga embættis aptr kjörinn hershöfdínginn Jackson, (sá er sigr vann yfir Bretum 1814 vid Nýa-Orleans), og tekr hann vid völdum í öndverdum marzí mánadi, er sagt ad Enskum líki þad vel, er Adams gekk úr völdum, er þeim þókti stjórn hans lýsa midlúngs vinfengi sèr til handa.

Úr *Vestindíum* frèttust aungvar sèrligar nýúngar; á þeim dönsku eyum þar, var árferdi og uppskera einhvör en bezta.

Á eyunni Kúba hafa Spanskir nú útgjörd mikla fyri stafni til Mexíkó á Ameríku meginlandi, er þeir ætla ad óeirdir þær er hèr geysa, muni koma þeim vel í þarfir, til ad vinna aptr undir veldi sitt bædi þetta ríki og önnur, er þeir ad sinni og líkliga til fulls og alls hafa mist í þessari heims-álfu.

Víkjum vèr þannig loksins sögunni heim til *Danmerkr*, og getum þar fyrst árferdis nokkud á þessu tímabili. Vorid var hèr blídt og fagurt og sumarid framanaf þurt og heitt, enn eigi leid lángt adr enn þetta breyttist til stödugra rigninga, sem mjög spilti heyafla hjá bændum, en kornskurdur vard ad lokunum allgódr, er óvedrinu lètti af, ádr enn uppskeru væri lokid; fluttust því hèdan til útlanda miklar Kornvörur, sèrílagi til Englands, og græddi landid þarvid ad líkindum allmjög; hækkudu og kornvörur í verdi og flestr annar varníngr, medan gángverd sedla fór vaxandi, er árid út hafa verid ad kalla jafngildir silfri edr spesíum, og svo er því ennú háttad. Haustid var hèr allgott med stadvidri, en þegar med vetrnóttum gjördist vedr svalt og nætrfrost mikid; gekk þad allt ad jólum fram, en þá lagdist vetr ad, og gjördist enn hardasti. Stè frostid í febrúar (þann 24 og 27) allt ad 16 grádum á Reaumurs hitamælir, fèll þá og snjór mikill, og venju

framar; lá þá Eyrarsund allt undir ísi, svo aka mátti á sledum med hestum fyrir beinlínis hèdan frá höfninni og yfir til Skáneyar í Svíaríki um þvínær 2 mánudi, edr frá 25 jan. til 20 marzímánadar, er þókti nýúngum skipta. Vard þá hèr í borginni eldividr svo dýr, ad einn fadmr brennis kostadi 16 til 20 rbd. urdu þá og nokkrir ferdamenn úti. Gekk vetrarríki þetta, einsog nærri má geta, mjög ad almenníngi yfirhöfud, einkum í höfudborginni, hvar margr alls á vid þraungan fjárhag ad búa. Var þad nokkud til merkis, er óvenjuliga margir urdu til þess í dagblödum, ad frambera naudþurft sína, og heita á annara gódgirni og adstod, og lýsti þad sèr nú sem optar, ad gódgirni Dana er mikil, og enn eigi aptrfarid. Almennt heilsufar var í Danmörku á þessu ári, einsog annarstadar í nordrhluta álfu vorrar, varla í medallagi; einkum gekk hèr í höfudborginni í haust og á vetr fram mislíngasótt allmannskæd, og þvínæst skarlatssótt, en bádum er nú þegar aflètt. Dóu hèr því margir á þessum vetri, og fleiri enn tala rennr almennt til; því eigi var þad sjaldan á medan hèr var sóttnæmast, ad tala enna dánu yfirsteig þeirra fæddu med 30 til 50 á viku hvörri. Hreifdu sèr og annarstadar í ríkinu kránkleikar venju framar, og leiddu marga til bana. Þarámóti naut Danmörk á þessu tímabili fridar og innbyrdis rósemi, í öllum umdæmum sínum, og urdu gædi þau einkum bersýnilig vid styrjaldar og ofridarfregnir þær, er bárust

frá Grikklandi, en einkum Portúgal og Spáni. Konúngr vor ferdadist á næstlidnu sumri, einsog á undanförnu ári, umkríng í ríkinu, bædi til ad grenslast eptir breytni embættismanna sinna, og til þess ad æfa herlidid sèrílagi á Jótlandi. Kom þá og híngad frægr hershöfdíngi, Bismar ad nafni, frá Vurtenbergi, og fylgdist med konúngi yfir til Jótlands, er mælt honum hafi fundizt mikid um herkænsku og vopnfimi strídslidsins, sèrílagi riddaralidsins. Eptir stutta burtuveru kom konúngr farsælliga heim aptr á eigin lyst-ifara dampskipi sínu, Kíl, og flutti sig þegar út til sumar-bústadar síns á Fridriksbergi. Um sama leiti ferdadist og hans konúngligu háheit prins Kristján umkríng í fylki sínu á Fjóni. Skömmu fyrir midtsumar naut háskólinn hèr þeirrar gledi, ad sjá þá aptr farsælliga heim-kominn einhvörn sinna yppurstu kennara, Íslands göfuga velunnara, Etazrád og Prófessor Byrgir Thorlacíus, sem í hittidfyrra hóf med frú sinni, vísindaferd mikla til útlanda, hafdi hann lengstaf dvalizt í Róm, en líka brugdid sèr þadan til enna merkiligustu stada á nedra Vallandi, og yfir til Sikileyar; vard hann hvervetna fyrir miklum heidri og virdíngum, einsog fyrirtaks lærdómi hans og hyggindum var sambodid.

Hans konúngligu háheit prins Fridrik Karl Kristján ferdadist á öndverdu næstlidnu vori frá Plongeon vid Genf, til Sudr-Fránkaríkis, og þadan til Vallands; var hvervetna tekid á

móti honum med mikilli dýrd; gjördi Neapels konúngr hann ad riddara af ens heilaga Janúaríuss ordu, og af páfanum í Róm þádi hann mikinn sóma. Ad hallandi sumri sneri hann heimleidis til Danmerkr; fór fadir hans móti honum til Altóná, og þadan ferdudust þeir fedgar bádir saman til Hamborgar, hvar þeir fengu dýrdligustu vidtökur ad tilhlutan borgarrádsins; hèldu þeir þadan beina leid heim híngad til höfudborgarinnar, og stigu hèr í land á tollbúdinni fám dögum fyrir fædíngardag drottníngar, var þá ad líkindum gledi mikil í borginni, auk þess er giptíngarhátid hans og kóngsdóttur, sem bar uppá 1sta nóvember, nú fór í hönd.

Deginum ádr (31. októbер) ók konúngr og drottníng, og þau konúngligu brúdhjón frá Amalíuborg til Kristjánsborgarslots, er nú var svo lángt komid, ad hátídin gat þar framfarid. Þann 1sta nóvbr. kl. 4½ framfór í slotskyrkjunni, í vidrvist allra konúngsins ættmanna og náúnga, prinsa og prinsessa; útlendra konúnga sendiboda stjórnarherranna, og allra tignarmanna í 3r efstu flokkum metorda-tilskipunarinnar, ásamt frúm þeirra og dætrum, vígsla prins Fridriks Karls Kristjáns og prinsessu Vilhelmínu Maríu, af konúngsins skriptafödur, doktor Munster, med þvílíkri dýrd og hátídligleika, er ritari frètta-ágrips þessa finnr sèr ofvaxid frá ad segja. Þegar víglunni var lokid, mynntust þau konúngr og

drottníng við þau háu brúðhjón; en fyrir og eptir var undir orgverksins hvella forspili, síngi inn lofsaungr, orktr af konúngsins skriptaföðu Liebenberg sáluga; og þá hönum var lokið, veit konúngr, brúðhjónin og allr enn tignaði söfnuð úr kyrkjunni inn til slotsins í dýrðligustu pró cessíu, og stundu síðar hófst þar en prýðiligust stórveizla á slotinu um kvöldið. Kl. 9 þóknaði konúngi að drekka skál enna konúngligu brúð hjóna, og kváðu þá undir 27 kanónuskot frá vallstykkjagarði vopnahússins, borgarveggjum kastalanum og nýa-hólmi; veizlunni lauk þann dag hèrumbil kl. 10. Innbyggjarar höfuðstað arins lètu einnig í ljósi sína einlæga hluttöku þessari konúngshússins mikilvægu gleði: strax sem vígslunni var lokið, hljómuðu hljóðfæra saungvar með básúnu blæstri fra Nikólaí turni og kl. 8 voru gjörvöll hús í borginni dýrðliga uppljómuð, og sumstaðar með dæmafárri prýði. Meðal bygginga, sem í þessu tilliti tóku öðrum fram, var eð konúngliga sjónarleikahús, Skarlottuborg og póstgarðrinn; mátti þar, og allvíða annarstaðar, sjá dýrðlig gagnskær málverk (*Transparenter*) með þýðíngarfullum hugarmyndum og innskriftum, en hljóðfæra saungvar hljómuðu ókeypis alla nóttina frá ráðstofu salnum, og sjónarleikahúsinu á konúngsins nýa torgi. Daginn eptir, nefniliga sunnudaginn þann 2. nóvember, framfór kl. 2 hátíðlig guðsþjónustugjörð í slotskyrkjunni, og var inngánga teiknum þar-

til fyrirfram útbýta af konúngsins yfir-dróttseta; stè þá konfessíónaríus dr. Munster í stólinn, og hèlt hjártnæma rædu, med sèrligu tilliti til hátídardags þessa, og því næst var af öllum konúngsins hljódfærameisturum og saungvurum framfluttr dýrdligr lofsaungr, orktr af merkisskáldinu, prófessor og riddara Høegh Guldberg. Þegar úti var, veik konúngr aptr til slotsins, vóru þar eigi á þeim degi adrir í bodi hans, enn ættíngjar og handgengnustu stórmenni. Um kvöldid nær dagsetri, fluttu stúdentar hèr vid háskólann, þvínær 1000 ad tölu, hvarámedal nokkrir embættismenn, konúngshúsinu heillaósk sína; söfnudust þeir í því skyni saman á stúdíugardinum, og þadan hèldu þeir, útbúnir med 250 logandi bikkyndlum, og 2r hljódfæra spilaraflokkum í lángri fylkíngarröd upp til slotsins, stadnæmdust þeir framanverdt vid þad í tvísettum hálfhríng, og súngu þar úndir hljódfæraslætti kvædi nokkurt, er í því skyni var orkt af þjódskáldinu Øhlenschlæger, en 5 af þeim, þartil sameiginliga útvaldir, fengu allranádugast leyfi til ad tala vid konúng á slotinu, og færa honum saunginn. Sama kvöldid, kl. 8, þóknadist konúngi og því konúngliga húsi, ad aka út á vögnum sínum, til ad virda fyrir sèr uppljómun stadarins, er nú var reyndar ennþá dýrdligri, enn ed fyrra kvöldid, heilsadi manngrúinn, sem allstadar var fyrir, konúngi sínum hvervetna med hjartanligu gledihrópi, og súm-

drottníng við þau háu brúðhjón; en fyrir og eptir var undir orgverksins hvella forspili, súnginn lofsaungr, orktr af konúngsins skriptaföður, Liebenberg sáluga; og þá hönum var lokið, veik konúngr, brúðhjónin og allr enn tignaði söfnuðr úr kyrkjunni inn til slotsins í dýrðligustu prócessíu, og stundu síðar hófst þar en prýdiligasta stórveizla á slotinu um kvöldið. Kl. 9 þóknaðist konúngi að drekka skál enna konúngligu brúðhjóna, og kváðu þá undir 27 kanónuskot frá vallstykkjagarði vopnahússins, borgarveggjunum, kastalanum og nýa-hólmi; veizlunni lauk þann dag hèrumbil kl. 10. Innbyggjarar höfuðstaðarins lètu einnig í ljósi sína einlæga hluttöku í þessari konúngshússins mikilvægu gleði: strax sem vígslunni var lokið, hljómuðu hljóðfærasaungvar með básúnu blæstri fra Nikólaí turni og kl. 8 voru gjörvöll hús í borginni dýrðliga uppljómuð, og sumstaðar með dæmafárri prýði. Meðal bygginga, sem í þessu tilliti tóku öðrum fram, var ed konúngliga sjónarleikahús, Skarlottuborg og póstgarðrinn; mátti þar, og allvíða annarstaðar, sjá dýrðlig gagnskær málverk (*Transparenter*) með þýðíngarfullum hugarmyndum og innskriftum, en hljóðfæra saungvar hljómuðu ókeypis alla nóttina frá ráðstofu salnum, og sjónarleikahúsinu á konúngsins nýa torgi. Daginn eptir, nefniliga sunnudaginn þann 2. nóvember, framfór kl. 2 hátíðlig guðsþjónustugjörð í slotskyrkjunni, og var inngánga teiknum þar-

til fyrirfram útbýtt af konúngsins yfir-dróttseta; stè þá konfessíónaríus dr. Munster í stólinn, og hèlt hjartnæma rædu, med sèrligu tilliti til hátídardags þessa, og því næst var af öllum konúngsins hljódfærameisturum og saungvurum framflutr dýrdligr lofsaungr, orktr af merkis-skáldinu, prófessor og riddara Høegh Guldberg. Þegar úti var, veik konúngr aptr til slotsins, vóru þar eigi á þeim degi adrir í bodi hans, enn ættíngjar og handgengnustu stórmenni. Um kvöldid nær dagsetri, fluttu stúdentar hèr vid háskólann, þvínær 1000 ad tölu, hvarámedal nokkrir embættismenn, konúngshúsinu heillaósk sína; söfnudust þeir í því skyni saman á stúdíu-gardinum, og þadan hèldu þeir, útbúnir med 250 logandi bikkyndlum, og 2[r] hljódfæra spilara-flokkum í lángri fylkingarröd upp til slotsins, stadnæmdust þeir framanverdt vid þad í tví-settum hálfhríng, og súngu þar úndir hljódfæra-slætti kvædi nokkurt, er í því skyni var orkt af þjódskáldinu Øhlenschlæger, eu 5 af þeim, þartil sameiginliga útvaldir, fengu allranádug-ast leyfi til ad tala vid konúng á slotinu, og færa honum saunginn. Sama kvöldid, kl. 8, þóknadist konúngi og því konúngliga húsi, ad aka út á vögnum sínum, til ad virda fyrir sèr uppljómun stadarins, er nú var reyndar ennþá dýrdligri, enn ed fyrra kvöldid, heilsadi mann-grúinn, sem allstadar var fyrir, konúngi sínum hvervetna med hjartanligu gledihrópi, og sum-

stadar hljómudu saungvar í móti honum; Mánudaginn næstan eptir, var aptr dýrdligasta stórveizla, og gekk þad á allan hátt til sem enn fyrsta dag. Þridjudaginn þann 4da nóvember um hádegisbil, hèlt konúngr og en nýgiptu konúngligu brúdhjón og konúngshúsid frá Kristjánsborg til Amalíuborgar í dýrdligustu prócessíu, vóru þau stræti borgarinnar, er haldid var í gegnum, þèttsett á bádar hlidar af strídsmannalidi, stúdentum og borgurum, en blómstrum strád á veginn; var þá og slíkr manngrúi samankominn á nálægum götum og strætum, ad eigi vard tölu á komid, jók þad og allmjög gledina, ad vedr var blídt og fagrt. Kvöldid eptir (5. nóvember) var, í vidrvist gjörvalls konúngshússins, í því konúngliga sjónarleika-húsi leikid nýtt sjónarspil, samid í því skyni af dr. Heiberg (er mörg slík snillilig samid hefir); var tekid á móti þeim konúngligu brúdhjónum, med fagurri saungvísu, er skáldid, prestrinn Boje, hafdi orkt; og þegar henni var lokid, med þríteknu gledihrópi, af þeim mikla og tígugliga mannfjölda, er þá var þar samankominn; þegar fortjaldid lyptist, gekk enn mikli leikari Nielsèn fram á sjónarplázid, hertýgjadr ad fornum sid, og lèt þar, í nafni Skjaldar konúngs, snjallt og fagrliga mæltan formála (Prólóg) nokkurn, samantekinn af ofannefndu gódskáldi, prestinum Boje, og þvínæst hófst sjálft sjónarspilid, sem endadi med fögru eptirmæli (Epílóg) og marg-

tekna gledihrópi, þegar konúngr veik burt úr sjónarspilahúsinu; voru þá og öll nálæg stræti borgarinnar prýdiliga uppljómud eins og sjálf hátídarkvöldin á undan. Á líkan hátt lètu þegnar konúngs annarstadar í ríkinu gledi sína í ljósi á þessari merkiligu hátíd, med gledisamkvæmum, fjárgjöfum miklum til opinberra þarfa o: s. fr., er lengi munu uppi vera til glediligrar endrminníngar um hátíd þessa. Konúngr gjördi og dag þennan minnisstædan, med því allranádugast ad veita fjölda embættismanna og þegna sinna mikinn frama med hækkun titla og metorda, riddara-ordum og silfrkrossum. Þannig urdu 2 riddarar af fílsordunni, og var annar þeirra konúngsins handgenginn stjórnarherra v. Stemann; 9 fengu stórkross dannebrogsordunnar, þarámedal greifi Moltke, herra til Bregentved; 36 fengu kommandörs krossinn, þarámedal dr. og konfessíónaríus Munster, konferenzrád dr. Schlegel og majór Abrahamson; 120 urdu riddarar af sömu ordu, þarámedal biskup Steingrímr Jónsson, stiptamtmadr Hoppe og stiptprófastr Á. Helgason, kammerherra og stiptamtmadr Castenschjold, jûstizrádin Frydensberg og Werlauff, prófessórarnir Jens Møller, F. Magnússon og Rafn, samt þjódskáldid Ingemann í Sórey, og margir, er ádr voru ordnir riddarar, fengu dannebrogsmanna heidrsmerki, medal hvörra Íslands fyrrverandi stiptamtmadr L. Moltke; hèradauki urdu 15 kammerherrar, 5 leyndarrád,

13 konferenzrád, þarámedal Danmerkr ypparsti lögvitríngr Ørsted, 17 etazrád, 35 jûstizrád, og þannig nidreptir af öllum stèttum og standi. Veitti þá og Kaupmannahafnar háskóli allmörgum doktors heidr í öllum fjórum vísindagreinum eptir ad þeir, einsog sidr er til, höfdu skrifad og opinberliga forsvarad latínskar ritgjördir sínar. Sú mikla vidhöfn og skrautbúnadr, sem hèr var vidhafdr, kom kaupmanna og kramara stèttinni einkar vel, er hofsidir eigi leyfdu konum, ad bera sama búníng vid hátídir þær, er nú fóru fram vid hirdina, optar enn einu sinni; hafdi og konúngr skömmu ádr bodid, ad medlimir enna konúngligu stjórnarráda (Kollegía) skyldu taka upp og bera framvegis einkunnar klædi, er eingir þeirra báru ádr, ad undanteknum Kansellí-herrunum, sást því varla nokkur vid hirdina á hátídisdögum þessum, er eigi bæri gullbaldýrud embættisklædi, og þókti þad einkar vel sæma. Flestir þeir er þegid höfdu skáldskapar andagipt, edr nokkud tóku ödrum fram ad mælsku, keptust nú hvörjir vid annan, ad vídfrægja hátíd þessa, Vor gódfrægi og hálærdi landsmadr, prófessór og riddari F. Magnússon, vard nú sem optar til þess, ad halda svörum uppi af hendi Íslendínga í kvædi nokkru á íslèndsku og dönsku, er nefnist „Íslands bergmál af Danmerkr hátídar-gledi vid þad konúngliga brúdkaup í Kaupmannahöfn þann 1sta nóvember 1828”, og konúngsins skripta-

fadir, dr. Munster, lèt á prent útgánga bædi vígslurædana sjálfa, og þá er hann hèlt sunnudaginn eptir í slotskyrkjunni, og þykir einkum en fyrri vera afbragds vel samin. Af þeim mörgu snillikvædum, er nú útkomu, nefnist hèr einungis eitt af Etazrádi Engelstoft, á látínu og dönsku, og annad af skáldinu Blok-Tøxen, sem einstakt dæmi frábærrar djarfmælgi og einurdar. Þau konúngligu hjón búa í hofgardi ný-lögudum og skrautligum á Amalíuborg, og birtast opt fyrir almenníngi, einkum er prinsinn opt vidstaddr í sjónarleikahúsinu. Hefir hann og á þessum vetri skodad allar opinberar stiptanir í borginni, til ad kynna sèr sèrhvad, þad er ríkisstjórn vidvíkr. Medal helztu braudaveitínga og frama hèr á þessu ári má geta, ad stiptamtmadr Moltke frá Álaborg vard dróttseti hjá hans konúngligu háheitum, prins Fridrik Karl Kristjáni, en stiptamtmadr Castenschjold frá Rípum, fluttist aptr til Álaborgar. Stiptamtmadr Hoppe, er nú ordinn amtmadr í Veile á Jótlandi, en kammerjúnkr og yfir-áditör *Krieger* aptr amtmadr yfir Íslands sudr-amti og settr stiptamtmadr á Íslandi, og víkr hann upp þángad med kaupskipum á þessu vori.

Marga merkismenn sína misti Danmörk á þessu tídinda-ári, má hèr fyrst nefna bæarhöfdíngjann hèr í stadnum, greifa Schúlenborg, er var madr nafntogadr fyri dugnad sinn og konúngs-hollustu, og var því útför hans einhvör

en prýdiligasta, vóru þeirra konúngl. háheit, prinsarnir Kristján og Ferdínand í líkfylgdinni. Þessum nærstan má telja Více-admírál *Ólfert Fischer*, er dó 82 ára gamall; hann var þad sem hafdi fyrirsögn í herskipa-flota Dana í skírdagsbardaganum þann 2 apr. 1801, og er vörn hans þar dýrdlig, og ævarandi minnisvardi á gröf hans látins. Þann 4 marzí andadist vor hálærdi landsmadr, Konferenzrád *Grímr Jónsson Thorkelín*, riddari af dannebrog og leyndar-skjalavördr konúngs; þádi hann á næstlidnu hausti Konferenzráds nafnbót af konúngi til makligra umbuna fyrir lánga og trúa þjónustu. Landsmadr vor, prófessor og riddari Magnússon, er sökum embættis-stödu sinnar var þeim andada mjög handgeinginn, setti hönum heidrandi grafminníngu í bladinu „Dagen".

Nokkru sídar dó Etazrád *Hans Jensen*, fyrrum kommittèradr fyrir Íslands málefnum í rentukammerinu: var honum ennú, þótt hann hefdi lagt nidr embætti sitt, ant um Ísland og þess hag; þekti hann og gjörla deili á flestum embættismönnum þar; hann var gódr vinr Erichsens sál. og kammersekretèri, þegar hann dó.

Skriptafadir konúngs vors, *Liebenberg*, lèzt einnig á þessu tímabili, rúmt sextugr ad aldri, var hann frábært ljúfmenni, og kennimadr mikill og gódr, rit hans eptirlátin eru og mörg, og sum ágæt, var hann og skáld gott; fanst eptir hann látinn lofsaungr, er hlýddi uppá þá

tilvonandi giptíngar-hátíd köngsdóttur, og var hann ad konúngs bodi súnginn á hátídinni, eins og ádr er um getid.

Auk þessara dánu merkismanna, má telja kaptein Jahn og dr. philos. Glíemann, er bádir dóu á úngum aldri, var þeirra mikill söknudr, er þeir hvör um sig höfdu nád sèr heidarligu sæti medal Danmerkr vísinda- og frædi-manna.

Af íslendskum stúdentum hèr vid háskólann dó á þessu tímabili stúdíós. chír. Bened. Bergsson á þrítugs aldri, ættadr af Austfjördum; stödugt heilsuleysi bannadi hönum sín sídustu æfi-ár ad fást til hlítar vid bókmentir, er hann naumast gat á ferli verid.

Ad lyktum getum vèr þess ad konúngi vorum allranádugast þóknadist þann 27 jan. þ. á. ad stadfesta framvarp háskólanna og enna lærdu skóla stjórnarráds, vidvíkjandi stiptun fjölhista-lærdóms skóla nokkurs *(polyteknisk Institut)*, álíkt þeim er finnast í París, Berlín og vídar; stendr stiptun þessi í sambandi vid háskólann, og er þad augnamid hennar, ad efla og útbreida vísindi þau og íþróttir, er eiga nokkud skylt vid mælíngar-, krapta- og grunnmaskína-frædi. Er því svo tilhagad ad hèr fara opinberir fyrirlestrar fram af þartil tilskipudum kennurum, og jafnframt æfíngar í því sem kennt verdr; hefir konúngr gefid mikla penínga-summu til stiptunar þessarar, auk annars fjárstyrks, er hún á vid ad stydjast, hvad allt lofar stiptun þessari

lángri æfi; en fyrst tekr hún til starfa á komanda hausti, og eru kennarar þegar tilskipadir. þykir audsætt, ad stiptun þessi muni miklu gódu fá áleidis komid, þegar framlída stundir. Einsog í fyrra fylgir greinilig skírsla frá annari hendi um bækr þær enar helztu, er hèr á þessu ári eru á prent útgeingnar, og er þeim því med öllu slept, þó getr þess hèr, ad Miltons paradísar-missir, á ísl. útlagdr af þjódskáldinu Sira Jóni sál. þorlákssyni, er hèr í vetr útkominn, ad tilhlutan og á kostnad vísindamanns nokkurs, *Heaths* ad nafni, frá Kambbryggjuborg á Einglandi. Hefir hann sídan gefid felagi, voru mestallt upplagid, og kemr nú bókin þannig heim til sölu á Íslandi med gjafverdi; þakkadi prof. og riddari F. Magnússon hönum, sem makligt var, sídan í snotru kvædi á íslenzku og ensku fyri edallund hans og rausnarsemi.

Árgángr á *Íslandi* um 2 næst undanfarin ár og til þess nú er komid, er í fám ordum þessi: vetrinn 1827 var vídast hvar á Íslandi hardr, og vorid kalt og gródrlítid, fèll peníngr því töluverdr; einkum á Austr- og Vestr-landi. Grasvöxtr vard þad sumar gódr, en vegna rigníngar hröktust hey vída, og reyndust því eptirá mjög dádlaus, en haustid og vetrinn var hvervetna á Íslandi einhvör enn bezti. Sama er ad segja um næstlidid sumar og vetr þenna, allt fram í góu byrjun, þá póstskipid fór þadan, var því ad líkindum almenn vellídun þar manna

á milli. Fiski-afli var og mikill bædi þessi ár á Íslandi, og kauphöndlun ad sínu leiti allgód, þó líkliga bezt eystra; en heilsufar þar var miklu bágara, er þúng kvefsótt gekk yfir land allt, og lagdi margt fólk af öllum aldri, þó einna helzt úngbörn, í gröfina, er eigi veikindum þessum enn sumstadar aflètt. Vart hefir og ordid í vetr vid jardskjálfta eystra, og er svo sagt ad hrunid hafi nokkrir bæir, en fregnir hafa eigi ljósar affarid; póstskipid kom híngad í ár frá Íslandi til Helsíngjaborgar í Skáney þann 1ª apr., er ísalög í sundinu eigi leyfdu því lengra ad komast, en sídan er þad gengid til hafnar í Helsíngjaeyri, en brèf þau er med því voru, komu híngad nærsta dag, er íslenzkir kaupmenn hèr gjördu mann út, til ad sækja þau.

Ennþá (6ª apr.) er vedrátta hèr stird, og blídkast lítid, þykir því líkligt ad skipaferdir muni tálmast ad sinni ad ísalögum, þó er þetta mjög komid undir vedrlagi og vindstödu framvegis.

---

# Fèlagsins ástand og athafnir.

Þann 5. marzí var aðal-samkoma í fèlagsdeild vorri á vanaligum stað, og hèlt forsetinn, próf. Rask, þar ræðu þessa:

M. H.

„Aptr er útendað eitt fèlagsár, og það er í dag sú aðalsamkoma, sem halda ber á vorrar deildar afmælisdegi, samkvæmt seinasta viðbætir við lögin, helzt ætluð til þess at yfirlíta þess liðna árs ástand, iðnir og viðburdi.

Það er þá helzt frá þessu ári að segja, að á því hefir flestallt gengið fèlaginu í vil, og þó við höfum haft ærin útgjöld, svo er þó þarvið aðgætandi, fyrst að það er helzt vegna fyrra árs ráðstafana, og það annað að fèlagið, fyrir hylli guðs og góðra manna, hefir feingið skaða sinn ríkugliga bættan, með því sem afrekað er Íslands bókmentum til frama og ódauðligs heiðrs. Fyrst eru fullbúin og útgefin þau verk, sem byrjuð voru, en eigi búin, á seinasta afmælisdegi fèlagsins, sem eru Æfisaga Konferenzráds Jóns heitins Eyríkssonar með andlitismynd og skrifhandar sýnishorni, sæmiliga vel og falliga prentuð; þarnæst 7da deild Íslands árbóka, sem inniheldr 6ta hluta og nær til árs 1684. Einnig er byrjað að prenta 8du deild, og fimm arkir búnar, en þareptir hefir viljað það slis til, at stykki af handritinu hefir týnzt, og hefir því orðið að standa við fyrst um sinn, þar sem komið var.

þarhjá er útkomin Sira Jóns þorlákssonar útleggíng af Paradísar-missir, á kostnað Hra. Jóns Heaths, og hefir þessum heiðrsmanni og Íslands vini þarhjá þóknazt að skeinkja fèlaginu heila upplagið, svo mikið sem tekið var á prentpappír, nfl. 300 expl. með einúngis þeirri ósk, að það yrði allt ætlað til útsölu á Íslandi, og ekki fyrir hærra andvirði heldr enn ríkisdal, sem raunar má heita gjafvirði fyrir jafnstóra bók og jafnvandaða; og vonar mig að fèlagið taki því med þökkum, og láti það verða víst og stöðugt, sem hann hefir tilmælzt, enn þó eigi skipað.

Loksins hefir heiðrsfèlagi og aukaforseti okkar Hra. Próf. Finnr M. s. ort þakklætiskvæði hèrfyrir í Íslands nafni á íslenzku og ensku, sem verðr prentað hjá Popp, og sem mig vonar, megi gánga á fèlagsins reikníng eins og kvæðit til Baróns De la Motte Fouqués, þar eð fèlagið ekki einúngis hefir haft svo stóra gleði af þessu, að sjá jafnmerkiliga ísl. bók útgefna, heldr hefir því einnig hlotnazt svo stórkostlig gjöf, sem getið er.

Hvað peníngа-ástand fèlagsins snertir, þarum mun reikníngr gjaldkerans gefa fulla upplýsíngu, en til yfirlits bið eg fèlagið að leyfa mèr, að upplesa ágrip af reikníngnum, sem gjaldkèrinn hefir sendt mèr. Er það svo látandi:

„Tekjur fèlagsins í ár:

| | Silfr. | Sedlar. |
|---|---|---|
| Innkomnir frá Íslandi.... | 11 rd. ; ß | 155 rd. 10 ß |
| Gefnir af H. H. Kónginum | 100 - ; - | ; - ; - |
| Heidrslima tillög............ | ; - ; - | 105 - ; - |
| Yfirordu- og ordulima-tillög............................ | 41 - ; - | 13 - 80 - |
| Andvirdi seldra bóka hèr | ; - ; - | 70 - 32 - |
| Rentur af fèl. höfudstól | 112 - ; - | 69 - 12 - |
| Eptirstödvar hins íslenzka Lærdómslista-fèlags frá Etazr. Jensen, innbetalad til vors fèlags (auk 200 rbd. í skuldabrèfum) í peníngum.. | 75 - 71 - | ; - ; - |
| alls.. | 339 rd. 71 ß | 413 rd. 38 ß *) |

*) Eina ríkisbánka obligazíón, stóra 100 rd. í silfri, hefi eg keypt fyrir 101 rd. 60 ß í silfri; meira voga eg ekki at kaupa, því margar útgiftir eru fyrir höndum, líka er ekki fèlagsdeildarinnar fjársjódr í Reykjavík ennú til vor kominn, sem hefir gert mikla þurdu í tekjum fèlagsins í ár; en kynni hann, sem líkligt er, koma med póstskipi, má strax kaupa fyrir hann rentuberandi skuldabrèf — þetta bid eg ydr, sem forseta, at kynna fèlaginu í rædu ydar. Bókþrykkjari Møller hefir einnig betalad 100 rd. silfrs í ár til baka af láni því, er hann fèkk í fyrra af fèlagi voru; einnig 32 rd. silfrs í rentu, hvörjir 32 rd. eru hinsvegar reiknadir medal rentu tekjanna.

Kph. þann 1ta marzí 1829.

*Þorgeir Gudmundsson*
núverandi gjaldkeri.

Útgjöldin hafa verið:

| | Silfr. | Seðlar. |
|---|---|---|
| Fyrir prentun og pappír til fèlags. forlagsbóka, samt þeirra innbindíng | 200 rd. ſ ß | 297 rd. 6 ß |
| Fyrir Stiptsbókasafnið í Reykjavík........................ | ſ - ſ - | 108 - ſ - |
| Fyrir koparstúngna mynd til æfisögu konferenzr. Jóns Eyríkss......................... | ſ - ſ - | 65 - 68 - |
| Óákveðin útgjöld. s. s. til fèlags. sendiboða, leiga af geymlu húsrúmi, auglýsíngar, innpökkun, skriffaung...... | ſ - ſ - | 60 - 90 - |
| alls.. | 200 rd. ſ ß | 531 rd. 68 ß" |

Hèraf sèst að Fèlaginu hefir einnig á þessu ári hlotnazt sú venjuliga náðargjöf af H. H. konúnginum, svo og líka af greifa A. V. Moltke.

Þarnæst hefir það feingið góðan enda á sameiníngarmálinu við það gamla Lærdómslista-fèlag, sem sumir jafnvel voru farnir að örvænta um, og af því öðlazt mjög töluverða peninga.

Loksins hefir það haft þá gleði, sem áðr var nefnd, að sjá Paradísarmissir falliga útgefinn án eigin kostnaðar, og þá æru að þiggia mestallt upplagið að gjöf, sem einnig má álíta fjögra eða fimm hundruð dala virði.

Þarámóti, eins og eingin sæla er fullkomin undir sólunni, hefir fèlagið líka liðit þann missri, að þess heiðrsfèlagi, sá aldraði og utan-

lands sem innan nafnfrægi merkismaðr, Grímr Jónsson Thorkelín, er afliðinn fyrir hægan dauða í gær morgun snemma, einsog áðr þess orðuligr fèlagi, sá góðkunnugi Hra. Stúd. Chírúrg. Benedikt Bergsson. Einn hefir sagzt úr fèlaginu, eins og birt var á næstundanförnu samkomunni, enn við hafa bæzt tveir heiðrsfèlagar og nokkrir orðulimir, sem listi skrifara, er prentast á í næsta árgángi Skirnis, mun nákvæmar greina.

Hra. Þórðr Jónasson hefir aptr í ár eptir mínum tilmælum góðfúsliga tekizt á hendr, að semja frèttirnar í Skírnir fyrir það umliðna ár, og mun hann víst leysa það eins vel af hendi og í fyrra, og er allareiðu búinn að sýna mèr fram undir helmíng af þeim. Eitt efni er það, sem eg get ekki gefið fèlaginu upplýsíng um, enn sem stendr, og það er hver endir verði á prentverkssökinni í Íslandi, þar eð ekkert hefir heyrzt frá Kansellíinu nè Reykjavíkrdeildinni, síðan vèr skrifuðum þeim í sumar um þetta efni.

Þetta eru þau skil, sem lögin tilskylda mig að gera mínum fèlagsbræðrum í dag fyrir það embætti, sem þeir hafa mèr fyrirtrúað, og sem eg nú afhendi þeim aptr til nýrrar ráðstöfunar. Eg geng vakandi að því, að mín stjórn hafi í mörgu verið ófullkomnari enn vera bæri, en þykist samt hafa unnið, svo sem eg hefi getað, fyrir hinna íslenzku bókmenta frama, túngunnar prýði, fèlagsins þroska og velgeingni; og

vilji þeir láta mèr þessu, skal mèr það þau sætustu laun fyrir mitt starf. Eg hefi þá nú einúngis eptir að þakka yðr ástsamliga, fyrst mínum embættisbræðrum sèrílagi, en þarmeð öllum og sèrhvörjum alla þá virðíng og atstoð með hógværð og samlyndi, sem þèr mèr á þessu ári auðsýnt hafið, og að óska yðr enn miklu stærri heppni og heilla með þá nýu stjórn, sem þèr egið að velja fyrir það komandi ár."

Því næst voru valdir embættismenn, og voru enir sömu aptr tilkjörnir, nema Hra. Baldvin Einarsson varð aukaskrifari í stað Hra. Jakobs Thórarensens. Voru og valdir nokkrir meðlimir, og framlagðr reikníngr gjaldkerans, og talað um annað þeim fundi tilheyrandi.

Annar vor-fundur var haldinn þ. 5[ta] apríl, voru þar framlögð brèf nokkur, komin til fèlagsins frá Íslandi með póstskipinu.

Var þar mikilvægast framhald af árbókunum, nfl. 8[di] hluti (1710-1743), sem viðtekið var að prenta í sumar, einsog stafrofskver nokkurt, samið af Próf. Rask.

---

# Reik

yfir tekjur og útgjöld hins

frá 28. febr. 1828

| Sjá fyrra árs reikning | Tekjur | Silfr Rbd. | Silfr ß | Seðlar Rbd. | Seðlar ß |
|---|---|---|---|---|---|
| | 1) Eptirstöðvar frá 29^da febr. 1828: | | | | |
| | a) í skuldabréfum: | | | | |
| | α) konúngligum........ | 1300 | " | " | " |
| | β) ríkisbánkans........... | 900 | " | 800 | " |
| | γ) þjóðbánkans........... | 500 | " | " | " |
| | b) í peningum.......... | 256 | 24 | 242 | 16 |
| | 2) Frá Íslandi innkomið: | | | | |
| | fyrir seldar félagsbækr.: | | | | |
| | Amtmanni G. Jóhnsen..................... | " | " | 48 | 46 |
| | Hreppstjóra Þorsteini Gíslasyni.... | " | " | 7 | 72 |
| | Stúdíós, S. Sivertsen á Eyrarbakka....... | " | " | 31 | " |
| | Faktor Bech......... | " | " | 16 | 32 |
| | — Thaae......... | " | " | 5 | 48 |
| | — Baagøe........ | " | " | 16 | 48 |
| | — Thórarensen | " | " | 9 | 52 |
| | — O.Steenbach | " | " | 14 | 64 |
| | Tillag biskups St. Jóhnsens............................. | " | " | 5 | " |
| | Tillag amtmanns B. Thorsteinsens............... | 6 | " | " | " |
| | Tillag amtmanns G. Jóhnsens ....................... | " | " | 5 | 15 |
| | Tillag sýslumanns L. Thórarensens ................ | " | " | 3 | 9 |
| | Inngjalda upphæð | 2962 | 24 | 1205 | 18 |

# níngr
## íslenzka Bókmentafèlags
til 28. febr. 1829.

| Fylgiskjöl | Útgjöld | Silfr | | Seðlar | |
|---|---|---|---|---|---|
| No. | | Rbd. | ß | Rbd. | ß |
| 1. | 1) Fyrir prentun á Skírnir...................... | " | " | 52 | " |
| 2-4. | 2) Prentunarlaun fyrir Árbókanna 7^da og 8^da deild, samt fyrir æfisögu konferenzráðs Jóns Eiríkssonar...................... | 66 | " | 164 | 88 |
| 5-7. | 3) Fyrir pappír til Árbókanna og Skírnis...... | 134 | 87 | " | " |
| 8-10. | 4) Fyrir innbinding á Árbókanna 7^du deild og æfisögunni, samt prakt-exempl. er fèlagið hefir gefit...................... | " | " | 80 | 14 |
| | Útgjalda upphæð | 200 | 87 | 297 | 6 |

| Tekjur | Silfr | | Seðlar | |
|---|---|---|---|---|
| | Rbd. | ß | Rbd. | ß |
| Inngjalda upphæd frá næstu ópnu | 2962 | 24 | 1205 | 18 |
| Tillag sýslumanns Chr. Magnúss | 3 | " | " | " |
| Tillag sýslumanns Melsteðs | 2 | " | " | " |
| Tillag sýslumanns Gunnlaugss | 3 | " | " | " |
| 3) Gjöf Hans Hátignar konúngsins | 100 | " | " | " |
| 4) Tillög fèlagsins meðlima í Danmörk | | | | |
| *a*) Heiðrslima: | | | | |
| Kammerherra greifa Moltkes | " | " | 100 | " |
| Prófessor Magnúsens | " | " | 5 | " |
| *b*) yfirorðulima: | | | | |
| Candid. theol. Borrings | " | " | 3 | 9 |
| *c*) Orðulima: | | | | |
| Rektors Arnesens | " | " | 3 | 9 |
| Próf. Rafns | 3 | " | " | " |
| Reservekirúrgs E. Guðmundss | 3 | " | " | " |
| Candid. juris V. Eiríkssonar | 3 | " | " | " |
| Dr. Michelsens | 2 | " | 1 | " |
| Candid. theol. Þ. Guðmundss | 3 | " | " | " |
| Studios. theol. Þ. Helgasonar | 3 | " | " | " |
| Studios. juris J. Thorarensens | 3 | " | " | " |
| Inngjalda upphæð | 3090 | 24 | 1317 | 36 |

| Fylgi-skjöl | Útgjöld | Silfr | | Seðlar | |
|---|---|---|---|---|---|
| No. | | Rbd. | ß | Rbd. | ß |
| | Útgjalda upphæð frá næstu opnu | 200 | 87 | 297 | 6 |
| 11. | 5) Víxlat fyrir seðla, sem reiknaðir eru meðal tekjanna.......... | 200 | " | " | " |
| 12-13. | 6) Fyrir koparstúngna mynd til æfisögunnar, til málara og grafara.......... | " | " | 65 | 68 |
| 14. | 7) Laun fèlagsins sendiboða.......... | " | " | 40 | " |
| 15. | 8) Fyrir prentun á Stiptsbókasafnsuppskriftinni.. | " | " | 108 | " |
| | 9) Óákveðin útgjöld: | | | | |
| 16-18. | *a*) fyrir umbúðir um fèlagsins bækr, flutníng þeirra, skriffaung, brèfaportó, þóknun til portnarans á sívala turni samt fyrir smá atvik | | | | |
| | Útgjalda upphæð | 400 | 87 | 510 | 74 |

| Tekjur | Silfr | | Seðlar | |
|---|---|---|---|---|
| | Rbd. | ß | Rbd. | ß |
| Inngjalda upphæð frá næstu opnu | 3090 | 24 | 1317 | 36 |
| Studios. juris Þ. Jónassonar | 3 | " | " | " |
| Studios. juris J. Jónssonar | 3 | " | " | " |
| Studios. juris H. Bachmanns fyrir 1827 og 28 | 6 | " | " | " |
| Studios. juris B. Einarssonar fyrir 1827 og 28 | 6 | " | " | " |
| Studios. theol. J. Thorarensens | " | " | 3 | 9 |
| Studios. theol. Sæmundssonar | " | " | 3 | 9 |
| Studios. chirúrgiæ E. Johnsens | 3 | " | " | " |
| 5) Frá Etazráði H. Jensen eptirstöðvar hins ísl. Lærdómslistafélags: | | | | |
| a) 2 kredítkassa skuldabréf á 100 rbd | 200 | " | " | " |
| b) í peníngum | 76 | 71 | " | " |
| 6) Rentur af félagsins höfuðstól 1828: | | | | |
| a) til 11ta júni og 11ta decembr af | | | | |
| α) konúngligum skuldabréfum | 52 | " | " | " |
| β) þjóðbánkans | 20 | " | " | " |
| γ) ríkisbánkans | " | " | 32 | " |
| δ) kredítkassans | 8 | " | " | " |
| Inngjalda upphæð | 3466 | 95 | 1355 | 54 |

| Fylgiskjöl | Útgjöld | Silfr | | Seðlar | |
|---|---|---|---|---|---|
| No. | | Rbd. | ß | Rbd. | ß |
| | Útgjalda upphæð frá næstu opnu | 400 | 87 | 510 | 74 |
| | og sendiferðir í félagsins þarfir.......................... | 〃 | 〃 | 21 | 68 |
| 19. | b) Leiga af félagsins geymsluhúsrúmi.......... | 〃 | 〃 | 25 | 〃 |
| 20-21. | c) Fyrir prentun auglýsingar um félagsins ástand og atgjörðir, samt fyrir prentun diplóma............................. | 〃 | 〃 | 8 | 64 |
| 22. | d) Fyrir raudt og blátt umslag til Skírnis........ | 〃 | 〃 | 6 | 18 |
| 23. | 10) Keypt eitt ríkisbánkans skuldabréf, stórt 100 Rbd. silfrs, undir No. 4503, fyrir.............. | 101 | 60 | 〃 | 〃 |
| | Útgjalda upphæð | 502 | 51 | 572 | 32 |

| Tekjur: | Silfr | | Seðlar | |
|---|---|---|---|---|
| | Rbd. | ß | Rbd. | ß |
| Inngjalda upphæð frá næstu opnu | 3466 | 95 | 1355 | 54 |
| b) til 6te jan. 1829 af ríkisbánkans skuldabr. | ″ | ″ | 37 | 12 |
| c) til nýárs 1829 af félagsins láni til bókþrykkjara Møller í fyrra, stóru 800 rbd. silfrs.... | 32 | ″ | ″ | ″ |
| No.11. 7) Víxlat 200 rbd. silfrs fyrir.......................... | ″ | ″ | 219 | 76 |
| 8) Frá bókþrykkjara Møller til afbetalíngs því 800 rbd. láni, er hann í fyrra fékk af félaginu | 100 | ″ | ″ | ″ |
| 9) Keypt eitt ríkisbánkans skuldabréf, hljóðandi uppá.......................... | 100 | ″ | ″ | ″ |
| 10) Andvirði seldra bóka hér í staðnum, frá bókaverði Studios. chirúrgiæ E. Jónssyni.................... | ″ | ″ | 70 | 32 |
| Inngjalda upphæð | 3698 | 95 | 1682 | 78 |

*Kaupmannahöfn* þann 28 Febr. 1829.

Í reikningi þessum er ekki getit þeirra 700 rbd. silfrs sem félagit hefir til góða hjá prentara Møller, af því 800 rbd. láni, er hann í fyrra fékk hjá félaginu, og sem hann hefir skuldbundit sig til at afbetala með 100 rbd. silfrs árliga, auk rentna, eins og hann í þetta sinn skilvísliga hefir fullnægt þeirri skyldu sinni.

*Þorgeir Guðmundsson*
núverandi gjaldkeri.

| Fylgiskjöl | Utgjöld | Silfr | | Seðlar | |
|---|---|---|---|---|---|
| No. | | Rbd. | ß | Rbd. | ß |
| | Útgjalda upphæð frá næstu opnu | 502 | 51 | 572 | 32 |
| | 11) Eptirstöðvar: | | | | |
| | a) í skuldabréfum | | | | |
| | α) konúngligum.......... | 1300 | " | " | " |
| | β) ríkisbánkans........... | 1000 | " | 800 | " |
| | γ) þjóðbánkans........... | 500 | " | " | " |
| | δ) kreditkassans......... | 200 | " | " | " |
| | b) í peníngum............... | 196 | 44 | 310 | 46 |
| | Útgjalda upphæð | 3698 | 95 | 1682 | 78 |

**Framanskrifaðan reikníng höfum við nákvæmliga yfirskoðað og að öllu leiti réttan fundið.**

*Kaupmannahöfn* **þann 21. Marzi 1829.**

*F. Magnússon,*
**p. t. fèlagsins aukaforseti.**

*Þ. Jónasson,*
**p. t. fèlagsins aukagjaldkeri.**

# Utsk

## af Reikníngsbók ens íslenzka

| Datum | |
|---|---|
| 1827. Sept. 20 | Amtmaðr yfir Norður- og Austur-amtinu Jóhnson innsendir andvirði seldra bóka frá Kaupmanni Havsteen á Hofsós.................... |
| Okt. 3 | Prestr Jón Steingrímsson í Hruna sendir tillag fyrir þetta ár með Landfógeta S. Thorgrímsen.................................................... |
| 1828. Marzí 27 | Sýslumadr í Húnavazsýslu Blöndahl innsendir med brèfi, dagsettu 26 febrúar þ. á. 15 rbd. n. v. í smáskildíngum fyrir af honum seldar fèlagsbækr; kvittanzía þarfyrir meddeild s. d.............................................. |
| | Konsistórialassessor Oddsen innsendir 38 rbd. n. v. í smáskildíngum, innkomna frá prófasti Böðvari þorvaldssyni á Stað í Steingrímsfirdi, fyrir af honum seldar bækr; kvittanzía þarfyrir gefin s. d.......................................... |
| Ág. 15 | Sýslumaðr O. Finsen borgar tillag fyrir 1828 |
| Sept. 2 | Stúdíósus Th. Thorgrímsen borgar fyrir 14 bindi Lærdómslistafèlags rita frá Kaupmannahöfn.............................................. |
| — 5 | Stiptprófastr Helgason borgar tillag fyrir 1828 |
| | Hreppstjóri Jörundr Olafsson — — — |
| | Lector Theologiæ Johnsen — — — |
| | Landphysicus J. Thorsteinsen — — — |
| | Adjunkt Sv. Egilsson — — — |
| | Konsistórialassessor Oddsen — — — |
| | Stúdíósus, Faktor G. Petersen — — — |
| | Landsyfirrèttar Assessor Thórarensen — — |
| | Stiptamtmaðr v. Hoppe — — — |
| | Kaupmaðr S. Sivertsen — — — |
| | Etazráð Ísl. Einarsen — — — |
| | Gullsmiðr Thomsen — — — |
| 1829. Jan. | Faktor P. Rist — — — |
| Febr. 20 | Kaupmaðr C. W. Ebbesen — — — |
| | Andvirði seldra bóka frá 13 Sept. 1827 til ársins útgaungu 1828.............................. |
| | Summa... |

# r i f t

## Bókmentafélags deildar í Reykjavík.

| Nafnverð | | | | Silfr | |
|---|---|---|---|---|---|
| Seðlar | | Skildíngar | | | |
| Rbdlr. | ß | Rbdlr. | ß | Rbdlr. | ß |
| 2 | " | " | " | " | " |
| " | " | 1 | 57 | " | " |
| " | " | 15 | " | " | " |
| " | " | 38 | " | " | " |
| " | " | 5 | 45 | " | " |
| " | " | " | " | 2 | 32 |
| " | " | " | " | 5 | " |
| 3 | " | " | " | " | " |
| " | " | " | " | 4 | " |
| " | " | " | " | 3 | " |
| " | " | " | " | 5 | " |
| " | " | " | " | 3 | " |
| " | " | " | " | 2 | " |
| " | " | 4 | " | " | " |
| " | " | " | " | 5 | " |
| " | " | " | " | 3 | " |
| " | " | " | " | 4 | " |
| " | " | " | " | 2 | " |
| 4 | " | " | " | " | " |
| " | " | " | " | 3 | " |
| " | " | 43 | 34 | " | " |
| 9 | " | 107 | 40 | 41 | 32 |

Af þessum sjóð eru 41 rbd. 32 ß silfrs og 64 rbd. nafnverðs depóneraðir í þeim konúnglega íslenzka Jarðabókarkassa, hvaruppá Félagsdeildinni í Kaupmannahöfn sendast Depósizíónsbevís, dagsett 23 þ. m., en leifarnar, 52 rbd. 40 ß nafnverðs innistanda hjá mèr til nærstkomandi sumars, þá þær, ef Fèlagið ei þarf þeirra til útgjalda hèr í landi, skulu sendast Deild Fèlags vors í Kaupmannahöfn, ásamt því, sem þá kynni meira innkomið vera.

Þannig að fyrirmælum Forsetans rètt útskrifað

*Reykjavík* þann 3. marzí 1829.

*S. Sivertsen.*

---

# Hinar helztu bækr,

## útkomnar í Kaupmannahöfn árið 1828.

---

### 1) Guðvísi.

*Repertorium for aandelige Sager af* S. Thisted, 1 h., 3 ₰; þaraf eru 7 h. útkomin.

*Mindetale over vor Frelser Jesus Cristus, udført i Prækener paa alle Söndage og Helligdage fra 1ste Adv. til Himmelfartsdagen af* Peter Tetens, *Sognepræst*, 3 rbd.

*Dydlære for Ungdommen i Tankevers og bibelske Sprog af* H. J. Birch, 18 ß.

*Lærebog i den christelige Religion til Brug for den studerende Ungdom ved Prof. Dr.* N. Fogtmann, 2det *forbedrede Oplag*, 1 rbd. 24 ß.

*Sørgetale over afdøde kgl. Konfessionarius L. F. Liebenberg* 1828 *af* J. P. Mynster, 1 ₰.

*Mindetaler over afdøde Geheime-Statsminister Greve C. D. F. af Reventlow af Biskop* Boisen, *Provst* D. Smith *og Pastor* Clausen, 3 ℔.

*Nyt theol. Bibliothek udg. af* Jens Møller *Dr. og Prof. i Theol.*, 13 h., 15 ℔.

*Om Christendommens Forsvar i Danmark mod falske Lærere og falske Lærdomme af* Jac. Chr. Lindberg, 24 ß.

*Das Gleichniss vom verlorenen Sohne am 3. Trinit. Sonntage, von Dr.* J. C. G. Johansen, 16 ß.

*De falske Propheters Kjendetegn, Prædiken paa 8de Sönd. e. Tr. af Dr.* A. G. Rudelbach, 16 ß.

*Kernsprüche der Bibel, zusammengestellt von Dr.* Johannsen, 32 ß.

*En liden Bibelkrönike for Börn og menig Mand ved* N. F. S. Grundtvig, *Præst, 2den omarbejdede Udg.*, 44 ß.

*Det G. Testaments poetiske Skrifter efter Grundtexten paany oversatte og med Indholdsfortegnelse samt Anmærkninger forsynede af Dr. Prof.* J. Møller, 15 ℔. *)

*Den ældste hebraiske Tidsregning indtil Moses, med et Kårt over Paradis af Prof.* R. Rask, 1 rbd.

*Catechetisk Udvikling af Luthers Catechismus af* A. Sørensen, 8 ℔.

*Bönnebog til Brug i Landsbyskoler af* P. O. Boisen, *Biskop*, 76 ß.

*Dr. og Pastor* Johansens *Religionsforedrag for Jesu tænkende Bekjendere, oversat og ledsaget med en Fortale af Prof.* Rahbek, 1. b., 10 ℔.

*Efterretninger om den udenlandske nyere Theologiske og Pastorale Litteratur, meddeelt Fyens Geistlige ved*

---

*) Sá annar partr, sem inniheldr Spámannanna rit, mun einnig bráðum útkoma frá þess alþekta og hálærða Stiptprófasts Dr. R. Møllers hendi.

